# ÍSLENZK

# LJÓÐABÓK

## JÓNS ÞORLÁKSSONAR

prests að Bægisá.

---

### FYRRI DEILD.

KAUPMANNAHÖFN.

Prentað á kostnað *Þorsteins* stúdents *Jónssonar*

hjá *J. D. Kvisti*, bóka-prentara og nótna.

1842.

## TIL LESENDA.

Við það keppast allar mentaðar þjóðir, að safn rita enna helztu merkismanna, sem rita eða hafa ritað á þeirra máli, verði sem alkunnast, og kjósa helzt að *öll* verk þeirra komi fyrir sjónir, til þess allir menn geti lært að þekkja þá til hlýtar, eigi að eins af því, hversu þeir hafa komið fram í ritum sínum, heldur einnig hversu öllum hag þeirra hafi háttað verið og skaplyndi, þareð hvorttveggja þetta hefir enar mestu áhrifur á verka þeirra. Jón prestur þorláksson hefir almennt verið talinn þjóðskáld Íslendínga meðan hann var uppi, og útleggíngar hans á tveim enum mestu merkiskvæðum útlendra skálda, Paradísarmissi og Messíasdrápu Klopstokks, hefir einnig gjört hann frægan utanlands, einkum á Englandi; svo hafa og Íslendíngar með styrk bókmentafèlagsins fengið kost á að kynna sèr þessi en ágætu kvæði. Af enum eldri kvæðum sèra Jóns, einkum þeim sem hann hefir snúið úr öðrum málum, eru nokkur prentuð á Íslandi: Túllíns-kvæði í Hrappsey og kvæði

Pópa í Leirárgörðum, og síðan nokkur önnur, en rit þessi eru komin svo á víð og dreif að þörf er á að ljóðmælunum væri safnað í eitt, og raðað niður, svo menn ætti kost á að kynna sèr fullkomliga, hvílíkt skáld land vort hafi átt þar sem Jón Þorláksson var. Ekki þótti samt eiga við að prenta á ný en miklu kvæði, sem áður var getið, þeirra Miltons og Klopstokks, heldur einúngis hin minni kvæði, bæði frumkveðin og útlögð.

Það er skylt að gjöra lesendum grein fyrir, á hverju útgáfa þessi er bygð, en aðdraganda hennar er lýst í boðsbrèfi útgefandans, og hefir tálmi sá sem orðið hefir á prentuninni risið af því, að mikið var ósafnað af kvæðunum, og mörgu öðru sem til útgáfunnar heyrði, þegar kvæðin komust í hendur útgefandanum.

1) Hvað viðvíkur niðurröðun kvæðanna þótti helzt eiga við að skipta þeim í tvo aðalflokka, eptir því sem þau eru útlögð eða frumkveðin, en af þeim tveim aðalflokkum er hinn útlagði flokkurinn tekinn fyrr, fyrir því að hann þykir merkiligri að efninu til, og að vöxtum er hann að öllu samtöldu meiri enn hinn. Af enum útlögðu kvæðum er "tilraun um manninn" að öllu leiti hið merkiligasta, og þvínæst Túllíus kvæði, en hinum er slegið öllum í einn flokk og raðað eptir

efni, sem hverr lesenda mun eiga hægt með að sjá og átta sig í. Brot útlagðra kvæða þótti bezt eiga við að setja í flokk sèrílagi, þó sum af þeim sè sama efnis og nokkur þeirra sem eru í flokkinum næst á undan, en eitt er frábrugðið, og er það söguljóðin um frelsun Ísraels úr Egiptalandi.

2) Kvæðin sjálf eru prentuð eptir beztu handritum sem kostur var á að fá, og er þess getið við hvert sèrílagi þegar eiginhandarrit hefir verið til, en hitt eru allt afskriptir eða prentaðar bækur. Meðal handritanna er einkum að telja þau sem sèra Þorsteinn sál. Helgason hafði skrifað, og eru þau mikill hluti smákvæðanna, en hann hafði borið afskriptir sínar saman við ýmislig söfn á Íslandi, og merkt með bókstöfum, sem nú verður ekki sagt hvað eigi að þýða. Handrit hans er því að eins talið sem eitt, en orðamunar er ekki getið nema þar sem hann er bygður á eiginhandar riti, heldur er tekið það sem bezt þótti, og næst fór frumriti ens útlenda höfundar, sem víðast hvar var hagnýtt til hliðsjónar, enda er orðamunur óviða mikill nema þar sem auðsýniliga er rángfært af skrifurum kvæðanna. Í safni Rasks sál., sem nú er á turni, er mörgum kvæðum sèra Jóns safnað saman, og er það gott safn, og margt eiginhandarrit, eða samanborið við þau

af Rask sjálfum. Þetta safn er hvervetna hagnýtt þar sem það nær til. Safn bókmentafèlagsins er og hagnýtt, en það er víða rángt og varð því að hafa vareygð á að fylgja því, er þess því getið þar sem því er fylgt einu. Þá eru nokkur kvæði sem útgefandinn hefir safnað, og enn nokkur laus kvæði sem til eru með hendi ymsra, er ekki þykir vert að telja nákvæmligar. Yfirskriptir kvæðanna eru víða nýjar, en margar eru eptir skáldið sjálft; athugasemdir eru einnig flestar nýjar, og stutt skíríng um höfunda kvæðanna, svo og æfisögu-ágrip Pópa og Tullíns.

Síðari deild kvæðanna mun verða fullbúin að vori komanda, og mun fylgja henni æfisaga skáldsins sjálfs.

## YFIRLIT.


*I. Tilraun um manninn . . . bls. 1—120.*

*II. Kvæði Kristjáns Túllíns . . 121—194.*

1. Sjötti Maidagur . . . . . . 125—139.
2. Hugleiðíngar um hið eptirkomanda 139—146.
3. Sorgar-þánkar um dauðans makt gegn dygðinni . . . . . . 146—165.
4. Sæför . . . . . . . . . . 166—194.

*III. Ýmislig útlögð kvæði . . . 195—399.*

1. Sá einasti guð . . . . . . 197—202.
2. Á stjörnuskírri nóttu . . . . 202—205.
3. Fríþeinkjarinn . . . . . . 206—211.
4. Farsæld heimskíngjanna . . . 211—223.
5. Anægjan . . . . . . . . . 224—230.
6. Til Gleðinnar . . . . . . 230—232.
7. Geðprýðin . . . . . . . . 232—233.
8. Þrár mínar . . . . . . . 234—235.
9. Til Apollons . . . . . . . 236—238.
10. Smábýlið . . . . . . . . 238.
11. Landkostirnir . . . . . . 239—240.
12. Til vinu minnar . . . . . 240—241.
13. Sonardilla . . . . . . . 241—242.
14. Vínið . . . . . . . . . 242—243.

15. Glaðværðin . . . . . . bls. 243—244
16. Kvennareglur . . . . . . . 244—245.
17. Víngæðin . . . . . . . . . 246—247.
18. Víndrykkjan . . . . . . . . 247—248.
19. Víndrykkjumegin . . . . . 248—250.
20. Heimur enn bezti . . . . 250—252.
21. Jarðar óminnis-elfan . . . . 253—254.
22. Gott vín . . . . . . . . . 255.
23 Slæmt vín . . . . . . . . . 256.
24. Pandóra . . . . . . . . . 257—259.
25. Hófsins skál . . . . . . . . 259—260.
26. Biskupsbragur . . . . . . 260—262.
27. Tóbakspípan . . . . . . . . 262—263.
28. Svefninn . . . . . . . . . 264—268.
29. Hugganin . . . . . . . . . 269—270.
30. Ronzevals herför . . . . . 271—273.
31. Hverr var eg . . . . . . . 273.

32. Herslhöfðínginn . . . . . . . 274—276.
33. Brúðguminn og dauðinn . . . 276—281.
34. Skapadómurinn . . . . . . . 281—285.
35. Semnon og vefréttin . . . . 285—291.
36. Gaungumaðurinn . . . . . 291—292.
37. Ógæfan . . . . . . . . . 292—295.
38. Haltur og blindur . . . . . 295—296.
39. Sagan um hattinn . . . . . 296—299.
40. Draumgleðin . . . . . . . . 300—302.
41. Draugurinn . . . . . . . . 302—306.
42. Testamentið . . . . . . . . 306—310.
43. Erfðargjöfin . . . . . . . . 310—311.

44. Sá föðurlausi . . . . bls. 311—312.
45. Fátæklíngurinn . . . . . . 312—313.
46. Karlinn væni . . . . . . . . 314.
47. Bænasystirin . . . . . . . 315—320.
48. Land enna höltu . . . . . 320—321.
49. Betlarinn . . . . . . . . . 322—324.
50. Kóngulóin . . . . . . . . . 324—326.
51. Þrætna konan . . . . . . 326—330.
52. Kólnuð ást . . . . . . . . 331.
53. Heimasæturnar . . . . . . 331—333.
54. Uppbyrjunin . . . . . . . . 333—335.
55. Maðurinn og flyðran . . . . 335—336.
56. Sá fokreiði . . . . . . . . 336.
57. Sá forsjáli . . . . . . . . 336—337.
58. Húskinn . . . . . . . . . 337—338.
59. Hátíðarslángið . . . . . . 338.
60. Uxinn og flugan . . . . . 338.
61. Oflátúngurinn . . . . . . . 339.
62. Apturhvarfið . . . . . . . . 339—340.

63. Lènharður og Blandína . . . 341—352.
64. Ínkli og Yarikó . . . . . . . 352—359.
65. Álfur og Lýna . . . . . . . 359—361.
66. Vofa Hlöðvis . . . . . . . . 361—364.

67. Brèf Yarikóar til Ínkla . . . 365—377.
68. Klögunarsaungur Negra . . . 378—379.
69. Harmakvak næturgalans . . . 379—381.

70. Demantinn . . . . . bls. 382—396.
71. Ástarlýsíng . . . . . . . . 397.
72. Ósk . . . . . . . . . . . 397—398.
73. Fyrirbæn . . . . . . . . . 398—399.
74. Heimsgæðin . . . . . . . . 399.

*IV. Útlögð kvæðabrot . . . . 401—496.*

1. Frelsun Ísraels, fyrsta bók . 403—468.
2. Brot af Gullbergs-kvæðum . . 468—475.
3. Drambsemin (brot af brèfi) . . 476—480.
4. Til Harpagons (brot af brèfi) . 480—489.
5. Til Ragótíns (brot af brèfi) . 489—496.

# I.

# TILRAUN
# UM MANNINN.

Lær, maður! sjálfan þig að þekkja'
og þennan heim,
þekking og elsku guðs ei gleym!

## STUTT ÁGRIP ÆFISÖGU ALEXANDERS PÓPA.

Alexander Pópi var fæddur í Lundúnum 22ann Maí 1688. Foreldrar hans voru bæði af góðum ættum, og var faðir hans lèreptavefari; bæði hèldu þau páfatrú, og ættnafn þeirra Pópi (Pope) þýðir páfa á voru máli. Haustið eptir að Alexander var fæddur varð stjórnarbilting á Englandi: þá var Jakob hinn annarr rekinn frá ríki og með honum páfatrúin, en Vilhjálmur enn þriðji settist að völdum. Pópi enn eldri hætti þá þegar vefnaði, og seldi allt sitt við peníngum, því hann vildi ekkert eiga við ena nýju stjórn; síðan flutti hann sig úr Lundúnum og út í nánd við Vindsor-skóga, þar sem heitir Binmörk *(Binfield)*, og bjó þar síðan. Fè hans var 20,000 punda (90,000 spesía) virði þegar hann fór frá Lundúnum, en síðan gekk það af honum, og var hann nær því snauður maður þegar sonur hans tók við arfi eptir hann. Pópi hinn ýngri var viðgángslítill og óhraustur í barnæsku einsog jafnan síðan, en bráðgjörr að gáfum. Rödd hans var svo fögur að menn nefndu hann "næturgalann litla." Hann lærði að lesa hjá ömmu sinni, en sjálfur komst hann uppá að skrifa, eptir prentuðum bókum. Þegar hann var átta vetra kom faðir hans honum fyrir hjá presti nokkrum katólskum, er Taverner hèt og bjó í Hampskíri; þar lærði Pópi nokkuð í grísku og latínu. Þaðan komst hann í Twífurðuskóla, og var þar eitt ár; síðan komst hann í Hyde-Park-Corners skóla, og var hann þá tíu vetra. Um þær mundir gekk honum seigt og fast með lærdóm, því hann var þá að leggja út Ummyndanir *(Metamor-*

*phoses)* Óvidíus í laumi, og gáði lítt að Dónati og Grammatík. Þá sá hann fyrst leikna trúðleiki (skoðunarspil), og fannst mikils um vert; setti hann þá saman trúðleik úr Hómer og bætti inní sjálfur vísum hèr og hvar, fèkk síðan skólabræður sína til að leika með sèr í garði skólameistarans. Mælt er að Hómer og Sandrýs útlegging af Óvidíus hafi fyrst vakið lyst hans til skáldskapar, og orti hann mart um þetta skeið, en brenndi það síðan mestallt sjálfur, eptir að hann fór að stefna hærra. Þegar hann var tólf vetra tók faðir hans hann heim til sín aptur, var þá fenginn prestur til að kenna honum, og las hann þá bækur Ciecerós um skyldurnar, en ekki varð þar mikið ágengt, og leiddist föður hans að hafa kostnað þann lengur, til ónýtis að honum þótti, sleppti hann þá taumhaldi við son sinn og lèt hann ráða sèr sjálfan, enda las þá Alexander um 7 ár verk enna ágætustu skálda bæði fornra og nýrra, og svaraði föður sínum þegar hann spurði hvað hann ætlaðist fyrir, að hann kvaðst ætla að verða skáld, og mun föður hans hafa þótt það aðkvæðalítil fyrirætlun.

Það er haft eptir Pópa, að hann hafi sagt hann myndi ekki hvenær hann hefði byrjað fyrst að yrkja, en ekki er skáldskapar hans getanda fyrr enn hann var 16 vetra; þá orti hann hirðisljóð *(Pastorals)*, og voru þau prentuð 1709. Eptir það kynntist hann við nokkra ena helztu gáfumenn sem þá voru uppi á Englandi, t. a. m. Addison, en engum þeirra átti hann að líkindum einsmikið að þakka og Walsh, því hann sýndi honum leið þá sem lág til frægðarinnar og brýndi fyrir honum jafnan, að ef hann vildi verða frægur maður yrði hann að vera vandlátur við sjálfan sig og ekki trassa bragarháttu og orðfæri, einsog þeim enum eldri skáldum hefði orðið á. 1709 orti nú Pópi "Tilraun um ritdóma" *(Essay on Criticism)*; 1712 "hárlokkaránið"

*(the rape of the lock)*, heimsádeilukvæði, sem Addison sagði væri "tómt salt", þ. e. tóm fíndni; þá orti hann líka "musteri mannorðsins" *(the temple of fame)*, sem Gröndal hefir snúið; 1713 "Vindsor-skóga" *(Windsor Forest)* og brèf Eloisu til Abelarðs; um það bil sneri hann einnig Ilíonsdrápu Hómers og fèkk hann fyrir það verk 5320 pund eður nærfellt 24000 spesíur, en 1721 og þareptir sneri hann Ódysseifsdrápu með stuðníngi tveggja vina sinna, og er hvorttveggja kallað ágætt verk. 1728 orti hann kvæði það sem hann kallaði glópamál *(The Dunciad)*, og er það heimsádeila og ekki í vægara lagi, enda snernst margir til fjandskapar við hann fyrir það kvæði. 1733 kom út fyrsta brèfið af "Tilraun um manninn" *(Essay on man)*, nafnlaust, og undruðust allir prýði þess, en Pópi sagði ekki til sín fyrrenn hið síðasta brèfið kom út. Eptir það varð frægð hans fullkomin. 1734 orti hann "karlmanna lýsíngu" *(Characters of men)* og nokkru síðar "kvennfólks lýsíngu" *(Epistle on the characters of women)* og á árunum 1730—40 ritaði hann smámsaman eptirstælíngar eptir Hórats, og þykja þær hafa heppiliga tekist. Ekki gat Pópi á sèr setið jafnframt þessu að rita háðkvæði, og olli það honum mikils óþokka; fór hann þá úr því að veikjast og hætti að yrkja, en varði tið sinni til að yfirfara og bæta um verk sín. Hann andaðist á garði sínum Twickenham á Tempsárbökkum 30ta Maí 1744.

Pópi var lítill maður vexti og bæklaður, svo að hann gat aldrei klætt sig nè afklætt hjálparlaust, en í heimboðum varð að ætla honum hærra stól enn öðrum, svò hann næði yfir borðröndina. Skaplyndi hann er lýst með tölnverðum annmörkum: hann var önugur í geði og brugðið er honum um ágirnd og dramb; en jafnframt því var hann mörgum kostum búinn: hann var

einarður maður og ófeilinn, djarfur og vinfastur, og enn elskurikasti sonur foreldrum sínum. Sannur gáfumaður var hann, bráðskarpur, vel minnugur og enn snotrasti smekkmaður, fyndinn og heppinn bæði í orðum og hugsunum. Í kveðskap hans ber að vísu meira á skynsemi enn á ímyndunarafli og næmri tilfinníngu, en skarpleik hans og orðheppni er viðbrugðið, og yfirhöfuð að tala er hann enn talinn meðal höfuðskálda á Englandi; Byron (frb. Bæron) lávarður, eitt hið mesta skáld sem verið hefir, mat Pópa framar öðrum skáldum, og hefir hann ritað um hann og kallað það "Tilraun um Pópa" *(Essay on Pope)*; hann kallar hann fegurstan skálda *(fairest of poëts)*, þ. e. liprastan eða snotrastan. Það hafa og margir fyrir satt, að ekkert skáld hafi verið tekið til fyrirmyndar af einsmörgum og Pópi, og hafi hann lagað flestallan skáldskap á Englandi sem síðan hafi komið fram, jafnvel þeirra sem þóttust standa honum hvað fjærstir.

Kvæði það sem hèr fylgir hefir eigi að eins verið víðfrægt á Englandi, heldur og um alla Norðurálfu og hefir því verið snúið á þjóðversku (þrisvar), á Frakknesku (tvisvar), á Dönsku og án efa á fleiri mál. En danska útlegging er eptir Lous nokkurn og er prentuð í Sór (Sórey) 1759, og aptur 1776 á kostnað fèlags nokkurs í Danmörku sem nefndist "Eflíngar fèlag enna fögru vísinda"; er útleggíngunni þar nokkuð breytt. Eptir þessari er útlegging sèra Jóns gjörð, að líkindum eptir það hann var kominn norður (eptir 1788), og er útleggíngin prentuð á Leirárgörðum 1798 og tileinkuð Stefáni amtmanni þórarinssyni. Þessari útgáfu er fylgt hèr, með stöðugri hliðsjón til frumritsins og ennar dönsku útleggíngar. Yfirlit efnisins í hverju brèfi er eptir frumritinu og athugasemdum er bætt við þar sem helzt þótti við þurfa.

## TILRAUN UM MANNINN,

í fjórum brèfum til

*Jóns lávarðar Bolingbroks*

frá

*Alexandri Pópa.*

### FYRSTA BRÈF,

*um náttúru mannsins og ástand, með tilliti til alheimsins.*

YFIRLIT EFNISINS:

Um manninn yfirhöfuð að tala: —

I. Vèr getum að eins ályktað um það sem á við heimskerfi sjálfra vor, en þekkjum ekki samband sjálfra heimskerfanna nè margs annars. II. Ekki ber að kalla manninn ófullkominn, heldur er hann vera, sem er löguð samkvæmt stöðu hans og tign meðal skapaðra hluta, á vel við allsherjar reglu þá, sem í hlutunum er og fyrirætlanir forsjónarinnar, þó honum sè þær ókunnar. III. Farsæld hans í þessu lífi er að einu leiti bygð á *vanþekkíngu* hans á enu komanda, og að öðru leiti á *von* hans um ástandið síðarmeir. IV. Dramb það, að keppast eptir meiri þekkíngu og seilast til meiri fullkomnunar enn manni er lagið, er orsök til villu manna og eymðar.

Hversu óguðligt sè að setja sjálfan sig á guðs stól, og dæma um, hvort ráðstafanir hans sè hentugar eða óhentugar, fullkomnar eða ófullkomnar, rèttvísar eða órèttvísar. V. Um þann afglapahátt, að setja sjálfan sig sem seinasta mið sköpunarinnar, eða vænta þeirrar fullkomnunar í enni siðferðisligu veröld sem ekki finnst í enni líkamligu. VI. Hversu óskynsamligar sè kvartanir manna gegn forsjóninni: að menn vilji á annann bóginn hafa yfirburði englanna en á hinn bóginn líkamligt atgjörvi skynleysíngjanna, og þó mundi það olla manni mikillar vesældar, ef nokkurt af skilníngar-vitum hans væri skarpara enn er. VII. Í allri enni sýniligu veröld sèr maðr allsherjar-reglu og röð, í gáfum bæði vits og skilníngs, og þaraf leiðir, að ein skepnan er annarri lægri og allar lægri manninum. Röð sú sem er meðal skapaðra skepna að skyni, náttúruviti *(Instinct)*, hugsun, yfirvegun og skynsemi. Skynsemin ein er jafnvæg öllum hinum. VIII. Hversu miklu lengra röð þessi og niðurskipan enna lifandi skepna muni ná fyrir ofan oss og neðan. Brotnaði einn hlekkur úr keðju þessari, færi eigi að eins sá partur úr lagi, heldur allt sköpunarverkið, sem er svo ná-samtengt. IX. Hversu aulaligt, illmannligt og drambsamligt sè að æskja slíks. X. Ályktan alls ens fyrrtalda: að vèr eigum að fullu og öllu að hlýta forsjónarinnar vilja um ástand vort bæði hèr og síðarmeir.

Vakinn eg bið minn vinur! sèrt,
voldugra fursta skarnhofmóð'
eptirlát sèrhvert einkisvert
og ærugirndar blindri þjóð!
Við skulum (með því vor lífs-ár
vart hrökkva til að skygnast um
í veröldinni og verða nár)
við slíkt ei lètta gánginum!
Nei, minnumst heldur manninn á,
mannsins á leik- og sjónar-völl!
það er ein stór og fjölbreytt flá,
í fagri röð þó skipuð öll;
aldingarður, hvers bönnuð björk
býður ávöxt er freista kann;
banvænum jurtum blandin mörk
blóma saman við heilnæman.
Kom! þenna skulum villuváng
vítt ferðast um og skoða rètt;
leita hvert horn og leynigáng
líka þár í hvern opin blett;
horfa glöggt eptir hverri flöt
og hæðum öllum vel að gá;
já, engu skal vor iðn ólöt
aðgætnisverðu sleppa hjá:
ei framar því, sem eptir jörð
ómerkt liður og firrist sjón,
en hinu, sem með hárri ferð
hörfar í ský við stjarnafrón! —
Fylgjum náttúru fastri slóð

fótspor hvar sem hún lætur sitt,
og dáraskap með djarfan móð
dróma reyrum á flugi mitt!
Sèrhvern plagsið í sinni rót,
sèrhvern lífernis prófum hátt,
þar sem gefst færi, hlæjum hót,
haf við alvöru þar sem mátt!
Eflum guðs dýrð í öllu þó
æ jafnan kyni voru hjá,
vorn skilníng, sem í villu bjó,
vegaspor hans svo leiðum á!

I. En — nær til mannsins niður hèr,
nær upp til guðs vèr stígum þar,
hvar, nema' á því sem vitum vèr,
vorir fást bygðir hugdómar?
Nú um þann, sem eg nefndi fyrr,
nær ei vor frètt yfir lengra bil
enn meðan hann í heimi kyrr
hefir sitt stand, og enn er til;
því verða bæði að hefjast hèr
og hèr að lykta dómar þeir,
um mann sem eru myndaðir,
manns stand og hagi síðarmeir;
og þótt veröldum ótal í
augljósan drottinn gjöri sig
í vorri skulum vèr fyrir því
voldug hans rekja fótastig:
Hann, sem endalaust afgrunn heilt
einn gegnum sèr, og skilið fær,

hvernig eitt kerfi heims afdeilt
hvervetna tengjast öðru nær,
hvaraf loks verður allt það eitt
engin takmörk sem viður þver,
ein sífeld keðja, svo margbreytt
að sèrhverr hlekkur veröld er;
hann, sem plánetu hverri' og sól
hefir staðfastar sjónir á,
og að sèrhverri, er á þar ból,
ýmissi tegund virðist gá; —
hann veit, hann getur skírt oss skil
skaparinn nóg hvort hafði rök
að haga svo í heimi til
sem hèr er gjört fyrir vora sök.
En, hvort mun sál þín hafa með
hugviti sínu gegnum þrengst
almættisverkið allt, og sèð
öll hjól og fjaðrir þar inn lengst
í smíði því, hve nákvæmt, nett
nemur hverr partur annann við,
og þegar allt er saman sett
sèrhverr af þeim ber máta-snið? —
Veit hún hvers kraptar viðaukníng?
hve vex um tröppur megin hvört?
mun partur einn í mjóum hríng
mikið allt höndla sem er gjört? [1]

---

[1]) Pópi segir: *can a part contain the whole?* getur *einn hluti* haldið *öllu* saman.

Sú stóra keðja', er sífleytt allt
saman knýtir á eina lund
og heldur því í hóp ávallt,
er hún í guðs eða þinni mund?

II. Fullt af sèrþótta jarðar-jóð!
jeg veit þú spyr að orsök þess
að þú komst híngað lýðs á lóð
svo lítill, blindur og óhress;
en spyr, ef getur, áður að,
— ei er lèttari gáta sú —:
hvarfyrir miklu minni' enn það,
meir blindur, veikur, ei komst þú!
Spyr móður þína Fjörgyn fyrst:
fyrir hví skagar eikin há
svo lángt uppyfir lýng og kvist,
er liggja' í hennar skugga má?
Spyr festíng, yfir fold og haf
fagurliga sem tjaldað er:
hví túnglum sínum öllum af
einn að stærð beri Júpíter?
Sè víst, að kerfi veraldar
vísdómur guðs, þar autt var skaut,
meðal alls þess sem möguligt var
hið mest-fullkomna skapa hlaut,
hvar allt má fylla rúmið rètt
ef röð skal haldast orðulig
og sèrhver, upp sem stígur, stètt
má stíga um tröppur hver fyrir sig;

þá er sannleikur þetta hreinn:
þvílík tegund sem maðurinn er
í stiga skepna stórum einn
stað hlýtur víst að eiga sèr;
svo (hvað sem lengi' er þrætt um það)
að þessu verður einu frètt:
hvort vel og rètt í valin stað
vísdómur guðs hafi manninn sett?
 Hvað augum vorum órètt lítst
einasta þegar manns er gætt
hlýtur þó rètt að vera víst
ef viður gjörvallt því er bætt.
I vorum gjörðum, öll þó við
alúð sè lögð hið þreyða' að fá,
þúsund umsvifum með á mið
megum þó varla' um síðir ná;
þarámót hræríng ein að eins
útrètta kann það guð vill skeð,
og svo sem önnur orsök leynds
annars til hlutar þèna með,
svo þótt manninum sýnist jörð
sèrdeilis heyra þessi til
og hann, af þeim hún handa' er gjörð,
hafi forsætis æðstu skil,
leikur hann kannske öðrum á
ókendum hnetti, sèr þó leynt,
eitt annað spil, sem ásamt má
til afls og gengis styrkja beint;
þar kann eitt snortið hrærast hjól,
hreifast kann spennifjöður ein —

Vèr fáum ei það almakt ól
allt sèð, heldur þess litla greiu.
Nær ólmur skynjað foli fær
ferð hans hví nú er streizt á mót,
en óðum keyrður endrarnær
á að þverspora mold og grjót;
og nær einn uxi þekkir þrár
hví þúngur plógur nú hann lýr,
annað sinn krönsum undir stár
egipzkur guð, nú fórnar-dýr:
manni þá fyrst að sjá með sann
í sínum heimskuþótta tekst,
hvarfyrir líður, höndlar hann,
híngað og þángað gengur, rekst;
hans tilhneigíngar, vera, verk,
vegna hvers ætluð sèu hèr,
og hví hann þræld6ms-álög sterk
en annann tíma guðdóm ber.
Kær því ei guð! og segðu síst:
sjá! fullkomnir ei erum vèr,
heldur: sèrhverjum vor er víst
veittur sá algjörleiki hèr
sem þvílík vera í þeirri stètt,
þeim stað sem hann er, borið fær;
vort skyn er veikt; vèr byggjum blett;
um bifan augans[1] hjörum vær.

III. Aðra síðuna af skapa-skrá
skepnu sjá hverja lætur guð

[1]) bifan augans = augnablik.

að eins: hvar þessarar stundar stá
stand og kjör hennar á rituð.
Manns þekkíng dýrum óljós er,
hvað andi veit er manni dymmt,
hvað aumt líf væri' ei annars hèr
og álag forlaganna grimmt!
ef lambið, sem til dráps í dag
dæmt hefir maga-grǽðgi þín,
hefði þitt vit og hyggjulag,
hvort mundi það um grasbeð sín
hoppa svo kátt og bíta blóm,
já, blíðri snapa túngu með
fram rèttan þar til fíngurgóm
fossa þess blóð að getir sèð?
Ó! vægðarfulla vanþekkíng
vort um ókomið blítt og strítt,
hvað ástúðliga er allt umkríng
til allra skepna þèr útbýtt!
að málhríng fylli sèrhverr sinn
og sá tilgángur komi fram
skýlaust, er alvís skaparinn
skikka frá eilífð henni nam.
Hann, sem með auga sama sèr
særðan titlíng að falla' á grund
og stríðshetju, sem sterkust er,
streymir til bana dauðleg und;
eitt sólskinsmor og sólar-hríng
úr sinni röð að gánga hvurt;
blöðrukorn sundur stökkva' af stíng
og stóra veröld hrynja burt.

Vert því auðmjúkur, vona' og líð,
vængjum skjálfandi bregð á flug,
hins mikla fræðis, banans, bíð,
bið guð og dýrka af öllum hug!
Hvílík sæla þèr ætluð er
ei leyfir hann að vitir þú,
en gaf vonina þartil þèr
að þín sè líkn og sæla nú.
Náttúru manns og önd er í
eilíft hnoss vonar grundvallað,
aldregi sæll, hann eptir því
alltíð hlakkar að verða það;
hans önd, nær leiðist heima-sút,
huggun og ró þar enga fær,
til hins ókomna hvarflar út,
hægðir sækjandi' í bygðir þær.
Blindan Indíabúa sjá!
brjósti sá einföldustu með
í reið og stormi raust guðs há
rás í skýjum fær heyrt og sèð:
af hroka-lærdóms uppfræðíng
aldrei svo mikið vit hann hlaut
að dýra kæmist hann að hríng
huganum með, nè vetrarbraut;
þó hefir námlaust náttúran
nært huggun þeirri von hans opt,
að fjalltind bak við fjærlægan
finnast blíðara muni lopt;
að betri veröld eptir líf
öðlast muni hjá skógi smám

af þèttum við, og þyggja hlíf
þar í forsælu' af stórum trjám;
að gróðameiri', af grandi frí,
grund verði' í skauti sævar, hans,
hvar loksins megi þræll og þý
þraslaust njóta síns föðurlands;
þar engin fjanda kremji kvöl
og kristin aldrei gapi þjóð
af gull-fíkn, heldur geiglaus dvöl
gefist hvervetna' á þeirri lóð.
Það hann sè til, hans ósk er ein,
af öðru fær ei hugarsvim,
um engla-flug ei aktar nein
eða ljómann af Serafim.
Í björtu skýi', hann ber þá trú,
bólstað nær öðlast hafi sinn,
að rakki, sem hann rækir nú,
rati þar líka með sèr inn.

IV. En þú, sem framar þykist vís,
þín hugarsmiði veg ofbráð
á heimsku-met, sem hátt upp gýs
himins forsjónar móts við ráð!
allt hvað þèr fellur ekki' í geð
ófullkomleika kalla þú!
seg: hèr of-naumum mæli með,
hèr meir enn skyldi, veitir sú!
Að dægrastytting drep og kvel
dýr sèrhvert, einsog lystir þig!
seg þó: ef mèr ei vegnar vel

veit eg að órètt skeður mig!
ef guð umsorgun ekki ber
einasta fyrir manni' af leir,
sè hann algjörður ekki hèr
og ódauðligur síðarmeir:
þá er guðs verk og hegðan hans
harla misjöfn og órèttvís; —
svo sker að stjórnun skaparans
skimp, og með hálfverks-nafni lýs!
þríf sprotann þínum föður frá!
fyrir rètt kalla dómarann!
set hans veldis-stól vit þitt á!
víg til yfir-guðs þig sjálfan! —
Að vitið hyggur yfir sig
í því er brot og villa manns;
sèrhverr vill uppá æðri stig
af knettinum, sem þó er hans;
því alltíð hærra' enn höndin fer
hofmóður seilast vill í tafn:
engli maðurinn æskti sèr —
engillinn guði' — að vera jafn;
en — sem englar, að gjörast guð
er girntust, hrepptu slisaför,
eins munum vèr, ef öfunduð
englanna látum tignar-kjör;
því reglu hverr vill rofna, þá
ræsir náttúru setti vís,
í ofdirfð mestu sekur sá
sjálfum Jehóvæ móti rís.

V. Spyr: hverjum jörð til gagns er gjör?
gullinn hvarfyrir röðull skín?
þá gefur drambið þessi svör:
"Það er einúngis vegna mín!
"Nýjan frjófgunar nærir þrótt
"náttúran starfsöm fyrir mig;
"í hverju blómstri' og urta-gnótt
"örláta jafnan tjáir sig;
"mèr engla-drykkjar-veig í vil
"víntrèð út hellir sèrhvert ár,
"og mín dásætum andar til
"ylm hið ljúfasta rósin klár;
"margföld námunnar málmríkt skaut
"mèr fram auðæfi býður sín,
"og sèrhvert trè með limum laut
"að láta' aldini rètt til mín.
"Já, heilsu-meðöl ótal af
"uppsprettum renna mèr í hag;
"sólin á himni glæstum gaf
"glansa, svo lýsi mèr hvern dag.
"Á sjónum veltur aldan ör
"auðlegð minni svo skili brátt;
"foldin er minna fóta skör,
"en fögru ský eru þak mitt hátt!"
En — mun náttúran aldrei þá
af þeirri skeika gæzku-braut:
blossanda lopti beint nær frá
bleikur dauði sem píla þaut; —
að stíflum brotnum stormur nær

strýkur burt hvað sem líf er í —
eður jarðskjálfti' í eina slær
allt niður gröf: land, fólk og bý?
"Nei, allshöfundur", ansa menn,
"við aðgreind lög er bundinn síst,
"heldur í verki hverju senn
"hinum almennu fylgir víst,
"hvar undanteking, en þótt fá,
"og umbreyting á stundum sker;
"og hvort mun skapast hafa sá
"hlutur, sem rètt fullkominn er?" —
Þú hermir rètt — en hví vilt einn
heimta fullkominn manninn þá?
sè hans vellíðan sá marksteinn
er sèrhverr hlutur stefnir á; —
og þó stundum á ymsan hátt
útaf því bregður náttúran
hvað er að furða þóað þrátt
þar frá og víki sjálfur hann?
Ei krefur framar út það mið
einskorðað form í vorri leit
enn að skiptist með sama sið
sólskin jafnan og dögg á reit;
ei framar sífelt logn í lund
og laungum keiprètt þánka-spor
enn að heiðríkt sè alla stund
og aldrei nema blíða vor.
Ef guðs rígfastri ráðstöfun
raskað jarðskjálfti' og pest ei fá,

hve það Borgía [1] megna mun
meir, eður Katilína [2] þá? —
Æ, drambið! drambið orsök er
oss sjálfa þekkjum vèr svo lítt,
um náttúrunnar hlaup og hèr
hvað hendir illa dæmum títt.
Hverr veit, nema sú hönd alráð,
sem hörðum skruggum þeytir ljóst,
mátalaust ærugirndar-gráð
gefið í Sesars [3] hafi brjóst?
Veiztu nema sá voskaps hafs
og vængi storms fær hvest og deyft
hafi til landa og lýða straffs
lausum fram Alexander hleypt? —
Ályktan vor um aldar sið
einsog um hitt, er skylt að sè,
sem náttúrunni víkur við;
vèr getum ei með rèttsýni

[1]) Sesar Borgía, launsonur Alexanders páfa ens sjötta (1494—1505), ætlaði með svikum og ódáðum að leggja undir sig ríki á Ítalíu, en það mistókst svo, að hann varð að fara landflótta til Spánar og fèll þar í bardaga 1506. Hann var hinn mesti afreksmaður að afli og hreysti, og er mælt hann hafi getað höggvið höfuð af nauti í einu höggi.

[2]) Lucius Sergius Katilína er alkunnur um svikræði þau sem hann bruggaði ráðinu í Rómaborg, en Ciceró gat hnekkt ódáðum hans, og eru enn til ræður þær sem hann hèlt móti Katilínu. Sallústíus hefir ritað sögu um Katilínu og framferðir hans, og er hún einnig til enn.

[3]) Sesar, þ. e. Júlíus Sesar.

forsvarað guð í seinni sök
en sett ens fyrra skuld á hann,
um hvorttveggja' eru rètt leidd rök
að ráðum hans sig feli mann.
Máske þèr þætti betur bygð
bæði, svo sem þinn hugur kaus,
að þetta væri' ei utan dygð
en hitt samhljóðan greinarlaus;
að sífelt logn um lopt og sjó
leyfði þeim aldrei vindagný
og sinnis- hvergi raskist -ró
ráð og skynsemd sè alltíð frí.
En höfuðskepna stöðugt stríð
staðfast er það sem gjörir allt,
og höfuðskepnur lífs hjá lýð
lyndishneigíngar, vita skalt.
Skipan sem alvís andi, guð,
öndverðri náttúrunni gaf
ein og söm manni' er innplöntuð
allt frá því veröld tók upphaf.

VI. Hvað þá manneskja hyggur slík?
hún flýgur stundum upp ei skamt,
og, þótt svo gott sem englum lík,
á annað meira stundar samt;
aptur eins tvist og hugar-hreld
horfir niður og klagað fær:
að bolmagn nauts og bjarndýrs-feld
nè beittar þess ei hafi klær.

Fyrst hún keppir: að sèrhver sè
sín að eins vegna skepna gjör,
væri það nokkur nytsemi
nær hún er sjálf sem þeirra hvör?
Örlát og góð, án óhófs þó,
afkvæmum sínum náttúran
megn og líkama-mynd þeim bjó
mest er sèrhverju þèna fann,
og forsjál mjög, að fylla' af nægð
þar finnast mundi nokkurs vant —
hèr meður afli, hèr með slægð,
hèr með skjótleika — lèt sèr annt,
allt mátað við þá hæð og hátt
sem hagur hverrar skepnu ber,
stikað, svo hvorki stórt nè smátt
stofnað má betur æskja sèr.
Ánægt við takmörk úthlutuð
unir kvikindi hvert og dýr,
er þá manninum einum guð
of harðlyndur, og gjöf hans rýr?
Skal hann þá, hverjum skyn háleitt
og skilnings brúkun eignum vèr,
með yfirtak ei nægjast neitt
nema' hann allt fái sem til er?

Nei, það er fjærri farsæld manns
(fors og dramb hvað sem móti ber)
að ásköpuðum högum hans
hærri sè makt og vitsmunir;
að kropps og sálar kraptur þá
komist ei yfir tröppu, rètt

vora náttúru við sem á,
verður ástandi hvers manns lètt.
Hví gafst ei manni svo næm sjón
sem við stækkunar- jafnist -gler? —
því hann byggir ei fugla-frón
— fáort, minn vin! eg svara þèr. —
Hvað mundi þeim af Adams ætt
augna skarpleiki gagna sá:
að ostmaurs parta gæti gætt
en gæfist himin ei að sjá?
Tilfinníng hvað svo notar næm,
að nauð-kvalræði dauðans efld
sèrhver hans fyndi sin viðkvæm,
með sárri titrun veik og skelfd?
Hver væru glöggra nasa not,
ef negull, að þá berast kann,
slæi hjartað og heila' í rot,
hans sterka lykt svo deyddi mann?
Já, helzt-til opnum hlustum í
hljóð hvert ef væri skrugguslag,
og upphnatta við organs-gný
ærðist manns vit og sinnislag?
Ó! hversu mundi' hann óska þá
aptur að fengi numið hlust
vatnsnið, þar fram sèr veltir á,
og vestan- hægtblásandi -gust?
Hverr fær þá ekki fundið: að
forsjón guðs — hvert sem lítum vèr —
ei nokkuð gjörir nema það
nóg og rètt orsök sem til er?

og hverr fær annað hermt, enn sú
harla rèttvís og náðug sè,
svo-vel í því hún synjar nú
sem hinu', er láta vill í tè.

VII. Svo lángt sem skepna skari nær,
skagandi mjög vítt rúm ígegn,
allteins lángt taka tröppur þær
er tempra vits og sansa megn:
Sjá! hve þær stíga fót fyrir fót
frábrugðnu mannsins tegund að,
upp frá skriðmori, sem á sjót
samlitt um grænnar jurtar blað.
Hve munar sjónin mörg um stig
moldvörpu þykkum vagli frá,
uns fyllt er hæð sú undarlig
að lýnxdýrinu', er bezt kann sjá? —
ylmanin, frá því inna ljóns
útteygð grúfir á nösum sèr,
til hundsins, sem í faxi fróns
finnur hversu lètt spor sem er? —
heyrnin, öllu því fjöri frá
sem fer um vatnsins duldu gaung,
til hins, sem vordag hýran á
hauðrið lífgar og skóg með saung? —
Hve tama' og næma tilfinníng
tjáir vefandi kónguló:
þráð hvern í voð er þreifar slíng
og þrumir strengjatog örmjó!
Hve venju næmri vissan sans

vinnusöm hefir bíflugan,
er jafnvel hunángs ærnan fans
af eiturjurtum sjúga kann!
Hvað daufan hefir eðlis-óð
óþekt-rótandi svínaskríll,
ef honum jafnar þinn við þjóð
þú hálf-skynsami, stóri fíll!
Hvað ómerkjanlig eru skil
ómálga vits og skynsemdar! —
aðgreind þau jafnan eru til,
æ þó hvort öðru nærri var —:
Minnið skilníngi mjög hvað er
með eptirþánka gæddum, líkt!
munur hve lítill milli ber
að merkja til og grunda ríkt!
hve meðal-verur mjögsvo nett
með jöfnum tröppum saman ná!
en málbríng sinn og merki sett
megu þó yfir hvergi gá.
Og væri' ei öllum verum á
svo viss röð niðurskipunar:
gæti þær ein und annarri, já
undir þèr staðið gjörvallar?
En þar þèr einum unnt er nú
að yfirvinna krapta þá
hjá hverri finnast þeirra, þú
þar bið eg leggir dóminn á:
skilníngur einn, sem skipt er þèr
og skynsemd hárri viður knýtt,

jafnvægi fullnóg ei hvort er
allra gáfna sem þeim er býtt?

VIII. Sjá! hve skapnaðar-efnið allt
útbreiðist líf og frjófgun með
í lopti, jörð og lög ávallt,
svo lángt vor augu geta sèð;
hvað endalaust má ætla þá
út muni lífi' og skepnum dreift,
hvað hátt, hvað vítt umhverfis, já
hvað djúpt í afgrunn niður hleypt!
Ó, þá veranna feikna fjöld!
festi, sem ei hefir þrot nè bil!
frá guði niður anda' að öld,
engla, líkama, manna til;
til dýra, fugla, fiskakyns,
foldskriða kviks, er ei má sýn
nè gler að komast; hæð frá hins,
sem hvergi lyktar, niður til þín;
frá þèr til þess sem ekkert er —
Æðri náttúru vilkjör há
ef kynnum yfir komast vèr,
kyni lakara hlytum þá
vort eigið rúm að láta lèð;
í lángri keðju sköpunar
annars, þar hjuggum, yrði sèð
óskipað bil, það hvergi var;
þar sífeld verna samflotan
síst getur liðið minnsta skarð
nè stiginn tröppu neinnar van;

numinn hverr liður burt sem varð —
fyrsti' eða þúsundasti þar —
úr þètti náttúrunnar röð,
öll keðjan sundur-brostin bar
banaspjöll þarvið allt eins hröð.
Og þar í rèttri röð ávallt
rennur hvert kerfi' upp sína braut
þvílíkri röð, að á henni' allt
hið yfrið stóra ríða hlaut,
þá er sjálfsagt: ef aumast eitt
í einu minnsta skeikar hót,
ei er það kerfi' að eins umbreytt,
allt hrynur þá og fer í rót.
Lát á þröm reista þessa jörð
þeytast af jafnvigt sinni' og hríng!
sèrhver pláneta, siðlaus gjörð
og sólin, villtust lopt um kríng.
Lát öndum veldis-vegi frá
og verðugleika niður steypt!
eina veru lát öðrum fá,
en heiminn fleirum, tjóns af heipt!
Himins grundvöllur hrærast mun,
hristíng náttúru færa brátt
allt að guðs hástól umturnun,
öll niðurraðan hverfa' og sátt.
Fyrir hvern? — skal það fyrir þig?
foldskriða tötur! ókynjan! —
ó fíflska! drambsemd fávíslig!
ó forbannaða guðlastan! —

IX. En ef þinn fótur, yfir jörð
ætlaður þèr fyrir gaungulið;
elligar hönd, til iðju gjörð,
öfund höfuðið legðu við?
ef túngan þrjózk og ennis-sól
uppheſðu grát og klögumál,
af því þau, svosem önnur tól,
útrètta það sem býður sál?
ótilheyriligt eins er það:
ef einhverr partur lítt því kann,
að í heiminum annars stað
ekki var byggja látinn hann;
ótilheyriligt: möglun með
móti hlutskipti' að taka því
sem fèkk vísliga fyrir sèð
*Faðir alls* hverjum veröld í.

Af endalausu öllu hver
er vera' og hlutur partur einn:
líkhams- náttúran -líkíng ber,
lífgandi sálar drottinn hreinn,
sem yfir allt er sami, þótt
sig tjái guðlig verkan hans
með tilbreytíngum ótal ótt
í öllum pörtum líkamans[1];
ei síður stór um hauður-hvel
enn hátimbraðan mána-stól;

[1]) Líkami merkir hèr alla náttúruna, eptir líkíngu þeirri sem skáldið tekur rètt á undan, þar sem hann líkir alheimi við sèrstakan líkama, en guði við ena lífgandi sál hans.

sá hægum kælir vindi vel
og vermir allt með hlýrri sól;
sá stjarna fyrir heiðblik hýr
í hvergi-veiktum loga skín;
sá hvert eitt trè með blómstrum býr
og blöðin grösum veitir sín;
sá fjöri lifir öllu í
og útbreiðist í sèrhvern stað,
af minnsta krapta-missi frí
með hverjum hann fær sí-verkað;
á allar síður, en þótt sè
óskiptanligur, dreifir sèr;
sá oss andar í sálunni;
sá vorn líkama hrærir og ber.
Eins fær í hári' og hjarta lýst
hann sig algjörla dýrðligan
og full hans tign sig vottar víst
hinn vesælasta gegnum mann:
er sálar-óró sinni' og hrygð
með sárum stunum lætur ypt,
sem háfan anda' í himna-bygð:
er heitum bænar-ilm fær lypt.
Hans vera takmörk hefir ei,
hans viður jafnast enginn mátt,
honum fyrir er hátt aldrei,
ei heldur lágt, ei stórt nè smátt;
í víðu ríki sínu sá
saman tengir og fyllir allt,
oss jafn-nálægur öllum hjá
í vor sèrhverjum býr ávallt.

X. Grunda því: að vor gæfu kjör
getur það, sem vèr löstum nú,
og aldrei rètta orðu gjör
að ófullkomligleika þú!
þekk sjálfs þíns púnkt! það litla land;
lít! hve kærliga guð og rètt
við mælt þitt blinda' og veika stand
valdi það rúm sem þèr er sett;
vertu glaður! og væntu þèr
víst þeirrar lukku hlutdeildar
í öðrum hríng, ef ekki hèr,
er þú kannt móti taka þar;
hugga þig öruggt vald það við
svo vel er öllu stjórna kann,
og trú: að herrans handar lið
hag þinn æ gjörir farsælan,
hvort heldur nú er fjör þitt fyrst
í fæðíng, eður við sín þrot;
því öll náttúran er ein list
of vönd fyrir þín heilabrot;
ein kunst, þú hverrar knýttu bönd
kennir ekki til fulls nè sèr.
Alla tilviljun ósèn hönd
ens almáttuga framleiðir;
allt stríð er raunar samlynd sætt,
sem skyn þitt yfirgengur lángt,
yfirhöfuð er allt ágætt
en þótt í pörtum sýnist rángt.
Þrátt fyrir villta þekkíng manns,
þakkarlaust hofmóðs lyga-frètt,

sú frètt er eilíf sannleikans:
*sèrhvað sem til er víst er rètt.*

---

## ANNAD BRÉF,

*um náttúru mannsins og ástand í tilliti til sjálfs hans, sem sèrstakrar veru.*

### YFIRLIT EFNISINS:

I. Manns ætlunarverk er: ekki að hnýsast í guðs-veru, heldur að rannsaka sjálfan sig. Um meðalstètt manns, megin og vanmegin. Meginstakmörk manns. II. Tveir aðal-stýrendur mannligrar náttúru: sjálfselska og skynsemi. III. Tilhneigíngarnar og nytsemi þeirra. Drottnandi tilhneiging og afl hennar. Hversu nauðsynlig hún sè til að knýja menn í ymsar stefnur; hversu nytsöm hún sè, af forsjóninni gjörð, til að festa aðalreglu lífernis vors og grundvalla dygð vora. IV. Dygð og löstur eru samfara í blendinni náttúru vorri; takmörk þeirra eru náin, en þó eru þau sjálf fráskilin hvort öðru og skír til aðgreiníngar: hvers er skynsemin á að gæta. V. Hversu viðhjóðsligur lösturinn er í sjálfum sèr, og hversu vèr svíkjum sjálfa oss á honum. VI. Tilhneigíngar vorar og ófullkomligleikar svara þó samt til miðs forsjónarinnar og ens bezta fyrir alla. Hversu hentugliga þeim er skipt meðal allra stètta. Hversu nytsamar þær eru í

mannfèlagi og hverjum einstökum manni, í hverri stètt og á hverjum aldri sem er.

---

I. Svo djarfan aldrei haf því hug
að herrans veru rannsakir;
grunda: það skilníngs fyrir flug
forhátt þín sál ei sköpuð er.
Nei, sjálfan þig, það sómir bezt,
sè þèr að kenna mjög um annt,
því það sambýður manni mest
manninn hvervitna' að þekkja grant:
þá merkis-veru í meðalstètt,
millum afgrunna tveggja, sem
himins vísdómur hefir sett
í hríng svo mjófum rètt við þrem.
Sú þótt í myrkrum sveimi kind
sannleik og ljós þó höndla kann,
nú hyggin, vís, nú hrum og blind,
nú hraust, nú full með breiskleikann;
vísari' enn svo: að vafa-reyk
vaða þurfi, sem Efandinn,[1]
þó fávís til að fjölsvinnleik

[1]) *Efandinn*, (scepticus); Efendur voru kallaðir spekíngar þeir á Grikklandi, sem sögðu að *ekkert* væri *víst* sem menn yrði varir, hvort heldur með skilníngarvitum eða skynsemi. Flestir kalla Efendur flokk þann, sem leiddi kenníngar sínar frá Pyrrhoni, er lifði á dögum Aristótelis, en sumir kalla og þannig enn Akademiska flokk eptir Arkesílás.

flokk með Stóiskum[1] mikli sinn.
Millum hvorstveggja vafrar villt,
vitandi lítt hvort hvíld og ró
stunda skal, eður starf ómilt,
stjá og annríki sífelt þó;
óviss, hvar alls á meðal má
að metum rèttum skipa sèr:
hvort veru dýrs að eins hún á
eður sig guð má nefna hèr;
fremri líkamann eður önd
óviss hvort rètt að dæma sè,
og hvað um þeirra huldu bönd
halda byrjar, og samneyti.
Margflækt óskipan, samansett
sinnislíðun og þenkíng af,
afvegaleidd og endurrètt
af eigin völdum, þrátt sem gaf.
Fetum óvissum fjörhlaups alls
fram og aptur sèst reika hèr;
hálft til vegsemdar, hálft til falls,
heiðurs og forakts, sköpuð er;
herfáng sèrhvers, sem mæta má,
mektugur alls þó herra sè;
kríngleidd, svo hvíld er engin á,
í þúsundfaldri villunni,
sjálf þó eindæmir sannleikans,

[1]) Stóiskir voru einn hinn fjölmennasti spekínga-flokkur á Grikklandi, og var Zenon höfundur þess flokks, einhverr vitrasti maður. Seinna meir varð enn stóiski flokkur illa ræmdur fyrir dramb og sèrþótta.

sómi vors heims og blómi nú,
aptur leikhnöttur aumur hans;
eitthvað, hvers getið fær ei þú.
Vættur undrunarverða! far
viti framleidd og þekkíng af:
flóðs skorða tíð og fjörunnar;
fær lopt á vog; mæl jörð og haf;
hasla plánetum hlaup og völl;
himin-knöttunum megn út tel;
forn merki tímans umbæt öll;
akbraut sína lær fagrahvel;
fylgst með Platóni [1], fleyg þèr snar
fjærst og efst uppá himininn,
til fyrstu, beztrar, fegurstrar
og fullkomnustu veru inn;
með hans úreldtri sveina-sveit
sveizt við, þèr ærðan heila' að fá,
guðdómligt þína heimsku heit
og himinnumið sinni þá!
Eptir presta sið Austur-vángs [2]
apa sólar er gjöra sig,
og halda form sè hennar gángs
höfuðköst þeirra fánalig,
vík, og eilífan vísdóms mátt
vel þú að skapa' og stjórna lær,
en sökk í þig umsíðir brátt
sjálfan, og kenn að þú ert ær!

[1]) Nafn Platons, lærisveins Sókratis, ens djúpsærasta spekings i fornöld, er alkunnugt.

[2]) Austurvángs, þ. e. Austurálfu.

Nær andar hærri litu lög
og leynda reglu dauðligan
náttúru grunda nýliga, mjög
nam þá undran, að þvílíkan
fróðleik og vísdóm fyndu hjá
foldsköptum manni; þarfyrir
vorn mikla Newtón [1] möttu þá
með sama prís og apa vèr.

En rèð hann þá, hvers regla slíng
rás halastjarna jafnvel batt,
að gefa sinni geðshræríng
gángform alls einni fast og statt?
Sá upp- og niður-gaungu glöggt
gat púnkt hjá stjörnum fundinn tèð,
fèkk hann sitt veru frumspor glöggt,
fullt hennar mið og tilgáng, sèð?
En hverr vill undrast þetta? þar
þeytt sèr óhindrað sálin fær
frá einni ment til annarrar
á efsta skilníngs-topp þvínær,
en þegar sitt hið væna verk
vill fá til gagns af hendi leyst,
tilhneigíng niður steypir sterk

[1]) Ísaak Newton (frb. Njút'n) var einn meðal enna mestu gáfumanna sem verið hafa. Hann fann þýngdarlögin, þ. e. hann mældi afl það, með hverju jörðin dregur að sèr alla hluti, þegar vèr segjum þeir detti; hann fann og af hugviti sínu hvernig jörð vor væri í lögun og sannaðist það laungu seinna sem hann hafði reiknað. Hann lifði á Englandi 1642—1725.

strax því er skynsemd hafði reist.
Veginn því eptir þekkíng þræð,
þó við alsvinnu leiddur mund,
hofmóðs-gorti fyrst hana' afklæð,
hègómans allri skrúðtegund,
lærdóms viðhöfn og vellystíng,
veigalaust spaug sem nefna ber;
tak þraut konstríka, tilvik slíng,
að tjá hve sterkur heilinn er;
frá, hvað um of er, skafið skal,
skin-táli stunda burt sè fleygt,
sem inn í lofsvert listatal
lestir og óhóf fengu smeygt!
Sjá þá: hve rýr er summa þeim
sú af leifum, er eptir stá,
sem alltíð stoðað hefir heim
og honum gagns mun jafnan fá.

II. Guð bauð: að rèðu innra' í oss
öflugar hleypifjaðrir tvær,
hvortveggi næsta nytsöm hnoss
nær rètt brúkaðar eru þær;
sú eina, að hvetja sálar för,
sömu þá hin til stjórnunar;
sinn vissan tilgáng hefir hvör
og hvor sitt verk að fremja þar:
Sjálfselskan hvetur sinni manns,
sú rekur fram og hrærir það;
skynsemin letur hugfar hans
nær heldur geyst er upptendrað.

Beggja rèttvísri brúkun af
breytni hver góð og dygð upp rann
en misbrúkan í ávöxt gaf
ófullkomleika gjörvallan.
Sjálfselskan hlýtur að færa fyrr
fjör, gáng og þrótt í sálar-starf,
en jafnframt hennar eldi kyr
ígrundan manuvits stýra þarf.
Án hinnar fyrri værum vèr
varanda dofa svæfðir fast,
en iðn vor hver og atburðir
óðvillir, nær þá seinni brast:
sem jurt, er hlýtur stað-kyr stá
við stilk og rót, þar plöntuð var,
vex upp, blómgast og visnar á
vángsbletti litlum; elligar
sem eldíng sú, er eyðir sèr
öðrum með því að granda títt,
og utan reglu flug-óð fer
fárliga gegnum loptið vítt.
Hin fyrri, sett til að hvetja dáð,
harðefli knýr og dregur mann,
hin seinni gefur rèttvís ráð,
með rósemd spakri stillir hann;
miði því-nær sem maður er
meir eykst en fyrri viður það,
álengdar hvað en seinni sèr
og sig þar lítið gefur að;
það góða, sem er greipum nær,
getur en fyrri þekkt og sèð

og það án tilstyrks fundið fær
fullglöggt skilníngarvitum með.
Skynsemin lengra skygnast nam:
ske hvað líkliga síðar má,
hvað leiðast muni' af hverju fram
og hvers vèr bíðum, þenkir á;
hin ber freistanda megn á mann,
meir enn sigranda þessi róm;
og að síðustu svofeldan
segja má yfir báðum dóm:
Sjálfselskan brúkar meiri makt
menn við, og strengri skipanir,
en greind skynsemi gætið, spakt
og grandvarliga með oss fer.
Skuli sú ei, sem meir ber megn,
meinsamt ok leggja þèr á bak,
hinnar ráðum og hjálp þú gegn
og hennar leiðsögn blíðri tak!
kostgæfni, vani' og reynsla rètt
ramma sjálfsélsku þvíngi' í bönd,
svo skynsemin, í stjórnarstètt
styrkt, fái jafnan yfirhönd.
Lát skólastiska mælskumenn,
misgrein er vilja' í öllu sjá,
með ofvits-brögð sín ósvífin
og ærna heilabrota-þrá,
fá komið þessum tveimur til,
tengdum, áflog að heyja sterk,
formerkíng skynsemd burt frá bil
borið, dygðinni náðarverk.

Opt fá lærðir um eintóm nöfn
óvitru kappi styrjöld þreytt,
þó títt sè meining þeirra jöfn
og þess á millum ekki neitt.
Sífellt skynsemd og sjálfselskan
sama takmarki vilja ná,
allt forðast þær, sem ángrar mann,
allt stunda þær, sem gleðja má;
þessi hvað helzt, sem girnist ger,
með græðgi lætur til sín hremmt,
hin að eins dregur hunáng sèr
en hvergi lætur blómstrið skemmt.
Stundum lysting vort stærsta hnoss,
stundum hið mesta verður tjón,
eptir sem rángt eða rètt af oss
rennt er á hluti þreyða sjón.

III. Aðskiljanligu móti með
mannsins sjálfselska vottar sig,
hvarvið upp rís til skiptis skeð
skapsmuna hræring margvíslig,
alltíð grundvölluð, bygð og brýnd
á bata þeim og hugarfró,
sem annaðhvort eru sönn eða sýnd
svo, en öðruvís reynast þó.
Nú með því fyrir vorri vèr
vellíðun sorgum rètti með,
en getum ei svo glöggt sem ber
gæða-kyn hvert í bragði sèð,

þá kann lýstíng að vera vor
vitsmunum hlýðin, jafnvel þótt
eigið skynsemdar einhver spor
á henni megi kenna drótt.
Nær leyfð ein brúkar meðöl mann,
miði, sem girnist, til að ná,
lystíngarinnar horf á hann
heim við skynsemi komast má;
en nær metum hið góða gott
á gagn vort án þess lítum vèr,
göfugs eðlis fær gildan vott
girndin, og dygðar heiti ber.
Dárligum fánginn dofa lát
drussa, með stóiskt hugarfar,
brúka sitt raup og stóra stát,
að standi' hans dygð án bifunar;
hún stendur og, en það er þá
þvílíkt, nær allan krapt og yl
kuldi þeim ytra kroppnum frá
kreppir í dróma hjartans til.
Nei; striti sèum alltíð í,
aldrei tómlátir spörum þrótt,
kraptar viðhaldast þels af því,
þrátt hefir sálar vindkast ótt
uppgefnu hrundið starfi' af stað,
því stormur sá þó geti hrært
einhverja parta', og aflagað,
ei er þess heila neitt fortært.
Oss rekur lífs um bárótt bif,
sem bát, af ymsra storma dyn,

andar byr eru sinnis svif,
segulsteinn hennar skynsemin —
Guð sjálfur lætur alltíð ei
í kyrru logni finna sig,
hann hefir eins í hvössum þey
hásæti bygt sèr tignarlig.
Áskapað vorum svo þótt sè
sálar-lystíugum styrjöld þar,
að etja hvor mót annarri
eins og frumskepnum veraldar,
samblandnar þó, og mýktar mest
megu þær ásamt koma sèr,
himinsins viður forlög fest
að fella hvað sem gjörum vèr.
Ætla því böndin aldrei þèr
upp leysa, þau hann sjálfur vóf,
nei, brúka þau sem byrjar hèr,
boði náttúru fylg við hóf;
fast við ígrundun frekri halt
fýsn, þinni sál er innplöntuð!
sjá hvað þú megnar, er það allt,
æ lát vit stjórna þèr og guð!
Von og fögnuður, ást og allt
eptirlæti sem tilheyrir,
ótti, hugsýki, hatur kalt
og hvað ógleði með sèr ber,
nær innan skorða sinna' er sett
sèrhvað í hæfiligan stað,
visliga niður raðað rètt
og ráðsvinnliga samblandað:

í stöð'gri jafnvigt studda fær
stríðandi sinnis parta þá
sálarflúr þessi skýjuð og skær,
skuggsjá hverra mjög yndis-há
og hverra saman-pentan prúð
í pörtum og því heila jamt
mynda fullkomið málverks-skrúð
og megin lífs vors öll ásamt.
Í hugar-sjón eða höndum tveim
höfum æ lystisemdir vèr;
nær haldið fá ei þessar þeim
þær tekur hin með von að sèr.
Sèrhverr ver öllum sálar þrótt
sínum þar til og líkamans,
þær nærverandi' að fánga fljótt,
og fá þær von til stendur hans;
töfra makt alla tíðka þær,
tjá sig þó jafnt ei öllum gegn,
sinn veginn hvors á suma fær
af sönsum vorum hlutar megn.
Upp stígur hèraf í vort geð
ymsan veg háttað þánka-brjál,
sem stundum afli meira með
en minna stundum, hrærir sál,
allt eptir því sem áhöldin,
um hver skilninga-verkan fer,
eru fullkomin eða lin;
í eigin líkam finnum vèr
orsök til þess: að aðalgirnd,
einvalds berandi hjá oss mátt,

sem Arons naður einn í fyrnd,
upp svelgir hinar minni brátt.
Sem, að líkindum, undireins
á augabragði' og fæðist mann:
duldu frumsæði dauða-meins
dálítill móti tekur hann, —
síðan það plantað eitur úngt,
af hverju maður loksins deyr,
viðgáng tekur og verður þúngt
sem vex hann sjálfur og eldist meir —
eins fèkk höfuð-lyst hans upphaf,
hulin geðsmuna-sýki manns,
brátt við það efni' hann bygðist af
blönduð og innrætt veru hans.
Lífs-vökvi hverr, sem laginn var
til liðs gjörvöllu smíði því,
henni til afls má þèna þar
að þrykkjast geð og líkham í.
Því framar sálar opnast ós,
útbreiðandi sinn krapta-lög,
fær innbirlíngin leitt í ljós
leik sinn, og íþrótt hætta mjög,
og vora þekkíng alla hljótt
einnig lystíngar draga vann
að parti þeim, er áður sótt
inn drakk, svo framar veikist hann.
Af náttúrunni' hún framkom fyrst,
fóstrar vaninn á síðan þá,
fyrir vitið og fræknis-lyst
frekast hún æ, og verður kná;

einnig sjálf gjörði' ei utan jók
ærin krapt hennar skynsemin
líkt sem edikið í sig tók
enn meiri súr við röðulskin.

Þessi, hver þó með rètti ráð,
raunar veik sjálf, yfir manni ber,
girnd þá að vin sèr hefir háð
er hlýðum mest og unnum vèr.
Æ! ef hún reglur einar kann,
en engin vopn, að sigra með,
hve fær hún meir enn fræddan mann
að fetað geti', en ekki sèð?
hvað meir, enn kennt oss hjálparlaust
að harma vegna breiskleikans?
áklagari með öflga raust,
en, því verr, styrklaus vinur manns! —
hvað meir, enn svosem talsmanns tal
til þess ráðið er fellumst að,
og handa- gjört að -hófi val
í hefðar-trausti forsvarað?
Af meintum stærir sigri sig
í sál að eins ef getur kveikt
ráðgirnd eina, sem ríður á slig
og rekur lið burt hinna veikt.
Svo meinar læknir, vonda vís
vessa kropps drífi ment sín út,
þá samandragast þeir, og rís
þaraf varanlig iktar-sút.

Náttúrunnar vèr þurfum því
þjóðbraut og leiðslu fylgja rètt

skynsemd vöktunar- er hèr í
en ei leiðsagnar- skipuð -stètt;
hún gjörir allt sem bezt, er ber,
ef betrað fær, en ekki svipt,
og við þá girnd sem valdmest er
vin heldur líkt, enn fjanda, skipt.
Öflugra kraptar ósèn mund
ein má ráða hvar lent er við,
þegar menn eitt á einni stund
annað á hinni sækja mið;
rètt einsog vindar ymsa' í átt
aðrar lystíngar hrekja þá,
en þessi, sem hefir mestan mátt,
markaðan stað þeim hrindir á.
Sè vor ástefna makt eða ment —
sè mynt og gull — sè tígið nafn
það eptir stundum — elligar (hent
opt til að lokka framar tafn)
ein rósöm kyrrð! — ó, sjá! hve sár
sækir oss fýsn, meðan lifum, á —
jafnvel þó setjum fjör í fár —
að fyllta reynum lysting þá.
Ens vísa geði kyrrð er kær,
kaupmaður elskar mæðu' og strit,
stríðshetju freistar ofsinn ær,
unir múnkur við smátt álit;
öllum þeim virðist sín að sè
sett á skynsemdar-breytni stig
og hverr veit láns með uppnefni
af henni teknu' að prýða sig.

Gæzkan eilíf, sú guðdóms list
gott sem af illu framleiðir,
vísliga' í sálar vorrar fyrst
vildar-fýsn gróðursetur hèr
góðs bezta stofn, og dygðar-dug;
drottins alvizka gjörir það
að kvikasilfur í kvilltum hug
kveikist um síðir fast þar að;
að dygðin, manns í eðli nær
og veru sjálfs hefir ræturnar,
megn og styrk tvöfalt meiri fær,
sem málmur betri tegundar
stælist þaraf, nær hög fær hönd
honum lakara við blandað.
Vill guð líkami vor og önd
í verkun sinni hjálpist að.
Sem grein, sú ei vill gróða neinn
greiða fram, næsta treg og sljó,
kann, í rækt-vana rótstofn einn
en rakan plöntuð, tímgast þó;
eins spretta dygðir eðlis hreins
af tilhneigíngum beztar, já,
náttúru þegar afl að eins
ótamið rót fær vunnið á.
Hve ríkugligur ryðst fram hver
ráðvendnis þrátt og skynsemdar
frá hatri, ótta, sinni sèr [1]
og svörtu blóði þúnglundar!

---

[1]) þ. e. sèrsinni, sèrlund.

Hvað opt manndáð og hreysti sèst
af heiptargalli fljóta stinn!
Ágjarn klókindin iðkar mest,
einnig heimspeki letínginn;
vellystíng hreinsuð verður ást,
vífum sem jafnan geðjast að;
stríðs- eða bókmenn stirt þá klást
stundan er sæmdar einber það.
Hver dygð, sem maður heiti gaf
hjá hverju kyni fyrir sig,
meðfæddum hofmóð útklekst af
eða blygð, sem er náttúrlig.
Náttúran fèkk svo brjóst vor bygð
(brimólgu drambs það stilla má)
að til þar hjá oss tekur dygð
sem takmörk lasta rètt að ná.
Frá vondu skynsemd víkja þarf
vogskálum hugar góðu að:
eins getur Neró stjórnar starf
stundað og Títus, vilji' hann það;
það hugar stolt, sem hötum vèr
hjá Katilín [1], með rèttu þó,
hjá *Decio* [2] mjög hólsvert er

---

[1]) Katilín, þ. e. *Lucius Sergius Catilina*, sem áður var getið.

[2]) *Publius Decius Mus* var ræðismaður í Rómaborg; hann gaf sig goðunum í orrustu móti Latínumönnum, og vóð síðan fram í fylkíng fjandmanna sinna. Hann fèll þar, en Rómverjar fengu frægan sigur fyrir sakir hreysti hans (hèrumbil 337 f. Kr.).

og hetjustórt í *Curtio*[1].
Sama metorða-sýki manns
sem getur reist, fær skaðað ört,
og hefir svo feður föðurlands
sem fjendur skæða marga gjört.

IV. Sögðum annmörkum sálar þá,
sá hverr mun, er til bóta snýr
og skilur ljósið skugga frá?
skaparinn, guð, sem í oss býr.
Í náttúrunni opt hèr sèst
andstæðra krapta verkan söm
tilgángi guðs, í manni mest,
máttar-regla sú eins er töm;
saman blandast svo ei ber á
en yztu dygða' og lasta stig
og, til oss huldra nota, ná
svo nær hvort öðru tengja sig;
að til skiptis á annars lóð

[1]) Livíus segir frá: að einu sinni (hann tekur til 359 f. Kr.) hafi sprúngið jörðin á torginu i Rómaborg og orðið gjá mikil, sem ekki varð fyllt; þá sögðu fuglaprestar (*Augures*) Rómverja að sá einn væri kostur fyrir höndum, að blóta því bezta sem þeir ætti, ef þeir vildi haldast við. Þá kom fram *Marcus Curtius*, úngur maður og kappi mikill, og mælti: Hvort munu Rómverjar eiga annað betra enn vopn og hreysti? síðan gaf hann sig goðunum og herklæddist beztu vopnum sínum, fór síðan á bak hesti sínum og hleypti á gjána og sökk þegar, en síðan báru Rómverjar margskonar fè í gjána og luktist hún síðan.

inn plagar hitt að þrengja sèr,
og sundurskilnað þeirra þjóð
þekkir naumliga, hvar hann sker.
Einsog þá vel er máluð mynd,
þar myrkleit spila flúr og björt,
svo hvort í annað sett með hind
að sjást ei kann nær lyktar hvört:
allteins samblandast þessi þá,
þar merkjast varla deili til
hvar lösturinn sín upptök á
hvar enda taka dygðar-skil.
En dárligt væri, dóms- þá -grein
ef draga vildu hèraf menn:
að alls sè dygðin ekki nein
og enginn heldur lösturinn.
Óendanliga minna' og meir
má blanda, deyfa hvítt og svart;
lítast þá nokkrum litir þeir
ei lengur sitt-hvorr, dökkt og bjart?
Spyrjið þar hjörtu yðar að! —
of bert sannleikur þessi skín! —
víst kostar tíð og vana það
að verða þvílíkt heimsku-svín.

V. Lösturinn ber svo ljóta mynd,
leiður og ófrínn mjög í sjón:
að þegar vèr lítum þá ókind
það hlýtur upp að vekja fjón;
afskræmið sjáum þó svo þrátt,
því er miður: að allt of-hægt

vaninn svo á oss vinnur brátt
að verður nauðgum frá því bægt.
Fyrst látum vèr oss þola það,
þarnæst aumkan og fylgi vinnst,
ljáum því svo að lyktum stað
læstan í vorum brjóstum innst.
En — hvar eru síðast lasta lot?
lengi má um það spursmál styttst
jagast, uns verði þrætu þrot;
þú spyr að: hvar er norður ytst?
sagt er í Jork[1] það sè við Tveit[2];
segir Skottinn: við Orkneyjar;
en þar: við Grænland, Zemblu[3], sveit
sett meinar það — og guð veit hvar.
Enginn þenkir, hann sjálfur sè
sá allra-lastafyllsti mann,
nei, hverr einn: að sinn nábúi
sè næsta miklu verri' enn hann;
já, þeir sem eru megnu mest
meinteknir eitri lasta-kyns
hvað sízt meðkenna sína pest
nè sárs til finna kránkleiksins.
Þó landslag eitt sè ljúft og kært

---

[1]) Jork eður Jórvík (*York*) er merkisstaður á Norðimbralandi, sjá Landaskip. fræði. III, 193.

[2]) Tveit eða Tvedda (*Tweed*) er á á Skotlandi; sst. 207.

[3]) Zembla, þ. e. Ný-Zembla, Nýland (*Novaja-Semlia*), eyðiey (eða eginliga tvær eyjar) norður undan Rússlandi í Íshafinu; sjá Landask. fræði III, 10.

lýðnum sem heima þar á í,
kann þar naumast að vera vært
þeim vanist hafa betra' enn því;
hvað heiðvirt geð, sem hatar tál,
hryllir sem mest og stuggar við:
fær ein brennimerkt bófa-sál
sem beztu dygðir upp-hafið.
Hverr og einn maður heims um bygð
hefir á tröppu fyrir sig
nokkuð af löstum, nokkuð af dygð,
þó nái fár á hæsta stig:
hvað bezta manni hár við rís
hann verður stundum sjálfur það;
dárinn á tíma' að vera vís
og versta manngauð frómlundað.
Til fulls aldregi, heldur hálfs,
hyllumst vèr löst og dygðir að,
því án að líta sín til sjálfs
sèr velur maður hvorugt það.

VI. Sitt hugar áform lætur leidt
í ljós eða dulið hverr of allt;
guðs stóra mið er ei nema eitt
sem innibindur þó gjörvallt:
Hvern dáraskap og hátt upphaf
hindrað getur, sem stofnar þjóð,
og dregið löstum eins útaf
optast þá verkun sem er góð;
hann gaf sinn óstyrk hverri stètt,
heill til að efla þó og gagn:

Jómfrúnni blygðan sín er sett
svo sem húsfreyju skörúngsmagn;
stjórnarþènarans óttinn er;
áfergjan þess sem heyir stríð;
fursta rótt traust á sjálfum sèr
sett er, og hjátrú undir-lýð —
svo hvað sem áfátt hverjum var
að hvers eins leiti styrki þó
víst til allsherjar velferðar
og viðurhalds með góðri ró;
hann dygðar beztan avöxt af
ónytjuskapi framleiðir,
sem hefir eintómt dampa-draf
og dáðlaust hól til fæðu sèr;
hugar-meinum og óstyrk á
einmitt kvenn-sóma byggir hann,
haldgóðan frið og hægðir, já,
heill og ánægju fyrir mann.

Með því skaparinn manna-kyn
myntaði svo, að værum hèr
sem herra, þjón á víxl, og vin,
að veg og standi misjafnir;
þá vill hann sèrhverr álag oks
með öðrum beri, þar til má
veikleiki hvers eins verða loks
viðhjálp allra, sem styrkir þá.
Ávirðíng, brestir, gallar geðs
gjöra fastara reyrt, og nær
fèlag ávinníngs öllum tèðs
einnig hans samnot framar kær.

Hèraf framkemur einlæg ást,
ófölsk vinátta, sèrhver þægð
og kjör, sem heima fundin fást,
færandi lífi þessu hægð;
og þegar halla fjöri fer
fáum vèr af þeim sömu lært:
að leggja frá oss ánægðir
allt fèlag, gaman, sèrhvað kært,
og hálfpart skynsemd hvattir af,
hálfpart neyddir af vanmætti
að leysa' upp glaðir hels á haf
og heilsa ljúfir gröfinni.
Höfuð-girnd mannsins hver sem er,
og hvað helzt það hann fýsist á,
fróðleikur eða fèmunir
frægðar-nafn, vald eða metorð há —
aldrei verður svo órólig
önd af lukkunnar gáfum hans
að af alvöru óski sig
í stað og kjörum nábúans —:
Ígrundan skír og skilníngs-rík
skemtun þeim lærða fær, og ró;
af dára metast engin slík
auðnu-kjör, sem hans þekkíng sljó;
auðugur reiknar allt sèr tjón
utan að raka saman fè;
fátækur himins fyrirsjón
felur sig, hress í voninni.
Betlari dansar blindur kátt;

bæklaður sýngur stafkarlinn;
hugsar fautinn sèr hetju-mátt;
heiðrar *enn æri kóngdóm* sinn;
soltins gullbræðis hugur hlóð
háfjöll í von af málmi þeim,
og skáldið, þrátt meðan las sín ljóð,
lángt sýndist fyrir utan heim.
Sjá, svo er hverju standi' og stètt
til styrktar nokkur huggun lènt,
og hofmóðs gjöf þeim öllum rètt
að trygða-vinur sè almennt.
Hèrmeð er aldri hverjum manns
hæfilig skemtan sameinuð,
og vonin fylgja fastlynd hans
fram til þess burt hann kallar guð:
Sjá barnið! (ó, hvað ástrík hèr
og eptirlát er náttúran!)
að glíngurs hríngli gamnar sèr
og gleðja sig með fjöður kann.
Litlu sèligra leikfáng því
lætur barnæsku dægur stytt,
sem meira sýnist augum í
er þó ei framar vert enn hitt.
Bönd, lykla, gull að skemtan skók
skreyttur fullorðins kyrtli manns;
og seinast verður bænabók
en bezta lystisemin hans.
Sitt gaman manns hverr aldur á
uppá það lífið falli' í vil,

uns þreyttur sofnar öllu frá
og út til fulls er leikið spil.
 Innbirlíngin þá alla tíð
yðanda skini gyllir björt
þau stoltar-ský, er farfa fríð
fólks stand og aldurs-skeið sèrhvört.
Ámeðan vonin uppfyllir
allt hvað brestur til farsældar,
og hofmóður, svo ei á ber,
í treður hvar sem skyn-fátt var,
byggja þau öll eins brátt í stað
og brýtur skynsemd niður í sál
bólu, sem fýsnin æ blær að,
í heimsku- tómri -metaskál.
Jafnótt sem von deyr ein í önd
önnur lifnar í hennar stað.
Sitt mið og tilgáng hulin hönd
hègóma hveim fær afskamtað;
já, sjálfselskunnar braklig hót
af herrans makt eru vog, þar á
vanmet annarra vorum mót
verðugum höfga sínum ná.
 Nú sjá! og líknar- nem þèr -grein
í nyt að færa', er hèr af rís:
þótt maður heimskau æ sè ein
*eilífur guð er jafnan vís.*

## ÞRIÐJA BRÈF.

*um náttúru mannsins og ástand með tilliti til heim-fèlagsins.*

### YFIRLIT EFNISINS.

I. Öll veröldin er eitt fèlagskerfi. Enginn hlutur er gjörður að öllu sjálfs hans vegna, en heldur ekki að öllu annarra vegna. Farsæld hverrar skepnu er samtvinnuð allra annarra. II. Skynsemi og náttúruvit eiga jafnan þátt til góðs hverri sèrstakri veru, og með því jafnframt til fèlagskapar allra. III. Hversu mikið náttúruvitið gjörir til fèlagskaparins; en hversu skynsemin gjörir þó miklu meira. IV. Um það sem kallað er náttúrustand. Hversu skynsemin hefir stuðníng af náttúruvitinu til að komast uppá ýmsar listir, og stofna ýmisháttar fèlagskap. V. Uppruni stjórnarfèlaga. Uppruni einvaldsdæmis. Ættfeðra-(Patríarka-) stjórn. VI. Uppruni enna rèttu trúarbragða og stjórnar, hvorutveggju af kærleikans rót. Uppruni hjátrúar og harðýðgi, hvorutveggju af óttans rót. Hvað sjálfselskan gjöri að verkum til fèlagsins og allsherjar-gagns. Um að setja aptur ena rèttu trú og stjórn á ena upphafligu undirstöðu þeirra. Blönduð stjórn. Um afbreytíng hverrar einnar og hið sanna mið allra.

---

Svo er nú þetta sannleiks grein
samhuga hverr er játa má:
"sú mikla *gjörvalls-orsök* ein

"æ veit takmarki sama' að ná
"fyrir öldúngis aðgreind lög
"og sundurleitan stjórnar-hátt" —
sannindi þau, er mönnum mjög
minnistæð skyldu dag og nátt.
Hvenær sem ofstór heilsa fær
hofmóð og ofsa sleppt oss við
sem framast til að freista nær
fordildar-glis og meðlætið:
þá látum slíkt oss leidt í hug,
líka færum sem bezt í nyt,
helzt þegar bæn vor fer á flug
og fræða skulum annars vit.

I. Heiminn umbergis heilan sjá
hvað er við annað reyrt og knýtt
sem hauðri finnst og himnum á,
heitir kærleikur band það frítt.
Gef að myndandi gjörla þú
gaum náttúru! þá finna skalt
í starfi sínu' að stefnir sú
á stórvægt þetta mið of allt:
Hver ódeild morka[1], sólkorn sèr,
síns líka til fær óðum bærst,
dregur sig sjálft og dregið er
að duptinu sem því er næst;
því er hrundið, það hrærist fram
hratt svo inn taki granna reit,

[1]) *morka* á hèr að þýða "atomon", eða hverja smá-ögn í mori, en *mor* er samsafn þvílíkra smáagna.

og öllu hinu', er um kríng svam,
enn nær að komast, fer á leit.
Skepnunnar efni skoða mætt!
skaparinn á svo margan hátt
hve með lífi það hefir gædt;
hèraf þú nógl'a skynja mátt:
að sífleytt alheims samtengíng,
sönn þau á gjörvalls heillum skil,
ein sè miðpúntur í þeim hríng
er allir hlutir sækja til.
Sjá! hversu dáið dupt af jurt
dafnandi leiðir aðra fram;
sjá! hversu líf, þó sè á burt,
samt sprettur upp af dauðum ham.
Rof[1] hvert, sem einni raskar mynd,
reisíngar aptur nýrri fær
að lifna, deyja, líða' í vind
láta til skiptis gánga þær;
bólum líkar, sem blæs upp þrátt
bifs parta hræríng mjög ókyr,
þær vaxa, springa, verða brátt
að vatni jöfnu, svo sem fyrr.
Svo er annarligt ekki neitt,
allt við hvern part er samanstillt
og partur hverr við allt það eitt;
er svo hvað öðru líkt og skylt.
Andi sá öllu stjórnar statt,
stærð hvers útyfir gjörvallt nær

[1]) *Rof* þýðir hèr sundurhlutun.

allar skepnur í eitt sambatt;
óslitið fèlag tengir þær
enar mestu þær minnstu við,
mund hjálpar hvor að annarri snýr,
dýr skulu manni leggja lið
líka maðurinn stoða dýr.
Þjónar ein vera, þar á mót
þjónkun af öðrum verum fær,
af vina-fèlags rèttri rót
raun hvor annarrar bera þær.
Engan hlut guð meðal allra skóp
öðrum fráleitan, staddan sèr;
nei, keðjan saman heldur hóp,
hverr veit það mark hún við linnir.

Hefir guð skapað allt hvað er
einasta fyrir gleði-sól,
til sældar, fæðu' og þarfa þèr?
þú dári! — nei nei, hann, sem ól
til rètta þinna rádýr feitt,
ríkugligt einnig handa því
ei hefir síður borð útbreidt
blómstra fegurstu högum í.
Seg, ef lerkinn með sætum hljóm
sèr hátt upp fleygir þèr í vil?
nei, sjálfs hans kæti reisir róm,
og rásar hvetur vængi til.
Hvert mun stilitsinn[1] hag fyrir þinn
herða dillanda barka-saung?

---

[1]) *lerki* og *stilitsi* eru saungfuglar.

nei, mjúklát ást við maka sinn
mælir út um hans raddargaung.
Týgjaður jór, sem tamdi þín
tígugl'a hönd að dansa' af list,
millum reið-kunstar-manns og sín
móð og ánægju skiptir vist.
Dirfist að kalla þú einn þinn
þann gróða, sem er engja skart?
himinsins fuglar, sjá þú! sinn
samt munu þaraf heimta part.
Mun öll uppskeru-gnótt, sem gaf
gyllini-ár, þèr heyra til?
makligur góðs þar etur af
uxinn starflauna rèttu skil.
Já, foldar-drottins sveiti súr
svínið elur og mæða nóg;
það svín, sem lögum þínum úr-
með þrjózku brauzt, en arð ei dróg.

Meðkenn: að allir eru því
örmum náttúru sveipaðir,
hafandi jafnan hlutdeild í
hennar forsjón, sem ástmegir.
Feldurinn, sem nú kóngi' að kjól
og kulda mót er orðinn vörn,
áður var bæði skrúði' og skjól
skógdýri því sem heitir björn.
Maðurinn hrópar: "mund Alhags
mèr að eins gjörvallt skóp í vil!"
gæsin ansar úr stýju strax:
"á storð er orðinn maður til

"eflaust í mínar þarfir þó,
"því, sjá, hve frekt hann mæðir sig
"forsorgun mína fyrir og ró
"að feita, vakta, þrífa mig"!
Þetta sèr hún, en þekkir sízt
að þvílík sæmd og viðhöfn sker
að eins því hennar vörður víst
vill krás af henni gjöra sèr.
Hún sker úr eptir skilníngi —
skylt er þú dæmir vísligar
en: gjört eins vegna gjörvallt sè
ei gjörvöllu' eitt til nytsemdar.
Lát statt: að öflgur á og má
afmarka kjör ens veikari;
lát satt: að maður heims er há
hyggindi, drottinn, týranni!
Veit þó náttúran vísdóm þann
og vald það á að leggja taum;
þörf sèr meðskaptra þekkir hann
við þeirra hrærist bölkjör aum.
Seg mèr! ef fálki, soltinn nær
í svip úr skýjum niður fer,
veitir dúfunni vægð fyrir þær
vel litu fjaðrir sem hún ber? —
veiðandi svala gaum ef gaf
gullnum fiðrildis vængjum að? —
sigrast hauks græðgi sætum af
saung þeim er næturgalinn kvað?
Maðurinn aleinn mjúklát kjör
að munar ósk þeim fyrir býr

þeirra nauðsynjar annast ör
og öllu þeim til greiða snýr:
hann plantar fuglum hælis-trè,
hann grefur fiskum dýki' í láð,
foldir girðir hann fènaði,
fyrir rádýr er korni sáð;
sjálfs síns ábata-sakir hann
sæmir með eldi dýr allmörg;
fleiri til gamans fóstra vann,
flestum af drambi veitir björg.
Forsvars-herrann er fús til prjáls,
fyrir það gefst þeim uppheldið;
hans yfirlæti' og óhóf sjálfs
alast þau, lifa, gleðjast við.
Kjöts þess lífi, sem kunstarfullt
kýs húngur manns að seðjast á,
forðar hann við að finna sult
og farga varga-tönn ei má;
já, við sælgæti setur dýr,
sælgætis það hann efni hèlt,
og því velgengni bezta býr
uns blóðjárn hans það lætur fellt. —
Þó meiri hræðslu því ei fær
það slag, sem dauðinn lystur með,
enn þeim, sem himins eldíng slær
einmitt þá hæst er meðlætið.
Síns góða dýrin njóta nú
uns nástund endar gleði þá;
nær góðs fullnotið þíns hefir þú
þig eins líf-brjótur kallar á.

Guð, sem krapt slíkan kærleikans
og klára dýpt umsorgunar
til skara þess af skepnum hans
sem skynsemdar er synjað, bar,
af líkn þeim allan lèt um heim
leynt, að dauðligar sèu þær,
hlífandi svo við þeirri þeim
þekkíng, sem ekki stoðað fær;
maðurinn hlaut að þekkja það,
þó bregður dauðinn fyrir mann
sèr með þvílíkum svip, hann að
sjálfur, á meðan óttast þann,
þráir eptir að fá hans fund;
felmtur banvænum hels af ljá
mannsins en dulda dauðastund
dregur æ lengra' og lengra frá.
Hann þokast alltíð nær og nær
nýtt hvert augnablik lífsins við,
samt aldrei nálgast sýnumst vær
sigð hans, nè oss vort grafarmið.
Ó, það stórmerki stöðugt eitt:
að stillir, allt sem skapa vann,
hugarfar þvílíkt hefir veitt
heims eina dýri' er þenkja kann!

II. Hver vera því, með hverri dáð
hvatta sem drottinn vildi þá,
hvort sjálfleiðslu' eður þánka þáð
það fèkk, stand hennar bezt við á;
svo eptir farsæld sækja hèr

samri tillaungun allir með,
og finna meðöl fengin sèr
fyrir hver nást má takmarkið.
Án er náttúru-togan táls;
taumhalds- hvar sem hún annast -störf
kirkju ráðstefnu- prófið! -prjáls
og páfa hver mun gjörast þörf?
Vor skynsemd er og verður köld
vel hversu sem hún lýsir þó,
hún þènar ei nema' aðspurð, öld,
og opt þá fyrst er nauð til dróg,
hún sitt oss aldrei lætur lèð
liðsinni, nema hiðjum vèr,
og þó svo sjaldan er oss með,
optliga burtu víkur sèr;
en eðlis-leiðslan er til taks
óbeidd, sjálfkrafa, hvergi rög;
já, frá öndverðu stöðug strax,
stoð þar hinnar er skamvinn mjög.
Önnur getur ei-utan rètt,
aldrei skeikandi, gengið fram;
hin kann að falla' í hættan prett
hægliga' af vegi leiðast nam.
Þessir tveir kraptar, svovel sá
sem fær skynsama grundun veitt,
sem hinn, er áfram hvetur, sjá!
hjá dýrum koma saman í eitt;
þarámót sjást í vorri víst
veru sundurgreind þeirra skref.
Kom nú! og ofar lángt, ef lízt,

leiðslu sjálf-fýsnar skynsemd hef!
Aðgætni lítil þó á því
þinn hug skal fræða nauðugan:
að þessari sjálfur eflaust í
einn verkar guð, en hinni mann.
Hverr hefir dýra-fjölda frætt,
sem foldar mörk og skógur ber,
að forðast hvað þeim ei er ætt
en þess heilnæma leita sèr?
hvar sú framsýni veitt þeim var
vostorma til að firrast grand,
að húsa sèr upp hvelfíngar
og harðan grafast ofaní sand?
að reikna flóðs og fjöru tíð
fylsnis og skjóls að byggja sal
efst á bylgjanna bröttu hlíð,
brim þeirra sem ei róta skal?
Hverr kendi fyrstur kónguló
keiprètt og jöfn að draga strik
án reglu-teins, en óskakkt þó
eins og de-Moivres [1] handarvik?
Hverr bað storkanna stóru sveit
með stríðu kappi flýta sèr
sem Kolúmbus í landa leit
og lopts, sem þeim ei kunnugt er?

[1]) *de Moivre* (frb. Du-muver) hefir án efa verið mælingarfróður maður eða uppdráttameistari á Frakklandi, og verið sèrliga nettur að draga strik reglustikulaust; hann er annars ókunnur.

Hverr þeirra saman heimtir ráð?
Hverr dag og stund þeim ákvarðar?
Hverr fylkir þeim, og ferða-bráð
fyrn herliðs þessa leiðtogar?

III. Grundvallað hefir alvís í
eðli sèrhverrar skepnu guð
hennar farsæld, og hentug því
hèr við sett takmörk afskömtuð;
já, með því verk hans eitt er allt
um bjó hann svo þess parta trygð,
að heila skarans heill óvallt
á heila skarans þörf er bygð.
Náttúrulög voru fest svo fyrst
og frumsett orða stöðug æ:
allt það sem lifir, andar, flytst
í þynnra loptsins hreinum blæ;
allt líf, sem þykkvum í er til;
allt það sem jörðin næring lèr;
allt hvað geispar í unnar hyl —
eðli hvað helzt og nafn sem ber —
allt er samfèlags reyrt með reim
raunar sömu, þótt ólík sè,
svo dýr hvert kemur dýr við heim
dregst hvor manneskja' að annarri.
Sama náttúran elur æ
í hvorutveggjum fjör-elds hnoss,
og lífs útbreiðslu fólgið fræ
frjófsamt gjörir í þeim og oss.
Allt hvað um víðan skundar skóg

(ei skarans dýra jaðar[1] einn),
allt hvað á veðra flötum fló,
um flóð því skreiðir uggateinn
elskar sig sjálft og vill sèr vel,
en vill ei þannig einu sèr;
nei, karlleggs milli kærleiks þel
og kvennleggs sama plantað er,
hvaraf þau meður hvatri lyst
hvort eptir öðru sækja fast,
þartil hnossið er fengið fyrst
fyrir þau bæði' að sameinast;
þó er ei ennnú lyktuð lofn
lystar samkvæmi þetta við,
nei, sjálfselskan fær nýjan stofn
nær þeim sig tjáir afkvæmið:
á ný þau unna sjálfum sèr
samtvinnuðum í úngri grein.
Aðgæt dýr, fugla' og orma her!
hvað umhyggjufull, góð og hrein
hver sínum úngum tegund tjest!
hve trúlynd móðir fóstrar þá!
hve þá forsvara faðirinn sèst,
falda þeim báðum hendur á!
en frá sèr loksins þegar þeim
þroskuðum sleppa foreldrar
í vindugt lopt eða víðan geim,
við eigin störf að lifa þar,
þá er umsorgun þeirra kljáð

[1]) Dýra-skarans jaðar, enn helzti meðal dýranna, einsog Asa-jaðar, enn helzti meðal Ásanna.

og þetta sjálfsboð rakið út;
sú samantengslan sèst afmáð
og sögðum brugðið ástar-hnút.
Ný sameiníng með nýrri lyst
nú rekur hina fyrri á braut!
þá annað fóstur auglýsist
annarr kærleikur berst í skaut.
Umhyggju stærri' og lengra lið
lífsþarfir manns sèr krefja beint:
hann er svo lengi' að hjarna við
og hag sinn kann að þekkja seint;
en sú mæðunnar meiri lengd
mjög herðir skyldu-lögin vönd,
skynsemd, við hugar-skoðun tengd,
skerpir þó enn meir þessi bönd.
Með öfl'gri fýsn á eigið gagn
eitt og hið sama verka þær
og hvar til elsku meðfætt magn
manninum annars komið fær;
það fegrast sálar-augum í
áður sem fann hún lystíng til,
val kveður á, og vizka frí
við meðlíðunar kveikist yl.
Dygð við tilhneigíng hèr er há
svo hýru bundin yndi með,
að það sem skynsemd eggjar á
eptirlæti fær sönsum tèð.
Ný þraung, ný hjálp, nýr vani víst
vorn aukið geta kærleiks-mátt,
og valda', að hann til viðgángs snýst

velgjörðum nýjum efldur brátt:
nær börnin úng eru nokkur, en
náð hafa styrk og aldri sum,
af náttúru þá elska menn
þau ýngri', en hin af vananum.
Ei er líkamans afl og vit
alvaxið þessum, fyrr enn sjá
hjálparlausan við heilsu-slit
hann, sem líf þeirra' er komið frá:
afkvæmin systur eggja tvær,
endurminníng og framsýni,
geðástir nú að gjalda þær
enn gamli fyrr sem lèt í tè;
hin fyrri lætur bent á bak
barndóms-ára, til veikleikans,
en seinni fölskvað sýnir rak
þá sígur elli' á hagi manns.
Ámeðan þannig þau í eitt
þakklæti hindur, von og lofn,
að viður allra gagn fær greitt,
gjörvallur blómgast ættarstofn.

III. Náttúrustandi, þenk ei þú,
það gángi menn sem blindir í,
guðs stjórnar ríki stètt var sú,
stýrði sjálfur hans andi því;
eigin- og fèlags-elska senn
öndverðu frá sig tjáði þar,
eindrægni stöðug eins fyrir menn
og allar skepnur samband var.

Nú fèkk ei hofmóð nokkurr sèð,
nein var ei kunst sem elur hann,
dýrunum umgekkst maður með
á mörk og engi tíma þann;
í skugga sömum hann og hinn
hauðri samneyttu gróðans af;
her jörð var fyrir svo blandað kyn
borð þegar át, og rúm þá svaf;
fæddu þá ekki manninn morð,
möttul ei lètu dráp í tè;
í sama, guði sæmu', á storð
sí-glauma skógar musteri
allt það, sem hrærir túngutól,
tónfögrum gleði' og þakkar-róm
skaparans nafni göfgun gól
og galt samkvæða tignar-hljóm;
altaris var þá enginn steinn
yfir strokinn með gull nè blóð,
ódreyr'gur, klár, í hegðun hreinn
hèr-við enn frómi prestur stóð.
Guð sèr aleinum geymt fyrirhjó
gjörvöllu' að stjórna veraldar;
yfir að drottna', en þyrma þó,
það eitt manninum lofað var.
Ó! hvað manneskja sjálfri sú
sèr ólík, breytt hefir leyfi því!
botnvana gröf, og bitur nú
böðull nær hálfs sem líf er í.
Náttúru kvein ei heyrir hann,
heldur, af stakri vonzku, tèr

hinna kyni sig heiptugan
hettir [1], en sínu falskur er.
Óhófi straffið fylgir frekt:
fjörrán af manni sèrhvað efnt
nærði þá huldu sóttarsekt,
sú er knáliga lèt þess hefnt;
án meðaumkunar úthellt blóð
uppvakti, til að sækja' á hann,
ólmari varg og ægri þjóð
enn öll tígris-dýr, það er — mann.
Svo náttúrligum varið var
vegum mannsins, en skoðum hann
til fagra-kunsta' og fèlags þar-
frá sig reisanda smámsaman.
Sjálfleiðslu skynsemd sèr tók af
siðform, og huga vakti manns
náttúruhróps að gá, er gaf
góðfús ástráð og kvað til hans:
Far, og lát dýra fjölbreytt skikk
form eptirbreytnis vera þèr!
af fuglum nem, hvern þarfan þykk
þèr fjöld af eikum gróða ber;
náttúru-grasa nem af hjörð
nytsamast hvað til heilsu sè;
hagirk bífluga' í húsagjörð
hentugur er þèr meistari;
moldvarpan á þig minni plóg;
maðkinn þèr vefnað kenna lát!

---

[1]) *hettir* er sá sem hatar.

að sigla þèr sè námsbók nóg
Nátílus[1] litli', og smíða bát;
sjá, hversu þenja vel hann veit
voð sína hverjum gusti mót,
svo um stiglausan ránar-reit
rètta leið stefnir ferð hans skjót.
Sjá, önnur dýr á ymsan veg
í fèlagskap sig binda ríkt,
ætt þinni regla rèttileg
og ráðsform allt skal vera slíkt:
þar hús-gjörð undir hittist ein,
hèr borg og lypting uppá jörð,

---

[1]) Nátílus (*Nautilus*) kölluðu enir fornu náttúrufræðíngar lindýra-tegund eina sem opt sèst í Miðjarðarhafi, og er mjög nýstárlig að skapnaði og háttsemi. Nátílus hefir skel á baki, svipaða snigilhúsi eða bátmyndaða, sem hann getur þanið og dregið saman þegar hann vill, eins og segl. Í lognum fer hann upp í sjáfarbrún og þenur segl sitt, en hefir arma sína, sem eru svipaðir krabbaklóm, til að róa og stýra. Hann er mjög varr um sig, og leyfir engum nær sèr enn svosem að 30 feta bili; það er því mjög torsótt að ná honum á sundi og siglingu, því þegàr segl hans og árar hrökkva ekki þá spýr hann bleki, og ef fjandmenn hans standast það, þá hleypir hann sèr óðar í kút og sökkur sem steinn. Nátílus-kyni er skipt í fimm ættir, og kallar Linnè, hinn mikli náttúru-spekíngur Svía þær Argónáta að kynsnafni, eptir enum nafnfrægu farmönnum Forngrikkja, Jasoni og fylgjurum hans. Ein Nátílus-ætt er í Norðurhöfum, og köllum vèr það smokkfisk. Nautilos er grískt nafn, og þýðir eginliga skipverja eða sjómann.

alsetið þorp á eikar grein
óhult bifast um veður hörð.
Aðgæt það sveita-safn gjörvallt,
svo lítilsvirt það er og smátt,
skoða það grant, þess eðli allt,
athafna skipun, stjórnarhátt.
Kynn þèr maurinn, og kenna bið
að koma' upp frjálsum ríkishag!
eptir býflugna sæmum sið
setja skalt einvaldsstjórn í lag!
Hinn fyrri, sjá! hve fánga-gnótt
til fèlags nota saman dró,
og, fyrir utan upphlaup, rótt
í yfirdrottnunarleysi bjó;
þær síðarnefndu, sjá! hvað æ
sig halda trútt und einvalds makt!
hver ein fyrir sig byggir bæ
og býr að sínum efnum spakt.
Hvert þetta litla stjórnarstand
hve staðföst binda lög, þú merk!
vís, sem náttúran, boð og band,
brygðul ei meir enn forlög sterk.
Með öll sín háfu skilníngsskref
skynsemi þín til einkis hóf
að semja dýrri' og vænni vef
en viss sjálfleiðsla hjá þeim óf.
Nær ei rèttvísi nema prett
og niðurþrykkíng býr hún til
hrærandi saman rángt og rètt
svo rínglúð felast þeirra skil.

Nær lögin alltof lin eru gjörð
að láta makt og vèlum hnekkt
og síðan aptur helzt-til hörð
heims meingi fyrir alþýðlegt,
far þá, og dýra fullum her
fyrir að ráða þannig nem!
við þann sem mestan vísdóm ber
vel svo fjöldan á blýðni tem!
og hverja fyrir íþrótt, þá
einber sjálfleiðsla gjörskoðuð
kennt hefir þèr, þig krýndan sjá
kóng, eður tilbeðin sem guð!

V. Slík vís náttúru-raust gaf ráð;
til reiðu manns var blýðni skjótt:
samfèlög urðu sett á láð
senn reistist þorp og borg af drótt;
hèr kom upp lítið stjórnarstand,
strax því jafnsíðis annað var;
ást mundi það eður ótti band
er saman knýtti bæði þar.
Væri hèr land, það ítrum af
ávöxtum stærri mergðar naut, —
væri þar á eður ósalt haf,
í hverju skærri straumur flaut —:
í staðinn þess, með vopna vo
að vinna' á öðrum kosta rán,
fræddust þeir: betur færi' enn svo
að fá með kaupskap þeirra lán.
Svo margur, sá með þjóstugt þel

þusti dólgur á nálægt frón
fór með erindi vunnið vel
vinur tilbaka', en ekkert fjón.
Umgengni kænnar eðli þýtt
öruggt hlaut binda sáttmálann,
þar elskan sjálf var frelsi frítt,
fast boð og lögmál náttúran;
svo voru stiptuð stjórnarvöld,
stórt þó ei væri kóngsnafn enn
þekkt und Miðgarði, þartil öld
þrýsti nytsemdar von almenn:
kóng einvalds einn að kalla mann
og konúngsstjórn hans yfirráð,
hvartil ámeðal veljast vann
valinkunnastur þeirra' að dáð,
hyggindi hvers og hreystin ör
höfðu mót fári tjáð sig vörn,
landið í farsæl lukku-kjör
og lífs velgengni sett þess börn;
því hvað einum í þætti kyns
þar lèt tildæmdan föður-rètt,
það sama gjörði þá einn prins
þegna-faðernis prýddan stètt.

VI. Patríarkinn, sem faðir fyrst,
fylkir síðan og prestur hèt
síns nálægs húss, til niðjans yzt;
náttúran sjálf hann krýndan lèt.
Tillit hans var þeim tignar boð,
túngan óbrygdul vefrètt hæst,

hans fyrirsjónar forsjál stoð
fulltrúi þeirra guði næst.
Af foldar skauti' og akurrein
at-vinnu nógrar sèr að fá,
og brúka svosem önnúngs-svein
eldinn og vatnið, lærði' hann þá;
frá háfum skýjum öflgan örn
ofanfalls til að þvínga hèr
og drafnar-heima dumba börn
dulin að ginna' í hendur sèr,
uns sjúkdómur og elli þann
um síðir fluttu' í grafar vist;
þeir þá, hverr verið hafði hann,
hug um leiðandi, sáu fyrst.
Eins þann og mann þeir aumka nú
áður tilbáðu svosem guð,
þánkaspor vánka þraut lèt sú
því meir í tímann upp-hækkuð.
Alla feðranna raðar reim
röktu, leitandi þessum hjá
að fyrsta stóra föður þeim
fullum vísdóms, er trúðu á.
Uppgötvan þvílík, eður og fregn
einber, og sagnir munnligar,
alla knèrunni ofan í gegn,
um fyrstu byrjun veraldar,
frá föður syni færði trú
í fullum styrk, um sannleik þann:
að ósköpt vera sè til sú
sem allan heim lèt skapaðan,

sem öllu lag og orðu gaf,
eginligleika þeirri menn
tileinkuðu, sem öllum af
yppurstu veru hæfðu' í senn;
skynsemd en millum gáði: grein
að gjöra verks og meistarans,
og veru, svosem væri' hún ein,
viss í einfeldni tilbað hans,
rángur skilníngur fyrrenn fèkk
hið fasta ljós í villu sett,
í augu manns, sem guðs, það gekk,
að gjörvöll sköpun hans var rètt;
ánægju, sem hans gladdi geð,
og gagn að eins í dygð hann fann,
og þann sem föður elska rèð
er svosem guð sinn tilbað hann.
Trúin og hennar skylda skír
í skærri fólgin elsku var;
ekkert lögmál hann annað knýr,
engin boðorð nè heitíngar.
Þá hæstu veru hann áleit
enn hæsta fyrir góða víst,
öruggur þess, að ást sú heit
illt sèr til falla lèti sízt.
Sönn trú og rèttvíst stjórnarstand
studdust þá tengd hvort annað við,
þeirra var sama beggja band:
blíð ást við guð og mannkynið.
Kúgaðri sál hverr kennt þá fèkk,
í kollsteypt ríki leidt inn hèr,

ógnar-trú þá: að einn fyrir rekk
allir menn sèu skapaðir?
skaru-trú, náttúru skipun frá
er skammarliga víkur ljót,
brýtur samstillíng heimsins há,
hæstum skapara berst á mót.
Maktin gaf sigur, sigurinn lög,
uns setti hjátrú lærdóm þann:
einum týranna' í öllu mjög
ætti hverr tjá sig hlýðugan;
af týrannaskap ínetjuð
öflugt tillèt hún hjálpar megn —
sèrhvern stjórnara gjörði guð,
gildraði' í ánauð sèrhvern þegn.
Nær jörðin skalf og brustu björg,
búin nær til að kollvarpast,
þá um flaug reið og eldíng mörg,
óttaslegna þá rak hún fast
að niður-kasta' í auðmýkt sèr,
en hina stoltu' að kalla nú
á hærri makt, sem ósèu er,
ógn hverrar megni kennd var sú.
Brunandi guða bjó hún til
úr hrostnum skýjum hugarmynd,
en anda vonda' úr afgrunns hyl
upp komna gegnum rifna strind.
Helvíti smíðað hèr var ljótt
himinsins blíða ríki þar;
hræðslan málaði djöfla drótt,
dýrðir guðanna von fram bar, —

ránglátra guða raunar þó
og raskanligra, gjarnra' á tjón —;
í þeim vellystar óhóf bjó
eiturlig heipt og dauðligt fjón.
Líkir því, sem eitt lasta-þel
lèt þá myndaða fyrir sèr,
og, sem týrannar trúa vel,
týrannaliga sinnaðir.
Af því mildiligt elsku-skin
engan leiða varð framar sèð
tvídrægnis blisin tendrast hin
tvinnuð vandlæti blindu með.
Þá var á drambið himni hreykt,
helvíti' á stólpa reiðinnar;
óvinum híngað inn var fleygt
en sjálfum byg'u menn sèr þar.
Ei sýndist skýja hvelfíng heið
heilög að vera framar þá;
marmara'-ölturu bygðust breið,
brunnu þar mikil slátur á;
fórnar-dýrs prestur fyrst þá naut,
fúlu síðan til dýrkunar
blótgoði sínu bjó til hlaut[1]
af blóði manns — það smurníng var.
Blygðunarlaus hann brúka rèð
blöskrandi skruggur himni frá
foldbúum til að fæla geð
og frelsisanda niður slá.

---

[1]) *hlaut*, blóð það sem haft var til blóta.

Já, sjálfs hans guðir þèntu þrátt:
þá honum gramdist við á jörð
í megin-hefnd að mylja smátt,
sem morðvopn fyrir hans reiði gjörð.
Þannig nú fyrir rètt og rángt
rekur til hvern mann sjálfselskan:
að útvega sèr æfilángt
unað, góz, heiður, makt sem kann;
en þessi sama verður völd
veraldar-þjóðum elska sjálfs
þess sem á leggur höpt og höld:
herravalds, laga, sáttarmáls;
því ef öðrum í þánka bjó
þess girnd, sem einn hefir mætur á,
mun hann þess njóta mega' í ró
margir sem þannig vilja ná?
Hve má hann sig fyrir vèlum veiks
vita, nær sefur, óhultan?
og vakinn, sakir óhraustleiks,
ofríki sterks hve verjast kann?
Svo er tryggleikur sèrhvers það
er setur frelsi voru skamt,
því þess, sem hænist einn vor að,
allir vèr hljótum gæta samt,
og jafnvel hefir eigið gagn
alvalda knúð, að stunda dygð,
á rèttlætis og mildi magn
með því ró er og friður bygð.
Af eigin-kærleik áminntir
yfirgáfu þann villustig

er mesta trygðar-meðal sèr
mat fyrr stórnarlyst óhóflig.
Af skaða gjörður hygginn hèr
hilmir fann gagn og tryggleik sinn,
í heila múgans hagsældir
harla nákvæml'a sveipuð inn.
Ein upplýst þekkíng um það mund,
ypparla-göfugt hjarta þel,
sinni skaparans svipuð lund
sínu unnandi kyni vel —
eitt skáld, einn frömuður föðurlands,
fram með íþrekað spratt upphaf
á siða'- og trúar-mentun manns
mæt sem náttúran áður gaf;
forna ljós hennar forklárað
fèkk sá, en ekki nýtt tilbjó:
guð sýndi fáinn, ef ei að
eptirmynd, víst í skugga þó;
að fara stjórnar rètt með ráð
reglur hann furstum gaf og lýð,
að hvorki skyldi maktin máð
nè mengi gjörast allt of stríð.
Í svo nábundin sáttmáls grið
að setja þeim hann kenndi, gegn
ena meiri þá minni við,
mektugan konúng við sinn þegn:
að sín á milli gagnstætt gagn
geti samtvinnað reist til lags,
sæta, hljóms fyrir samþætt magn,
saunglist vel blandins stjórnarhags.

Svo alleinasta sitt upphaf
samhljóðan alheims hefir stór
þess mikla gjörvalls orðu af
eining og fylgi þeim í kór:
hvar stórt og lítið, sterkt og veikt,
til styrks, en ekki' að líða kalt,
að frama' og aðstoð fengi kveikt
en friðspell ei, var skapað allt.
Hvar einn sig gjörir maktarmann
múgan svosem hann stoðar til,
einnig því framar farsælan
sem fleirum vinnur þarfa-skil;
hvar allt á takmark eitt sèr snýr
allt er i miðpúnts tilleitan:
andi, maðurinn, ormur, dýr,
yfirdrottnari, þjón og man.
Hver bezta stjórnar-aðferð er? —
um það lát dára þrátta frí!
hún er æ bezt sem bezt fram fer,
bera kann enginn móti því.
Hver rètt sè trúin? — láttu laung
lærdóms-flokka sín heyja kíf! —
þess trú kann ei að reynast raung
rèttskikkað hvers og frómt er líf.
Aldrei voru nè verða menn
í von og trúnni samþykkir,
en elskan varðar alla senn,
af öllum mönnum krefjast ber.
Falskt er það allt, sem festi þá
fullkomna skerðir veraldar;

allt af guði, sem efla má
að gæzku' og farsæld skepnurnar.
Sem mæta vintrè manns er líf,
megin það, studt af öðrum, fær
eikum sitt fyrir afl og hlíf,
er sjálft það meður faðmar þær;
sem hver pláneta sinn um ás
sjálfrar á meðan veltur kríng,
þó með sífeldri rennur rás
röðul umhverfis, mældan hríng;
í sama máta sálu manns
sèrhvers er tvöföld hræríng lènt:
vendir önnur að velferð hans
vill hin þess heila gagn almennt.
Í náttúrunni' af náð guðs er
svo nákvæm gjörvalls eining sett:
að sjálfum rètt oss unnum vèr
ef unnum hverjum manni rètt.

---

## FJÓRÐA BRÈF,

*um náttúru mannsins og ástand, með tilliti til farsældarinnar.*

### YFIRLIT EFNISINS:

I. Svarað enum raungu ímyndunum um farsældina, bæði spekínga og alþýðu manna. II. Farsæld er mið allra manna og er náanlig öllum. Guð ætlast til að farsældin sè jöfn fyrir alla; en til þess hún verði það, verður hún að vera fèlagslig,

þareð farsæld hvers *eins* er komin undir farsæld *allra,* og vegna þess guð stjórnar öllu eptir einum lögum en ekki sínum hluta eptir hverjum. Nú er það nauðsynligt til reglu, friðar og velferðar fèlagsins, að enum líkamligu gæðum sè ójafnt skipt; því er ekki farsældin þarí lagin. En, meðfram þessum ójöfnuði jafnar forsjónin niður farsældina meðal mannanna með tveim geðbreytíngum: von og ótta. III. Í hverju farsæld hverrar einstakrar veru sè falin, að svo miklu leiti sem sameinast má niðurskipun þessarar veraldar, og að góðir menn beri hèr hærra hlut enn hinir vondu. Um þá villu: að eigna dygðinni þau óhöpp, sem einúngis eru náttúrufari eður auðnunni að kenna. IV. Um dáraskap þann: að vænta, að guð muni breyta allsherjar-lögum eptir hagnaði eins eður annars. V. Vèr erum eigi menn fyrir að dæma hverjir góðir eru; en hitt getum vèr sagt: að hverjir sem góðir eru, þeir verða farsælastir. VI. Líkamlig gæði eru ekki eiginlig verðlaun; þau eiga opt ekki við dygðina, og steypa henni stundum; án dygðar geta þau engan mann gjört farsælan. Þetta er sannað um auð, metorð, ættgöfgi, mikilmennsku, frægan orðstír, afbragðs atgjörfi, með dæmum þeirra manna sem hafa haft alla þessa kosti og þó ekki orðið farsælir. VII. Dygðin ein aflar farsældar; sú farsæld hefir almennt framkvæmdar-mið, og eilíft stefnumið (þ. e. farsæld hins dygðuga er að stuðla til allsherjar-gagns, og leitast við að verða sí-

fullkomnari). Fullkomin dygð og farsæld er komin undir því: að laga sig samkvæmt reglum forsjónarinnar hèr í lífi, og fela sig henni á vald hèr og síðarmeir.

---

Ó farsæld! þú vort einka hnoss,
ástefuda lífs og veru mið!
lyst, gleði, rósemd, alnægð oss!
öld hvað helzt nafn þig brúkar við;
eitthvað, sem girnast allir menn
ævarandi með stundun frekt;
sem gjörir lífið yndælt, en
andlát dauðlignm bærilegt;
er svo æ nálæg sýnist öld,
samt firrist jafnan hendur manns;
ýmist ei sèst, eða' ert tvöföld
augum ens vísa' og heimskíngjans.
Seg, himinsæðis himna blóm!
hjá oss ef hygð þèr gefin var,
hver hreppti jörð þann heilladóm,
að hæf sè til þú vaxir þar?
Máske hofgörðum megir á
með allt þitt finnast glansa skraut?
ertu með demant höddum[1] hjá
hulin, málmæða ríkt við skaut?

---

[1]) *haddar*, það eru gimsteinar og dýrir málmar í jörðu fólgnir.

Máske Parnassum[1] byggir blíð,
blandin lárberja-kransa við?
höndla þig þeir, sem heyja stríð
og hjörvi brytja sigrað lið?
Hvar grær? hvar gróða synjar sú?
sáð það nær viljum himinsins
þrífa til blóms og þroska nú;
þótt vèr erviðum forgefins,
forsjálir megum akur á
engri skuld kasta þarfyrir
heldur irkíngar aðferð þá
er sjálfir brúkað höfum vèr.
Sönn farsæld ekki sèst á rót
sett föst, eða stilk sem plönturnar,
hún er hjá engum, eða' á mót
hjá öllum vex án manngreinar;
til kaups á torgum engum er,
aldrei stað nokkurn bundin við,
hún umflýr furstann, en hjá þèr
ástvin[2]! í kyrrðum festir bið.

I. Spyr lærða, hvar hún sýni sig
sjá! blindir eru lærðir menn!
einn, menn að forðast, eggjar þig,
annarr að stunda kærleikinn;
einn í framkvæmd og iðju sú,

[1]) *Parnassos* er alkunnigt fjall á Grikklandi, norður undan Korintufirði, þarsem Grikkir og Rómverjari heiðni lètu vera bústað Apollons og mentagyðjanna.

[2]) *ástvin*, þ. e. Jón lávarður.

annarr í kyrrðum meinar sè,
ánægju þessi nefnir nú
nær annarr hugar rósemi.
Sumir í dýra sokknir hyl
sansamna lögum eptir gá;
gjör-hafnir aðrir guða til
göfuga vilja dygð forsmá.
Í dofa sofnir aðrir enn
af engum sorgum skipta sèr;
hvívetna trúa heimskir menn
hinskostar engu, tvílsamir.

En — munu þvílík máltæki
með allri sinni snildar-vèl
tjá meir, enn farsæld sönn að sè
sú, nær manninum líður vel?
Svo óskiljanlig öldnum hjá
öll siðfræði með kunst var gjör,
meir löguð til að af enn á
yrðir þú leiddur rèttri för.

II. Halt fram náttúru hreina leið!
hrind enum raungu þaunkum frá!
hún er skilningi hvers manns greið,
henni kann sèrhvers stand að ná;
hennar ágæti' er öllum falt
sem almennt boðin vara glæst,
jöfri sem bónda játað allt,
jafnt í hofgarði' og koti fæst.
Rètt þenkt að eins og viljað vel;
vænleikur ei hèr meiri krefst,

ei hærri gáfur heimtar tel
heimild og öllum þará gefst.
Mögli fólk: sumum meiri þó
minni gaf öðrum lukkan skamt;
heilbrygð skynsemd og hugar-ró
hèr er alls engum neituð samt.

Hugleið og mundu, maður! til,
máttkur náttúru ráðandinn
lætur allsherjar lög og skil
leiðiþráð stjórnar vera sinn,
og yeldur því, að auðnu-hags
allt það með rèttu nafn sem ber
ei í eins, heldur alls fèlags
óska-vellíðan falið er.
Ein skepna sèr ei svo fær átt
sinn skamt unaðs og nytsemdar
að hennar kyn á einhvern hátt
ei njóti liðs og gamans þar.
Grimmum reifara, dráps og drambs
drottnanda, föstum múnk við rann
til lengdar ei sinn líkar hams,
leiðist um síðir einveran.
Sá sem vill helzt, að sè aðgætt:
samneyti manna hve hann flýr,
og hatursfullur eigin ætt
aðra skirrist, sem villudýr;
vill þó af hinum verði dást
er vitu, slíkum háttum að;
hann máske þenkir, einhvers ást
ávinna muni fyrir það.

Öll lystisemd, nema' alist við
annars tilfinníng, dautt er hjóm;
öll æru-fegurð ónýtt ryð
efld nema sè við fleiri dóm.
Hverr á sinn skerf, og þeir sem þó
þrá eptir meiru, loks fá raun:
að ábatinn og unun sljó
í ómaks hálfs ei nægja laun.
 Guðs stóra lögmál ein ef er
orða, hverr getur neitað því:
að einn má öðrum bærri hèr
hyggindum, makt og ríkdóm í?
En vilji nokkurr af því fá
ályktun þeirri forsvar gylt:
að farsælli sè fyrir það sá,
fer hann skaðlega þarí villt.
Hverr einn játar, að halla-frí
himinsins stjórn yfir manni sè
þegar farsældar auðlegð í
allir jafnt taka hlutskipti;
en sameiginligt án og van
eykur farsældar gengi mest,
með því náttúru misjafnan
megin náttúru-friðar sèst.
Misjafn hagur og munur stands
hjá mönnum litlu varðar hèr:
einn þengill er, og þegnar hans
þó í raun allteins farsælir;
sá forsvar veitir, svosem hinn
sem forsvar þyggur, vernd og lið,

göfugur vinur, gleðjandinn
og gladdur einn þess hylli við;
því guð veraldar öllu af
innblásna hvern í lim og beð
sameiginliga sælu gaf
sameiginligum anda með.
Hans gæzka þannig heiminn skóp,
heill vera sèrhver af er beið,
að vor lifendra öllum hóp
opin farsældar- stendur -leið;
en væri sama mæli með
mæti lukkunnar útdeild fríð
og allir jafnir, ei hvort sèð
í öllum hornum mundi stríð? —
Með því oss hefir öllum nú
Alfaðir hugað sælukjör
af einum-saman ei gat sú
útvortis hlutum verið gjör.
Lát vera': að út sè mönnum mælt
misjafnt af gáfum lukku-kyns;
lát hrósa menn, hve sætt og sælt
sè þessa líf, nær aumkast hins.
Samt reynist breytni ráðandans
rèttvísinnar ei skeika' af slóð,
eins gjörð vísliga hlutan hans
og hugarstefnan allteins góð:
nær einum von, en ótta-fár
öðrum til falla lætur hann;
því illt og gott sem yfir stár
eiginligana' ei skapa kann

auðnulag mannsins, heldur hitt
hann sem í vændum, fyrr enn sker,
ókomið fyrir ástand sitt
annaðhvort betra' eða verra sèr.
Ó, börn Fjörgynjar! þorið þá
þèr aptur nú, sem forðum tíð,
bjarghreyktra turna brún uppá
að byrja móti skýjum stríð!
Sjá: drottinn kýmir dátt að því
sem dælska stofnar yðar prjáls,
og heygir dárann hól þeim í
hans dáraskapur bygði sjálfs.

III. Vit, allt það gott, sem maður má
í móti taka hèr á storð —
guðs og náttúru hönd sem há
hefir lagt undir vort boðorð —
sinni voru hvað yndælt er —
allt hvað vel fellur skynsemi —
hafa þrjú orðkorn heilt í sèr:
heilsa, friður og bjargræði;
en án hófsemdar ekki ljær
oss stöðug heilsa fylgi sitt,
og friður, dygð í eðli skær!
eign og hlutskipti' er friður þitt! —
Vondum og góðum veitast jamt
að vísu gáfur lukkunnar,
en lukkan er þeim sárill samt
sem hún kemur til spillingar.
Einn nær rèttvísri aðferð með

unaðs og bjargar fer á leit,
annarr þess fá með raungu rèð —
ráð sitt hvorr meir í hættu veit?
Nær dygðin mætir meðaumkun,
menn allir hata löst og smá,
seg mèr: hvors lukka meiri mun?
met, hvorjum betur vegnar þá?
upp tel allt fremdar yfirtak
óknytta-menn sem tigna fast!
hvað er það? dygðar-hrollur, hrak,
hróps efni, það hún við blygðast.
En — lát þá allri lukku ná!
lengst mun þó einnar vant í safn,
blífanligustu' og beztu, já —:
að bera dygða' og frómleiks nafn.

Vor er oss dulin vanþekkíng
um vegu guðs, nær svo er dæmt:
að klækir lán í ávinníng
en ólán dygðin hreppi slæmt.
Skaparans stjórn sá skynjar mest
og skeikar minnst frá leiðsögn hans
lukkuna þekkir laungum bezt
líka nær fyrst til gæfustands.
Dárinn að eins þann dygðum ann
dóm ófarsældar leggur á,
af því tilfelli hittir hann
sem henda jafnvel alla má.
Sjá Falkland[1], dygðar frjálsan mög,

[1]) *Falkland* var ríkisskrifari Karls hins fyrsta á Englandi, og er orðlagður fyrir frómlyndi og ráð-

fallinn, því kallar dauðinn hann!
sjá taptan grúfa, teygðan mjög
Turenne [1], guði-líkan mann!
sjá, hvar ypparligt sitt við köld
Sidney [2] blóð lætur darra kíf!
Hví þá? dygðanna hvort í gjöld?
hvað? nei, þeir spöruðu' ei sitt líf.
Seg, dáinn, þreiður Digby [3]! hvört

vondui; hann var líka sèrliga vel að sèr. Hann fèll í orrustu móti upphlaupsmönnum við Nýjuborg *(Newbury)* að eins 33 ára gamall. Klarendon, frægur enskur rithöfundur, segir hann hafi verið saklaus sem barn, en vitur og dygðugur sem öldúngur.

[1]) *Turenne* var bæði mesti kappi og mannval að kostum; hann var mestur af herforíngjum Loðvíks ens fjórtánda, og sýndi það sig í viðureignum hans við *Condé* og *Montekúkulí*. Hann fèll 27 Júlí 1675 við Sasbakka-þorp hjá Rín; þá ætlaði hann að halda orrustu við Montekúkulí og var að kanna orrustustað og leita hvar byggja mætti skotgarð; þóttist hann aldrei hafa verið vissari um sigur enn þá, en í því kom fallstykkiskúla á hann miðjan og drap hann á svipstundu. Pópi kallar hann guði-líkan mann *(godlike)*, fyrir því, að þó hann væri neyddur til að vera í orrustum, hlífði hann lífi manna með öllum ráðum sem hann mátti.

[2]) *Filippus Sidney* (frb. *Siddni*) er talinn meðal Englands mestu merkismanna. Hann var svo frægur að Pólína-menn buðu honum konúngstign, en Elízabet Engladrottníng vildi ekki leyfa honum að þyggja. Hann dó af sári, sem hann fèkk í orrustu móti Spánverjum.

[3]) *Digbý* (frb. *Dæbí*) var sonur göfugs lávarðar eins á Englandi; hann var hinn frægasti maður og vinsælasti, en var þó aldrei í embættum.

dygð þín helfarar-orsök var?
en þótt himininn geti' ei gjört
geðsprýði meiri' enn sál þín bar.
Legg mèr það út! ef dygð og dáð
dauðastund flýtti sonarins:
hví af árum og æru fjáð
elli grá lifir föðursins?
Hví, þegar alla felldi fár,
frómur stóð biskup Marseljes[1]
þá náttúran af sótt var sár
og sèrhverr vindur dauða blès?
Já, hví svo lengi' af guði geymd
(geti lángt kallast manna fjör)
mèr og til hjálpar margs er eymd
móðir[2] á ást og dygð óspör?
Öll sú í heimsins eðli þraut,
illt sem vèr köllum, rís af því:
haggist náttúran hót af braut
hún sem er vön að standast í.
Nær vilji mannsins villur þeim
viðsettu skorðum útaf brýzt,
illt framferði, sem atar heim,

---

[1]) *Henrik Xavier de Bethunie* var biskup í Marseljuborg *(Marseille)*; einusinni gekk mikil bráðasótt þar í borginni, og gekk hann þá mest fyrir hjúkrun enna sjúku og vitjaði þeirra sjálfur.

[2]) *Móðir Pópa* lifði þegar hann orti þetta kvæði; hún andaðist 1733, og hafði þá þrjá um nírætt. Hún hafði almenningsorð á sèr fyrir guðhræðslu og örlæti við fátæka.

allt af því enu sama hlýzt.
Frá guði tilsett ekkert er
hið illa; slíkt ei klaga skalt!
Nei, vitni sjálft hið vonda ber
voldugt, um gæzku' hans yfir allt
og hvað órèttvíst meta menn
í minni pörtum athugað,
með öllu heimsins eðli' í senn
opt er til stórra nota það.
Títt veldur skepna frelsi frekt
að frávik orðu henda kaun;
vill til stundum, að venjulegt
villist um hlaup sitt náttúran;
en nær það sker, sem sjaldan sèst,
á sitt hið rètta vendir skeið
hún aptur strax, og bætir brest
sem hrygðin ollu' á hennar leið.
Þó klýngir fólks í klið óspakt
klögumál jafnan yfir því;
en — getum vèr með sanni sagt
að sè guð framar skuld þarí:
að reiður Kain rèttlátan
rèð Abel hlýra dögum af,
enn að dándismög dygðugan,
þeim drykkjusólginn faðir gaf
óhollu meini blandið blóð,
blaktandi þjáir líf við kröm?
Skyldum vèr ætla', að eilíf, góð
orsök til gjörvalls, jafnan söm,
gjöri sèr kærum vin í vil —

að veikra fursta tíðum sið —
sitt eigið lögmál einkis til,
umbiltandi svo ríkis frið?

IV. Skal Etna, meðan eldi gýs,
út sínum skruggum hætta' að slá,
náttúru- strax sem nálgast vís
-njósnarmaður[1], þann ofn að sjá?
Skal Bethels[2] fróma, beygðu mjög,
brjósti til hægðar, lopt og sjór
náttúru- gefin ný við -lög
niður leggja sín átök stór? —
Nær fjallsbrún sprúngin hratar höst
háreistu skýja veldi frá,
skal þýngdar-regla þverra föst
þar meðan fram vèr gaungum hjá?
Nær gamalt kirkju- gnapir -hrör
geigvænni nálægt umturnun

[1]) náttúru-njósnarmaður; það lítur til Plinius og Empedoklis, sem fóru sèr að bana þegar þeir ætluðu að rannsaka eldgjárnar í Vesúvi og Etnu meðan þau voru að gjósa.

[2]) Bethel hèt göfugur maður í Lundúnaborg; hann var brjóstveikur mjög og lifði mjög hógliga og átti lítil skipti við aðra menn, en var vel þokkaður fyrir dygð sína og frómlyndi. Pópi ber honum á einum stað það orð, að hann hafi aldrei sagt annað enn það sem hann hugsaði, og aldrei hugsað annað enn það sem hann átti að hugsa.

skal óhult hverr mann eiga fjör
einn nema Chartres[1] þess við hrun?

V. En veröld þessa, vömm hvar tèð
og vonzka svo í blóma stá,
ánægðir fyrst ei erum með, —
allvel! látum oss reyna þá:
upp annann betra' að hugsa heim;
honum skal einber stjórna dygð;
ríki, tilsett með reglum þeim,
rèttlátra sè þar einna bygð.
En — herm oss fyrst, hvað heita má
hrósverðug dygð og rèttvísi!
lærdómur alda-sona sá

[1]) Chartres (*frb.* Sjarter) var fágætur lastadólgur; hann hafði það framyfir flesta eða alla fanta, að hann tók ekki á sig skýlu dygðar eða ráðvendni til að svíkja menn, sem flestum bófum er þó títt. Hann var ræmdur við alla löstu nema sóunarsemi, — því hann var óseðjanliga ágjarn; og hræsni, — því hann var svo blygðunarlaus að honum varð ekki fyrir að taka til hennar. Úr tveimur borgum á Flæmíngjalandi var hann rekinn fyrir þjófnað. Í spilum vann hann með svikum ærna peninga og hafði þá til að okra með; græddi hann með því ærið fè, en mannorð hans var svo, að enginn maður gat nefnt hús hans eða nafn án blygðunar. Tvisvar var honum stefnt fyrir nauðgunarmál, en hann keypti sig undan með mútum, og slapp með nokkurra mánaða fángelsi. Hann andaðist á Skotlandi 1733, 62 ára gamall, og tók þá skríllinn sig saman, braut upp kistu hans og ætlaði að fleygja hræinu í bæjarforina.

sízt hefir fengið eindæmi.
Fyrir dygðugum drottins önn
með dýrstum hætti skal auglýst,
en hver að dygðum sál er sönn
sèr drottinn einn og þekkir víst.
Um Kalvin[1] meiníng einn þá ól:
andi guðs hafi framknúð hann;
annarr helvítis illsku tól
úthrópar þenna sama mann.
Hvort heldur blessan var í vil
veitt, eða typtar himininn,
gellur einn við, að guð sè til,
guð engan vera segir hinn.
Einn klagar sáran yfir því
öðrum sem rètt og gott þó lízt,
því heims samflotan einni í
allir fullnægðir verða sízt.
Einnig það, sem er allrabezt,
öllum fellur ei jafnt í geð;
hvað yður er dygðar umbun mest
opt á mèr hana straffa rèð.
*Allt er það rètt sem er og sker!* —
ef fyrir Sesar kallast má
heimurinn skaptur, heita ber
hann líka fyrir Títum þá.
En — hvorr vann meir, sá ok við batt
ætthauður sitt og ríkishag,

[1]) Kalvin frá Genf er alkunnugur; hann er eiginligur höfundur ens reformeraða safnaðar, sem Zwingli hóf fyrstur.

eða hvers dygða-geð óglatt
án góðverks mistan syrgði dag?

VI. "En laungum dygðin líður nauð
lösturinn sæld þá baðar í." —
Hvað? umbun dygðar, er hún brauð?
ónei, lestinum ber af því
ei minna fyrir strit og starf:
strákur, sem plógnum gjörir skil,
verður er fæðis þess hann þarf,
það heyrir honum fullvel til;
bófanum er sín fæða frjáls
fárligt nær haf sèr vogar á;
vonds þá týranna vegna máls
og vænan ríkdóm til að fá
djarfliga stríða dárinn sèst
dygðin sefur í fullri ró,
of gullskirr til að eignast flest,
en til að berjast veik og sljó.
Heiðvirðum sú ei heldur önn
heyrir, að leggja kapp á fèð;
hans stundan ein er sú, og sönn
samvizku góðri' að lifa með.
En, lát hann ríkdóm líka fá! —
er laungun yðar þarmeð fyllt?
nei, makt og heilsu manndygð há
með krýnist, einnig þykir skylt.
Allvel! lát hefð og heilsu-krans
heims allra gæða fullan skamt
verða til samans hlutdeild hans,

heyrast mun klögun yðar samt:
hví aðkreppt beri maktar megn,
í myrkri lítils-háttar stands
æfilángt settur, annars þegn,
ei sæmdur heiðri kóngsprotans?
ytri hví gæddur auðnu sè
ei ró og mætum hugarins?
hví? — vèr ei sjálfir vitandi
verðum hvers óskum, þessa' og hins.
Þú óska-djörfúng ótempruð!
aldrei sem verður hóflig gjörð,
hví var ei maðurinn heldur guð
og himin sú hann byggir jörð?
Svo heimskuliga vítum vèr
vorn hag, því oss ei látum kennt:
að frígjöf himins fullnóg er
fyrir það hann gat meira lènt.
Svo mundi gjörast ósk vor æ
óendanlig sem drottins makt,
og hennar takmark eygt eg fæ
í náttúrunni hvergi lagt.
  Því ekkert jarðneskt ræna rèð
nè ráða kann fyrir mann í lag
reift og glatt hjarta, rósamt geð,
rètt sem er ánægt með sinn hag;
sjá! dygðar laun þar sönn hefir þú!
en, sýnist þèr það alltof klènt —
vel þá! gef auðmýkt vagn, sem þrjú
væn hesta-pör' eru fyrir-spennt!
lát þjóðelskanda frómleik fá,

að fylkis-spíru prýddur sè!
set biskups-mítur sannleik á!
sverð þau afhentu rèttvísi·
sem hernemendur lýðs og lands
laungum ofríkis brúka til! —
Allt þvílíkt glis og æru-krans
eru þesskáttar kaupgjalds skil,
sem mannkost aldrei geta glatt
nè gefið honum rètta fró,
en máske því, að af honum datt
ágætt sakleysi, valda þó.
Hve margur skelmir orðinn er
í aldurdómi, sem þó var
álitinn svosem helgur hèr
hvervitna' á dögum æskunnar!

Getur ríkdómur öðrum, enn
æfendum dygða, mannorð veitt
gott meðal fólks, og sjálfum senn
sèr af ánægju góz háleitt?
Máls- fèkk -dómara margan einn
málmurinn dýri reynt ofsvellt,
en mannelskan og heiður hreinn
hefir aldregi verið selt.
Dárliga þenkt! að drottni sè
dygdanna vinur leiður sá
sem alla menn er elskandi,
elskaður hverjum manni hjá,
góðri samvizku með í mund
sá mætrar öll ber heilsu-þíng,

þótt ei árliga þúsund pund
þessum gjaldist í ávinníng.
Ei skömm nè æra verða við
viss eiginliga bundin kjör;
það eitt er æra sönn í sið
nær sitt, er byrjar, gjörir hvör;
nær megin leggjum allt þar á
að iðka dygð og skyldurnar;
vanæra rèttnefnd víst er þá
verk að forsóma köllunar.
Með nokkrum mismun njóta menn
nú sinnar lukku veröld í:
einn baldýr-klæðum alþakinn
annarr karbættur gengur því.
Handverksmann svunta', en hempa síð
hylur og skreytir vígðan prest;
höfuðfat múnks er hetta víð,
hilmir kórónu prýddur sèst.
Hvar vitið mismun meiri þèr,
enn múnkahettu, að skíra frá,
og kórónu sem kóngur ber?
Minn kæri! glóp og hyggnum á:
meira sundurleitt með þeim er;
mismun hinn rètta lítum þar —
dárinn æ líkur sjálfum sèr
sèst, hverja stètt og nafn sem bar —.
Það yrði ljóst, ef hilmir hár
háttu sèr tæki múnkaskikks;
ef prestur, líkt sem lýður smár,
legðist í svall og óhóf drykks:

að viðhöfn, skart og skrúðlín björt
skjól ein eru, sem hylja mann,
en makligleikinn mann fær gjört,
manngauð er hvar sem vantar hann.
Alsett með titla raðirríkt,
riddarabönd og orðuteikn; —
af hylli fursta hlotnast slíkt
hunn-opt af þeirra lasta-feikn.
Þó hreinlífs blóðs hafi fram sèr fleytt
frá Lúkretíu[1] straumur klár
í gegnum samfellt lángtal, leidt
af Lúkretíum í þúsund ár.
En fyrst þèr yðar feðra prís
fast meinið tengdan yðar við,
þess skal eins, sem af þeim var vís
þar með dygðugur, við getið.
En sè yðvart hið aldna blóð
í ótèrligum runnið straum
þartil nú, síðan Nóa flóð,
narra-registur gegnum aum,
segið þá heldur yðar ætt
únga; látið ei heyra neinn
að sèr hafi svo lengi lædt
í legg þeim dáraskapur einn!

[1]) Lúkretía hèt kona Kollatínus, göfugs manns í Rómaborg; Sixtus Tarqvinius, sonur Tarqvinius konúngs hins drambláta, tók hana nauðnga til samlags við sig, en hún stakk sig á eptir með knífi, og leiddi af því, að Júníus Brútus og Kollatínus ráku konúng og alla ætt hans og vini burt úr Rómaborg, og var þar síðan fólkstjórn allt til daga Július Sesars og Oktavíanus.

Hvað skarn-þræl, narra, skelmskum hal
skapa kann aðals-mæti góð?
ei heilar ættar tallaust tal
til vinnst, ei gjörvallt Hóvarðs[1] blóð.
 Háfa tign þarnæst álit ótt!
inn: hvar tign háfa finnum vèr? —
"Hjá vöskum hetjum, vísri drótt
og valdstjórnendum", segið þèr.
Til sigurkappa' er sjást í dag,
síðan það Alexander var,
eitt hafa sinnis- allar -lag
og æðið sama kempurnar:
heipt og fjandskap að hafast að,
heipt og fjandskap að taka' í mót,
öll er lystisemd þeirra það,
þenkíng og sinnis innsta rót;
á höfuðið þeir fleygjast fram,
freistast þó síst til apturlits,
en aldrei lengra' enn nefið nam
náði fyrirsjón þeirra vits.
Ei minnur líkjast sjálfum sèr
svikulir stjórnar-vitríngar:
snuðra þeir eptir snapvísir
snöggt hverju minnsta við sem bar;
í óttaleysi mestu mitt
meintekið setja fólk í hapt
ei fyrir hugvit hærra sitt

[1]) *Howards* ætt var á dögum Pópa ein hin göfugasta á Englandi; af henni eru komnir greifarnir af Shrewsbury (frb. Srjúsberri).

heldur annarra minni krapt.
Krans að ávinna sigurs sèr,
svika- vel kunna leika -spil,
hreystiverk ekkert heita her,
hraki vill opt sú lukka til;
hátt þor með glópsku', og hugvit ört
háð klækjum, til að fremja þá,
að meiri skelmi manninn gjört
og miklu stærri narra fá.
Hverr sem ypparligs áforms til
ypparlig meðöl brúka vann,
og, gángi' honum það ei í vil,
allkátur fer í höpt og bann;
sem Árelíi[1] sè hans stjórn;
Sókrati líkur, hugar-rór
óvini missi fyrir í fórn
fjör sitt, hann er í sannleik stór.
Hátt nafn og víðfrægt — hvað er það?
hug er svo margra villa nam —:
líf brjósts annarligs innbirlað,
aldrei komið í vorn líkham.
Vèr fáum eitt, það heyrum, hrós,
hitt eyrum leynt, og um Ciceró,
ef fengjum það, oss líkt er ljós
og laungum jafnt oss nærri flô;[2]
allt hvað vèr fáum þekkt af því

[1]) *Marcus Aurelius* var einn hinn ágætasti keisari í Rómaborg.

[2]) þ. e., það hrós, sem vèr heyrum ekki; er oss ekki mætara enn það væri sagt um Ciceró. eða annann dauðan mann.

þar lyktar sem það tók upphaf:
hríng næsta litlum ummáls í
oss hatendum og vinum af.
Utan og kríngum afreksmann[1]
öllum tíð vorri þekktan á
verendum, meir er ei vert um hann
enn vorðin forðum Sesar ná.
Hverr helzt það var, það er þeim eitt,
eins hinn fyrri sem þessi hèr
vann forðum, eða vinnur, þreytt
vopna þíng, þeirra skemtanir.
Verðugleikinn sè vænn sem kann,
vèr ef ei kennsli berum á
manninn sjálfan sem hefir hann,
heita það dauður skuggi má.
Oddviti slæmur ekkert ber
af stafnum, þeim sem fær hann skreytt,
skarpt höfuð fullt af ódygð er,
ei sínum penna betra neitt.
Ráðvandur þarámóti mann,
sem mentun dygðar eptir fer,
göfugri skepna held'renn hann
af höndum guðs ei mynduð er.
Sjá! orðrómurinn níðíngs nafn
nemur frá töpun optsinnis,
einsog rètturinn úlfa tafn
af honum, frá að gista dys.

[1]) Skáldið meinar líkliga Evgen, hinn fræga herforíngja á þýzkalandi, eða þá Marlborough (frb. Marlborró), herforíngja Önnu Engladrottníngar.

Á háfan gálga þegar þrífst
og þaðan menn og dýr fær krenkt
er betur væri byrgt sem dýpst
og bezt að aldrei til sè þenkt.
Önnur tileinkast oss ei kann'
æra með rèttu' í verkalaun
enn sú, sem er bygð á sannleikann
og sjálfir unnum til í raun;
allt annað flýgur utanvið
eyrun þreytandi, mann um kríng,
en hjartað fær þó af þeim klið
ei hina minnstu tilfinníng.
Ein stund samvizku góðrar gaf
gagn yfir lángan vöku-draum
snjaður-hrósunar árum af
og alþýðunnar húrra-glaum.
Meira glaðværðar líf og ljós
landflótta Marsells[1] hjarta ber,
enn sjálfur, mitt við sigurhrós,
Sesar, með ráðið eptir sèr.
Sinnisgáfur og vizku við
vera hver mundi gagnsemd fest?
hvarí fólgið sè hugvitið
hermi, vinur, sem það kennir bezt! —

[1]) *Marcus Claudius Marcellus* var fimmsinnum ræðismaður í Rómaborg meðan hið annað púniska strið stóð yfir; hann veitti og Hannibali einna mesta mótstöðu á Ítalíu, og var hinn mesti kappi og valmenni. Rómverjar kölluðu hann "sverð" sitt, en *Fabius cunctator* "skjöld" sinn.

Þarí: annarra bresti brátt
og brot sín eigin þekkt að fá,
að þekkja hve vèr þekkjum fátt
og þekkíng vor kann skammt að ná.
Dæmdir íþróttir djúpar við
og döpur störf til mæðu-kífs;
í þarfir heims, sem þræla lið
þvíngað að offra dögum lífs,
en samt þeim lèttir ei að ná
að aðrir með oss þoli strít,
nè huggast við, að nokkrum hjá
nenníng vor finni rètt álit.
Ef lands og fólks oss lystir þrár
að leysa', og kenna sannleikann
skelfast allir, en skilur fár;
skír mèr, hverr hjálpar þarí ann?
Vesælt ágæti! að vita' og sjá:
að veikleik æðri þessa lífs
erum vèr lángt, og einnig, já,
yndæli þess og linun kífs.

Lát allar gáfur þessar þá
þyrpast í eina summu brátt!
reikna svo glöggt og rètt sem má,
reyn, hvað alltsaman stígur hátt:
hve mikið einni mínka her
mælíng svo náist hinna fyllt;
hve mörg frá rótum upptæk er
annarra þú ef njóta villt;
hvað opt þeim fylgir missir með
mæta, sem eru stærri þó;

hve þar sezt tíðum við í veð
vort líf, en alltíð hugarró.
Þenk til (slikt enn ef þráir nú)
þínu hve geði mundi vart
ef í röð kæmist þeirra þú
er þvílíkt hreppa tignarskart.
Ef kránkt þú hefir sinni svo,
að syrgir orðu vegna' og bands,
Billý og Úmbra [1], tigna tvo,
teikn þau hugleið hve prýddu stands.
Ef hismi gullligt hefir þú
hæst fyrir yndi' og lífsfagnað;
álít, hve Grípus [2] og hans frú
eru farsældarrík við það.
Ef æskir vizku' að öðlast nægð,
álít Bakon [3] hágáfaðan,

---

[1]) Billý og Úmbra eru án efa uppgjörðarnöfn, sem benda til einhverra tveggja alkunnra aðalsmanna á þeim dögum, er verið hafa stètt sinni og tign til svívirðingar.

[2]) Grípus er einnig án efa sett til að tákna einhvern alkunnan mann, sem hefir haft auðinn fyrir guð.

[3]) Frants Bakon af Verúlam (1560—1624) var stór-kanselleri á Englandi, og einhverr fjölhæfasti og skarpasti maður sem verið hefir; einkum hefir heimsspeki og náttúrukraptafræði *(Physik)* honum mikið að þakka. Bók hans "de dignitate et augmento scientiarum" (um göfugleik og framför vísindanna) kenndi mönnum að skipta vísindunum í flokka og afmarka hverjum flokki rètt takmörk, en sýndi jafnframt, hversu mikill hverr flokkur væri umfángs og hverr vegur væri beinastur til að koma honum út á þau takmörk, sem honum voru

manna helztan að ment og frægð
og manna líka breiskastan.
Hafi stórs nafns og stöðugs girnd
stjórntaum sál þína lagðan á,
sjá Kromvel[1] dæmdan; sízt mun fyrnd
setja nafn hans í gleymsku-skrá.
Þín æru-græðgi' ef gáfur þær
girnist safnaðar fá í eitt,
af fornra sagna fræði lær
forakt að láta slíku veitt.
Á stórum, tignum þú kanut þar,
þjóðmærum, göfgum, auðugum
enn logna stiga lukkunnar
til lærdóms rètt að skygnast um.

---

afmörkuð. Bakon var, eins og skáldið segir, manna skarpastur, lærðastur, frægastur, tignastur, en jafnframt manna breiskastur. Örlæti hans gjörði hann nær því að ölmusumanni á ellidögum hans; hann skrifaði þá til Jakobs konúngs (ens fyrsta) og beiddi hann styrks, "því annars er eg hræddur um", sagði hann, "að eg verði að fara að læra til að lifa, en eg hefi viljað lifa til að læra". Skömmu síðar andaðist hann.

[1]) Olíver Kromvell var forgángsmaður að steypa Karli enum fyrsta frá ríki og lífi (1549), síðan var hann verndari *(Protector)* Englands um 5 ár, og andaðist um haustið 1659; hann styrkti stórum grundvöll þann, sem Elizabet drottníng hafði lagt til veldis Breta, og frá hans tíma mega Bretar telja veldi sitt á veraldarhöfunum. Kromvell hefir verið einn hinn merkiligasti, slúngnasti og kraptmesti harðstjóri, sem kunnugur er í veraldarsögunni.

þeir, sem hástigi' að heiðrast því
heppnast, er margur sízt á flaug
við kóng eða drottníng kærleik í
að komast, til að ginna þaug.
Merk, hve hrakliga fóru fram
frumspor, er þessi dýrð var kveikt,
eins og Venedig er á damm
af sorpi, skarni' og þángi hreykt.
Löstur og metorð leiddust hèr,
launsvik og æra fylgdust að,
allt hvað maðurinn sökk frá sèr
sama stórmennið óx við það.
Lít á bust þeirra látinn kraus
með lárber Norðurálfunnar!
en illa keyptur, margs eða manns
makaður sá í blóði var.
Sjá! þeim nú drekkt í ljótri lyst
nú lesta-þýngslum erviðis,
nýt æra sakir nú er mist
níðíngskapar og ofríkis.
Ó! vesæl kjör, sem hátign hlaut
hana fær nafn og mannorðs lán
ei styrkta ljóss við stöðugt skraut,
nè studda loksins undan smán.
Nær ellin fellur yfir meir,
auðna hvað stærri krýnir þá?
sjá! hvað aumliga þrávallt þeir
þá leiðast blindir til og frá
af gírugs vildarmennis mund
og maka stoltum jafnframt því,

er títt þeim gjöra tæpan blund
tignarglis fyrir og huldu-ský.
Æ! látið yður ei blindu-böls
birtu fá þessa glæru-skins,
raka morguns og rökkur kvölds
reiknið við ljóma middagsins!
Svo skal reynast að sunnan öll
af sagðri frægð ei meir er neitt
enn æfintýr, í skömm og sköll
er skjótt fær þeirra hrósi breytt.

VII. Meðkenn sannindi þessi þá
(það nægir slíkt ef skynjum vèr):
að dygðin ein kann fólki fá
farsældar; það í raun sem er:
að sèrhvað gott í sannleik, það
sem manni kann að falla' í vil,
í dygð, sèr helgum samastað
safnast loksins hvað annars til.
Hreinan sætleik án minnsta meins
í manndygð smökkum beyskjulaust
henni verðskuldan hjá að eins
hefir æ jafnan laun sín traust,
og hvort þau veitir, eða fær
auðguð með hárri blessun jamt,
lífs þar í stærstu lukku nær
líf að ástunda dygðasamt.
Nær öðlast hún það æskir sèr
yfirtaks gleði fær af því
og slíku þegar útaf ber

ánægð lifir og sorga-frí.
Hversu sem lukkan henni' er blíð
hún kennir aldrei leiða neins;
veit líka, þá hún verður stríð,
að virða sèr fyrir geðfelt eins.
Örvita þegar heimskan hlær
hlaupandi blind og ofsa-kát,
aldrei af hjarta' er eins glaðvær
og dygðin, mitt í sínum grát;
í hvívetna' og á hverjum stig
hvatsýn, þá tegund sem er góð
uppgötvar hún, og æfir sig,
óslítanliga þolinmóð;
þótt nokkra sjái neðar sèr
nauðþrykkta menn, ei drambar hún;
nè, þótt í meiri hinir hèr
hávegum sitji, daprar brún.
Þrá nein og laungun þar ei rís
sem þarfar engrar kennir mann,
því sá er manndygð meiri kýs
mestan ábata þarvið fann.

Sjá! það er farsæld sú, er' ein
síðast gjörvallrar eptir var:
að unnti drottins elska hrein
öllum mönnum til hlutdeildar.
Tilfinníng eina þar til þarf
þægan hennar að reyna smekk,
og þeim að eins ei þánki hvarf
þekkt sá og litið hana fèkk;
en vondum þó, er vit með sitt

og virta-lærdóm blindir sjást,
og snauðir gulls- í -múgum mitt
en minnsta gleði hèraf brást; —
þeim er hún bönnuð, þarámót
þelfrómur hana ratar hægt,
án lærdóms vís í rèttri rót,
og ríkdóms án sá alls ber nægt.
Hvorki blindur með bönd ófrjáls
boðun annarra' og trú hvað er
trúir hann, nè að sinni sjálfs
og sèrvizkunnar grillum fer;
heldur gjörvallan gegnum heim,
til gjörvalls herra, litið fær,
og festargángi fylgir þeim,
framyfir takmörk öll sem nær!
sem parta, veröld öll er á,
í eitt nákvæmla bindur senn,
sem grund við himin glæstan, já
guð, anda, tengir saman við menn.
Hann sèr, að farsæld engin er
á nokkri skepnu finnanlig,
hverrar lán ei í fèlag fer
og fleirum lukku gjörir sig.
Þessa, náttúran öll sem ann,
einíngarbands, hann fræðir mál,
um mið hið rètta' og markstein þann
manns fyrst og efst skal stunda sál.
Hann veit, öll trú og lýða lög,
lífs reglur allar, byrjast þar
og endast, sem er einlæg mjög

elska til guðs og mannþjóðar;
von, sem ókomin vilkjör þreyr,
verður hans einka leiðtogi,
opnar, hressir æ meir og meir,
mannsins uppljómar geðsmuni;
uns trú og vonin, tengdar samt,
takmarkalausar, honum fá
lángt hærri sælu' enn heimsins skamt,
hans er inntekur sálu þá.
Vel fræddur hann þá veit, sem ber
að virða náttúru-gáfurnar;
hann sèr þá líka, hvarfyrir
hjá oss einasta plöntuð var
von eptir góðu, veitt sem oss
vitund er um, meðan lifum hèr,
og trú um gott, það geymda hnoss,
sem getum nú ei fundið vèr.
Náttúran engri tegund tèr
tilfýsn þá meðal dýra-kyns,
sem fyllíngar ei auðið er
nè eptirlaungun forgefins;
munu þá verða tómt eitt tál
trú og von mannsins eins á stíg?
mun vor þá hljóta' að vona sál
í vind, og trúa fyrir gýg? —
Nei, vísliga' hefir niður lagt
náttúran gáfu þá hjá oss;
þarí er dygðar meður makt
mestu vort bezta sælu-hnoss:
lyst, öðrum gott að láta' í tè

lagin við gagn oss sjálfa skeð,
svo lukku vorrar leitandi
leitum annarra vèr og með.
Guðs, náúngans og eigin ást
eitt hafa band ámilli sín,
svo, skuli sjálfs þíns nytsemd nást,
náúnga þinn með elsku krýn;
og ef þitt há-prútt hjarta þel
hèr finnur veg sèr oflítin,
gakk lengra fram, og gjörðu vel
af góðum hug við óvin þinn.
Allt lifanda, sem á berst mynd,
allt hvað fær til merkt, skynjað, meint,
í þinni góðvild innibind!
já, alla veröldina hreint.
Þín lukka, gæzku þinni með,
þróast að jöfnu' og eykur sig;
kærleikur stærsti' er gistir geð
gjörir farsældar hæsta stig.
Guð elskar heimsins heila stærð
og heimsins alla parta jamt;
hans gæzka niður frá heilu hrærð
til hlutar sèrhvers nær jafnframt.
Miðast upp þarámóti skal
maðurinn seinn, frá einstakri
veru þess heila til, ótal
um tröppur fram í elskunni.
Sjálfselskan partil er að eins,
að eggja dygðugt sinni fram,
líkt sem af kasti lítils steins

lygnt bif sjáfarins ýfast nam:
fyrst við miðpúnti hrærir hann,
hríngar útbreiddir fara' af stað,
hvatir þeir reka hverr annann,
hvíldarlaus eltíng verður það.
Eins án viðstöðu, vítt og breitt,
vor kærleiks-lögur útdreifist:
vinur, ættíngi, granni greitt
greinarrúm sèr þar hitta fyrst;
fæðíngarstað og ættjörð enn
yfir breiðir hann sig þar næst,
og að síðustu alla menn
inn fær í góðum þela læst;
já, ástrík lund vill engin höpt
og engar skorður kannast við:
sèrhverrar veru sem er sköpt
seilist til gæzku-flóðmeguið.
Öll jörð mót henni brosir blítt
með blessun gædd, sem hvergi þver,
hennar bílæti harla frítt
himin geymir í brjósti sèr.

Ó! kom þá, vin! er auðgað með
andagipt hefir skáld og brag;
kom! meðan saungur, sá eg kveð
sundurleitt næsta róms við lag,
lægstu hræríngum ýmist að,
um æfi manns er koma' í hug,
ýmist á háfan stefnu-stað
storðbúa veru, deilir flug.

Kenn mèr að hafa vareygð við
vinur! í öllu, svosem þú,
að lækka mig með sæmum sið
síðan í máta' að hefjast nú:
að eg, lagaður eptir þèr
umgengni við, fái rètt og hent
frá straungu til ens frjálsa mèr,
frá leik til alvörunnar, vent.
Uppvakið sè og andríkt geð,
ei þó röksemdir forsómi,
þvíngunarlausri málsnild með,
mjög nett, skilríkt og pressandi,
ríkt af skilníngi, rèttsýnan
að reisa dóm um sèrhvað eitt,
ríkt af prýði, sem kæta kann
og kærleik fólks fær yfir sig leidt.
Ó! nær þitt flýgur útbreitt nafn
endilaungum með tímans straum,
fullt með þitt hrós og sæmdarsafn
svo lángt jörð heyrir mannaglaum;
mun, ljúfi vin! minn litli knör
loksins fá nokkurn hlut, eg spyr,
þíns sigurhróss- í fagri -för?
færður af enum sama byr.
Nær foldu geymast fúnir í
furstar, hetjur og valdstjórar, —
hverra börn munu blygðast því
beisk lund feðranna til þín var, —
mun óður minn þá uppi hèr
eptirkomendum skíra frá:

að verið hafir, vinur! mèr
vísdómsmeistari' og leiðsögu há?
að getað hafi' eg gammaspil,
geðhvattur af þèr, borið um
frá hljóm eintómum bluta til,
að hjarta' og sál frá grillunum.
Yfirskyn vits fyrir óskilfædt
eg, ljós náttúru tendrandi,
hugar-dramb þarum hefi frædt:
*Hvað helzt sem til er, gott að sè;*
á sama mið að setji för
sjálf skynsemin og tilhneigíng;
að sjálfs- og fèlags -elskan ör
eitt sèu vorum lífs í hríng;
að megni' ei nema manndygð ein
mönnum að veita lukku-hnoss;
að sönn vor þekkíng sè ei nein
sjálfa nema vèr þekkjum oss.

## ÁGRIP ÆFISÖGU KRISTJÁNS TÚLLÍNS.

Kristján Braunmann Túllín var fæddur 6ta Sept. 1728 í Kristíaníu í Noregi. Faðir hans var kaupmaður og hèt Guðbrandur Hansen, en móðir hans Ragnhildur Dehli. Um æskuár Túllíns vita menn fátt að segja, og ekkert það í frásögu sè færanda fyrrenn hann var farinn að læra barnalærdóm sinn og var yfirheyrður af presti. Prestur sá tók eptir sèrligum skarpleik hjá honum, og hvatti foreldra hans að setja hann til bóknáms og varð það framgengt; var honum fyrst fengin tilsögn heima í foreldra húsum, en síðan komst hann í latínuskóla í Kristíaníu, og var útskrifaður þaðan á 17da árinu, 1745. Þá fór hann til háskólans í Kaupmannahöfn, og leysti af hendi á enu fyrsta ári tvö "Examína", einsog venjuligt er, í málfræði- og heimspeki, með *ágætum* lofstír; á því ári lærði hann þaraðauki frakkneska og þjóðverska túngu, og fèkk nokkurn smekk á saungleik og uppdráttarlist *(teikníng)*; var hann laginn á það hvorttveggja. Árinu eptir varði hann svo, að hann kom sèr fyrir hjá presti nokkrum lærðum og valinkunnum á Sjálandi, og stundaði undir leiðsögn hans guðfræði og prèdikunarlist; tók hann á sama ári embættis examen, og fèkk bezta orðstír bæði fyrir þekkíngu og prèdikun. 1748 fór hann frá háskólanum, og ætlaði sèr þá að verða prestur að ósk foreldra sinna og margra annarra, prèdikaði hann stundum og þótti segjast vel. En fyrir því að brjóst hans var óhraust gaf hann frá sèr en prestligu störf og tók að stunda lögfræði; en jafnframt lagði hann mikla alúð á en fögru vísindi, og lærði ensku og ítölsku; las hann og á fáum árum en beztu rit sem þá voru til á báðum málum. Þá orti hann og nokkur smákvæði

og þóttu þau mjög ágæt, því þá var ekki um mörg þjóðskáld að velja í Noregi; en helztu af þessum kvæðum voru: "hugleiðíngar um hið eptirkomanda", og "sorgar þánkar um dauðans makt gegn dygðinni".

Mest fannst mönnum samt um brúðkaupskvæði hans til vinar síns Leuchs, sem hann kallaði "sjötta Maídag", var það prentað 1758 í Kaupmannahöfn móti vilja og vitund höfundarins, og rann út meðal Dana; eins var um kvæði hans sem prentuð voru 1760. 1764 orti hann "Sæför"; er það lofdrápa til Friðreks ens fimta fyrir umhyggju hans fyrir verzlun og kaupferðum; kvæði þetta orti hann eptir tilboði Fèlags enna fögru vísinda í Kaupmannahöfn, og vann fyrir það fèlagsins stærsta verðlaunapening. Annann vann hann fyrir kvæði "um sköpunarverkið".

Hann átti verksmiðju nokkra, sem hann hafði tekið við af tengdaföður sínum, og vann hann sèr á stuttum tíma ekki litin lofstír fyrir dugnað og framkvæmdir til almennra þarfa, svo hann varð tilsjónarmaður um tollinn við Akurshús (Kristíaníu), og 1760 setti konúngur hann til auka-ráðamanns (*Vice-Raadmand*) í Kristíaníu; 1733 varð hann virkiligur ráðamaður, og um leið tilsjónarmaður um mælira og vogir. 1765 mundi hann hafa orðið tollheimtustjórnari (*Tolddirektör*), en hann andaðist 21 Janúar þetta ár á bezta aldri.

Túllin var almennt virtur og elskaður, bæði fyrir skyldurækt, framkvæmdarsemi, góðmennsku og föðurlandsást; það er auðsèð á kvæðum hans, að hann hefir viljað vekja eptirtekt manna a fegurð náttúrunnar, og sýna hègóma veraldar þessarar og hennar spjátrúnga. Skáldskapar-smekkur hans er lagaður eptir enum beztu skáldum sem þá voru þekkt, og það er almennt viðurkennt, að Túllin hafi verið einn af þeim sem vakti betra skáldskapar-smekk meðal Dana og Norðmanna enn verið hafði fyrir hans daga.

## SJÖTTI MAÍDAGUR,
*brúðkaupskvæði til M. Leuchs og Jómfrúr M. Collets.*

Kvæði þetta er prentað i Hrappsey á dönsku og íslenzku fyrst 1774 og í annað sinn 1783 einúngis á íslenzku; báðar útgáfur þessar eru hèr hagnýttar.

Minn andi! kom, og flýjum fljótt
burt úr fángelsi þánka þessu,
hvar þjökuð hvern dag ósk í pressu
fæðist og burtdeyr aptur ótt;
hvar list og vit er allt þar í:
ángurs að hitta leið þá styttstu;
hvar auður sveltur eptir því,
í erfíngjans að fúna kistu.

Hvar rètturinn er kotru-kast,
keyptir hræsnarar öllu játa,
fyrir dúkata dygðir láta;
hvar fátækt stærsta liður last;
hvar auðlegð dárum æru fèkk,
eðalheit, snild og nafn hygginda;
hvar sinnis ró úr garði gekk,
græðgin ánægju burt nam hrinda.

Hvar sólin morgun-prýði og prakt
á hvörmum skína luktum lætur,

hvar lángt framyfir miðjar nætur
sturlan og ánauð standa vakt;
einn narrinn hvar að öðrum hlær;
annarra feil sá dóm á kastar
er sjálfur títt, það vitum vær,
verri fantur enn sá hann lastar.

Hvar loflig vizka laut ógyld
þeim lögum, sem af dárum stiptast;
hvar einn má lifa, elska, giptast
ei að sjálfs, heldur móðsins, vild;
hvar ok er vellyst, eitrað borð,
ádrykkju-kveðjan heilsu spillir;
hvar heitin eru eintóm orð,
ágætis hól til lasta villir.

Hvar æ er töpun æru vís,
einfeldni kænskan hart út leikur;
hvar guðhræðslan er reiknuð reykur,
ræg-kallinn alþýðunnar hrís;
hvar sá, vegsemdar hæst á topp
hafinn verður, í saur þó lægi,
er lotníng sýna kann þeim kropp,
hann kýs í raun að stegldan sæi.

Hvar lempni öll of lítil er,
við refa, tígres, ljón að lynda,
sem lökust eru slíkra' ókynda,
þar veittust meiri vitsmunir.
Hvar, — ó minn andi! vörumst vel
vo-mein þau er í lopti sveima!
hvar: "þögull heyr! þig hræddur tel!"
hollast er þeim sinn frið vill geyma.

Finnum þann stað hvar frelsi býr!
hvar sorg konst-rík og sjálfgjörð plága
sízt gjöra lífstíð okkar bága,
en grær við' armóð gleðin hýr;
hvar útrás kunnum frjálsa fá
fjötruðum þánka', er laungum sefur
og vín það drekka' í náðum ná,
náttúran sjálf sem birlað hefur.

Málefni slíkt einn Maí-dag
í þánka flaug; eg þegi tafði,
þángað gekk strax, hvar Flóra [1] hafði
blómstur-sæng tilreitt holdi' í hag.
Eg lagðist þar á einum hól,
af unun fánginn, stans og kæti,
afmarkað þegar yfir stræti
áköf brunaði hvarma sól.

Ó guð! hvað margfalt yndi bar
að augum, nösum, öllum vitum?
ný veröld, blómguð nýjum litum,
ný sýndist Eden þar og þar;
um andfar hreinsað ambra [2] flaut
þá vestanblærinn vængi hrærði,
ilmanin þaraf unun hlaut,
andartak sèrhvert balsam færði.

Eg sá, fullur af undrun, vænt
land, sem náttúran litum skrýddi,
lögun kringlótt það stórum prýddi,

[1]) *Flóra*, blómsturgyðjan.
[2]) reykelsisilmur.

bar hvort af öðru, blátt og grænt.
Heila krínglan var yfir allt
umgirt með hvelfíng fagur-blárri!
niður í haf er náði salt,
nokkurn part stóð á fjallsbrún hárri.

Lystiligt Ránar veldi vítt
forundrun vekja nýja náði,
numinn frá mèr eg einkis gáði,
horfandi' á leikspil furðu frítt:
að geislar sólar, einsog sker
í speiglum þúsund, sprúngnir stukku
um bylgjurnar, sem biltu sèr
og buldrandi' inn á strandir hrukku.

Frá lægi dúkur lagður var
glansandi, merktur grænum fágum,
með gulum skjöldum, rauðum, bláum;
ársins sá morgun-búnað bar.
Nýfæddur plantna vísir vænn
af varma sólar lífgun þáði,
krans þær að ofan krýndi grænn,
komandi blómstur teikna náði.

Gegnt var eitt fjall, hvers geysi stærð
gjörði víðsýnt þeim á því stóðu,
þess rætur djúpan ægi óðu,
efstu brún huldu skýin særð;
sem öðrum heim því afskipt var,
af aur og marmara samankreystu,
hèr og hvar göptu gjóturnar,
hvar geislar sólar fannir leystu.

Greni-trè hæst á gnýpu stóð,
tilsýndar einsog turn þar settur,
toppurinn mjór og vel upprèttur,
starði með furðu' á stjörnu-slóð,
þess rót, geymandi balsam bezt,
bjó þar innan svo sterkra skansa,
að frosts og kulda feyknin mest
flúðu, því bar hún sigur-kransa.

Orm-bognum hafði djúpum dal,
náttúran varpað fjalls að fótum,
hvar fjöld' af ný-útsprúngnum rótum
bygðu þvílíkt sem blómstur-sal.
Hvískrandi lækur einn þar í
með eikum girtan farveg risti,
sem nú var íss af fjötrum frí,
fèkk því ei skundað sem hann lysti.

Glaðværr í ástar önnum þar
af bogfínkum, sisíkum, svölum,
skógþröstum, Norvegs næturgölum,
flokkur mikill á flögti var,
kynferði sèrhvert kyrja fór
kvak, blístur, saung að eðlis dómi,
með einum tón, sem annarr kór,
aðgreindi sig frá hinna rómi.

Saunglistar mitt í sætum klið
hvorr annann kystu kærleikshótum;
kváðu, þó undir sínum nótum:
*sjá hve við elskumst, vi-vi-við.*
Hverr maka valið hafði sèr,
hvert par var fyrir sig alleina,

en til laufgaðra eikar-greina
voru jafnt allir velkomnir.
"Farsæll! já, mikið farsæll her!
hvern sjálfgjörð engin sorg skal mæða,
en sætra nýtur ástargæða
af því náttúran nægir þèr;
þú útvelur þann elskast skal,
og elskast fyrir það þú velur,
þar mannvits affekt[1] margopt selur,
grip þann sem eintómt vinnur val."
Um fugla slíkt eg þenkti þá,
sem prýddu vorið ástar yndi;
en ný forundran mig í skyndi
á fèll, þar heyló eina sá;
sú, nær upp flögti, sýngja rèð
sitt *dirlirlílí* velklíngjandi,
og yfir huldum únga beð
elsku- sárheita -vængi þandi.
Sú raddar yða streymdi straung
í lopt og eyru að sama sinni;
sál hvað mannliga hræra kynni,
það fann eg allt í þessum saung.
Þar var umhverfis þögn eintóm,
því lík nær feikna raust við kveður;
dillandi smáfugls heyrði hljóm
hugskot, forundrun djúpri meður.
Hvað yndisliga', án ómaks þó,
þrá-sneri túngu, þrykkti, lypti,

[1]) tilgerð.

í þraungum barka liðugt skipti
hljóm þeim, er ákaft hlustir sló;
meðfæddri samdi lag af list,
lækkaði, skerpti, herti, mýkti;
samhljóðun stillti, samt ýmist
saung einsog pípa, hrein og skríkti.

Mèr virtist öllum mentar vant,
þá smáfugl heyrði þennan eina;
þora hverr mundi saung að reyna
mót þessum fædda músíkant? —
"Hjartans danspípu dillarinn!
dáð þig hverr sæmdi kveðskaparins?"
hrópaði jeg; en hamarinn
hinsvegar svara rèð: "Skaparinn!"

Upptendruð helgum eldi nú
önd mín tók flug, og vildi stefna
upp til — hvað skal eg nafn þitt nefna? —
nafnlausa vera! Stóri Þú! —
Yfir sjóndeildar- hóf sig -hríng,
hvar guðdóms kraptur allt umspennti,
og hverr-einn púnktur hann umkríng
hrópaði: "Guð!" og til hans benti.

"Óskapti Faðir, vægur, vís!
hvers elska takmörk hefir ekki,
hverju skilníngar-, þig svo þekki,
plantaðir -viti Paradís!
Þú, sem ert allt, og allt í þèr,
allstaðar gætir spora þinna;
hvers veru skugga auðvelt er
á allra minnsta hlut að finna!

Þú lætur sumar, hret og haust
herradóm þinn og tign fram bera;
ó Guð! hvað skal þá vorið vera?
víst er það, Faðir! íðil raust,
sem fyrir daufum dára hèr
með ótal túngum um þig glósar,
og ný-sköpuðum hlutum hrósar,
sem herma vald þitt gjörvallir.

Árstíð hvað líkust er þèr sú:
allt skapar, lífgar, prýði vefur,
heldur við; nærir, heilsu gefur,
hún er að mestu sjálfur þú!
hvað naumrar gleði nýtur hinn,
er nótt og dag innan luktra múra,
þá náttúran blóma sýnir sinn,
sorgandi má og hræddur lúra.

Þú leiðir allt til lífgunar
með nýrri verkun maktar þinnar,
má enn hver skepna sjá og finna,
hversu kröptugt þitt *verði* var.
Skal þá sú ein, er skærast ber
skynsemdar ljós, og sálu vitra,
ei vikna, nær þinn almátt sèr,
og hann forsmá? — minn Guð! eg titra.

Eg kafa botnlaust hafsdjúp hèr,
háleitra meðal vors nýlunda;
önd mín fær sèð, en ei útgrundað,
yndis-spil það er sýndir mèr.
Þín bendíng lauf og blómstur smá
burthjöðnuð kann af ösku vekja;

hví skyldi manns ei holdi þá
hönd þín af jörð á ný útklekja?
Eg sè: það skepnan öll þèr að,
sem einka gjafara, sjónum vendir,
mun þá skuld engin mèr á hendi,
sem meiru enn þeim er út hlutað? —
Jú! sál og hugar megn í mèr
að makt og elsku þinni gáir;
heimurinn þeim til einkis er
sem umgengst hann, en þig forsmáir."
Mitt í rósemdar þaunkum þeim,
er þögn yndælli sinnið reyrðu,
mèr brá við snöggt, þar hlustir heyrðu
hljóð frá nálægum skógar geym:

MENALKAS:[1]

Velkomið vor yndælt!
vex nú mitt gengi sælt,
með prakt og yndis art,
ágætt ber Maí-skart.
Ó! hvílíkt líf og lyst
ljúfan fær huga gist!
heims þótt að hvirfi bygð
harm fengi' eg ei nè stygð;
fró mín nú fann sitt mið
faðm Melicindu[2] við.

---

[1]) Þannig kallar Túllín vin sinn Leuch; það er hirðis nafn, tekið úr Þeókrít og Virgil.

[2]) Þannig nefnir Túllín brúði vinar síns; það er hjarðmeyjar nafn.

Vel þá, minn andi! viltu braut
vináttu- kasta -skyldu dýrri?
Það var Menalkas, hèr sem hýrri
hljóðbogans ör frá skógi skaut.
Skaut-búi minn! þá skunda hress,
að skála fjármanns, þeim eg unni,
með þessi fáein vinar vers,
af vor-feng hans sem gleðjast kunni.

---

## TIL MENALKAS.

Vin farsæll vel!
vin sómir helzt að köllum
þann, vinar þel
þakknæmast sýnir öllum,
og hegðun í
allt viður mannligt kyn,
við mig, við hvern,
vinar tæmir auðkenni
öll ástar-gjörn;
ítreka því eg nenni:
vel farsæll vin!

Minn, láttu leyft,
ljóð-andi vængjum sínum
hraðfleygur hreift
að húsum fái þínum,
hvar uppfylld ósk
al-blómgar sinnureit,
hvar allir æ
andar vellystar búa,

og blíðu blæ
uppblásin ástin trúa
hug vermir heit.
  Leyf, þessi þá
þèr megi fregn tilkynna:
að sami sá,
sem nú er gæfu þinnar
ve-dagur dýr,
og dávænn uppruni,
víst hverjum ver[1],
vel sem þinn kynnist hagur,
en mest þó mèr,
mjög yndæll gleðidagur
sannliga sè.
  Sá túlkur trú
talið eg vil þèr gæti:
að svipstund sú
sál færði ljúfa kæti,
nær fregnin fyrst
fræddi þig á þeim kvitt:
að hefðir þú,
heitu fyllt ástar-yndi,
ný-þegið nú,
negg[2] fagrar Milicindæ;
hún þegið þitt.
  Því pareð er
þess dygðin verð, að unni
láns henni hver,

[1]) *hverjum ver*, hverjum manni.
[2]) *negg*, hjarta.

hvað framar gleðja kunni
gott vinar geð,
gæða sem dygðar sið
engra misann,
en það hann kvenn-val sjái
fá mannvals-mann,
og manndygð tengjast nái
dygð dýra við?

Vel-eðla vin!
vit að þeim stýrir penna
huglyst ólin,
sem letrar: "þú ert hennar
verðugur víst,
verð er hún líka þín."
Sú falsi föl
fjöður skal aldrei heita,
eg votta völ
víst hef: að eins á teita
lít bauga lín!

Heim heilan, já,
hèrum og vitna láttu,
fús frètta þá
frjálsliga síðan máttu:
Guð meður mey
meira hvað gefið fær
brúðguma bæn?
hve blítt sèr að þèr hallar
vitur og væn,
valinkunn handar-mjallar
mjög auðug mær.

Og hverr mun, hjá
hug-blíðra stúlkna-kinda
nokkurri, ná
nýta sèr dygð ímynda,
sem þessi þèr
þín fær ei brúður tèð,
skynsöm og skær,
skínandi' í hæstum blóma,
svo mangi mær,
er meiri bæri sóma,
fèkk fyrri sèð.
Hvað meira má
málefni slíkt um inna?
hvað helzt sem hjá
henni þú kannt að finna
sèrhverjum af,
í þínu fari finnst:
að — einu í
orði — sèrt líkur henni;
hugprýðin hlý
hverr einn því veit að spenni
brjóst-eplið innst.
Að epli slíkt
ávinni dygð og sveigi,
sem ræktar-ríkt
reynist, en bregzt aldregi
hvern virða við,
já víst ósjaldan þá
menn, hverjir minnst
makligir góðs þó voru,

góðfýsi finnst
fyllt, og örlæti stóru
sem mest að má.
Hverr þenkir þá,
þvílíkt ei beri hjarta
skyn umbun á
og ást himinsins bjarta,
nær mannkost með
makligu launar þinn?
jú víst, jú víst!
jeg veit, þú auðar hildi
því líkur lízt,
legunaut sem hún vildi
sjálf kjósa sinn.
Þig finnur frú
faðm-búa' og ástvin slíkan
sem trygð og trú
tengir við kærleik ríkan.
Nú! það er nóg,
nú glöddust hæðirnar;
nú skundar skjót
af skauti forlaganna,
með hýrlig hót,
hamíngja og lukkan sanna
þess varð eg var.
Ofan, sem ör
umkríngd blessana skara,
hún flýtti för,
fannst það ei lengi vara,
dýrmætu rètt

því augabragði á,
nær *heiti heit*
og hvert *já* öðru mætti,
sú fagra sveit
síðan ferð ykkur bætti
brúðhjónum hjá.

## 2. HUGLEIÐÍNGAR
um
## HIÐ EPTIRKOMANDA.

Kvæði þetta er prentað í Hrappsey á dönsku og íslenzku 1774 og í annað sinn 1783 einúngis á íslenzku; báðar útgáfur þessar eru hèr hagnýttar.

*Lag: Sólin til fjalla fljótt.*

Eg sökk og æfi lyk!
æ! hvar það lenda skal?
ó sýn! ó augnablik!
á þetta' að slútta tal?
dómari! dauðligt mál!
dæmdur! — ó! sæi' eg nú
griða stað góðan sál!
Guð minn! æ frelsa þú!
Við svoddan andvörp aum
eg værðar leysti bönd
í nótt, af döprum draum
dauðskelfdur, hverr eð önd

úr þánka elti fró;
ofhoðsligt spil að sjá! —
ó svefn! hvort áttu ró
einasta kroppnum ljá?

Í svip eg þóttist þá,
þúngri með leiðslu makt
völl kominn víðan á,
var þar allt kyrrt og spakt;
heims-kringlan heil, að sjá,
sem hels-bróður-inni var,
skepnan hver augum á
uggleysið teiknað bar.

Eg leit í alla átt,
einn mig þar standa sá,
himinsins heiði hlátt
horfði stansfullur á;
fásèðan glansa gaf
glóandi stjörnu-her,
líkt glampa ljósi af
nær loginn slokna fer.

Önd mín af ofurhug,
upp, niður flögti glöð,
búin að fara' á flug
í fagra stjörnu röð;
með andvarps skyldu-skatt
skaparans þráði fund;
en í ómeginn datt;
ó, dapra hrygðar-stund!

Formyrkvuð svo í senn
sást stjarna hver og ein,

sem forðum, áður enn
úr myrkri ljósið skein;
loptið í loga stóð,
laust eldi þruman hörð;
ótta það olli þjóð
allri, sem býr á jörð.

Sem öllu um var bilt
af eldi, stormi, þrá,
básúna böli fyllt
beljaði hæðum á.
Veraldar strax um storð
stríð glumdi þrumuraust,
hvert, síðan Alvalds orð
allt skóp, er dæmalaust.

Værð mönnum var ei leyfð,
vakna hver skepna nam,
hver ögn, af dupti dreifð,
drógst til og varð að ham;
hvorki lopt, haf nè fold,
hel eður grafar leir,
minnsta bein, hár nè hold
hylja nú þorðu meir.

Síðan strax sýndist mèr:
sálna mergð flaug þar að,
sitt forna hitti hver
heimili ný-smíðað.
Sál og hold sömdu þá
svo trúa foreining,
sem fall eða' uppreisn á,
eitt skyldu sækja þíng.

Afsprengi Adams sèr
í einn stað safna lèt,
þræl einvalds-herra hèr
um hálsinn fèll, og grèt;
mættust án misklíðar
marghátttuð trúarbrögð,
áranna illska var
af ángist niður lögð.

Ó hugskøt! þorir þú
það greina, hvað eg sá?
helgri þig blygðun bú,
að byrja kviðu þá!
Eg sá, — ó, sýn hvílík
syndara veittist þar,
er mállaus lá sem lík
og leit hrun veraldar!

Eilífðar æðsta blóm
upp kom á stjörnu reit;
ó, hæstan herradóm!
ó, hvað stór engla sveit!
skýi sig fögru fól,
fluttu kerúbím það,
er fyrir einn dómstól
af eilífð var tilskikkað.

Þar sat á helgast hold,
hjarta-stíngs ör sem ber,
skapari, mannlig mold,
máttugur Guð þó er;
frelsari, frið sem gaf
fyrrum; en hverr kann tjá:

hve djöflum ógn stóð af
hans auglit nú að sjá.
Af þúsund ásýnd hans
eldhvelum himins bar,
regnboga knýttur krans
kríngum hans höfuð var;
hans öflug hönd í stað
helg dóms-brèf opna rèð,
náttúru bók og blað,
er blóði var skrifað með.
Augum kríng venda vann,
völd þar síns dauða leit,
Ískarjot allmargan,
æstist því bræðin heit;
hvert tillit hans þeim var
hótan um eilíft morð;
hljóðnuðu herskarar
himins við þvílík orð:
Tapaðir! híngað hast!
hvert yðar forsvar er?
var ei, það yður brast,
allt borgað? lesið hèr!
þig, sem mitt bætti blóð,
blóð þitt hefir fordæmt;
spyr verk þín, vesæl þjóð! —
er víti þèr ofslæmt?
Náttúran datt í dá,
drambsemi mállaus stóð,
önd hver örvílnuð þá
æpti með sorgar hljóð:

Ó vei! ó eilíft hel!
ó frábær písl og stök!
dómarans þó ei þel
þeirra neitt mýkti sök.
Bendíng hann bista gaf,
brunar fram skari stór
plágum allskonar af,
eilífðin seinast fór;
upp lauk þar gini gjá,
gjósandi eldi og neyð. —
Ó vei! — eg blundi brá,
af blossa þeim ótta leið.
Með vöku nýrri ný,
nú fèkk mín sála klökk,
efni til þánka, því
þagnar í djúpið sökk;
úr því strax aptur brást,
eg nær svo þenkja fer:
skal og allt svoddan sjást
síðar í raun af mèr?
Skal lopt og fyrnd þèr fá
fargað, mitt kæra hold?
skaltu heims endir á
uppspretta nýtt af mold?
skal lúður lífga þá
líkamans fúið hjóm,
og þessi augu sjá
í ösku heimsins blóm?
Skal eg sjást eittsinn ber
í augsýn dómarans?

skal englum, árum, hver
ill birtast hugsan manns?
Skal eg? — Ó! þyrm við því
þú Guð! á hefndar dag,
mèr skelfdum eyra í
öskri þitt reiði-slag!

Þinn dóm og hefndar-hönd
hræddan að eins lát sjá,
en gef einn geisla önd
af gæzku stólnum frá!
blóðugan mildur mèr
minn dóm, þó rifin, sýn,
annann fram betra her,
blóði ritaðan þín!

Ó veröld! vakna nú
við þann dóm-klukku hljóm!
æ, mættir þúngheyrð þú
af þessum skelfast róm! —
Básúnan fyrr enn fær
þig fælda, gjörstu klók!
hyggindi loksins lær!
les þrátt í tímans bók!

Hvar lína engin er
annað enn nöfn forgleymd;
sýn nú Menandrum mèr! —
mold hans þar liggur geymd.
Lissabon [1]! víst þú varst,

[2]) Fyrsta dag Nóvembers 1755 eyddist Lissabon nær því af jarðskjálfta, flóði og eldgángi; þar týndust 30,000 manna.

þú varst, — en harðan aum
Guðs dóm úr býtum barst,
birtum lík orðin draum.

## 3. SORGARÞÁNKAR

*um dauðans makt gegn dygðinni.*

Kvæði þetta er prentað í Hrappsey á dönsku og íslenzku 1774 og á íslenzku 1783; báðar útgáfurnar eru hèr hagnýttar.

*Lag: Kom sæl, mæt morguntíð!*

Tvö döpur ljós sinn lög
látið fá varla í tè,
hjartað þó hrópar mjög:
hvert yðar fylsni sè
opnað! því innra' í mèr
æst tára brúsar haf,
ef grátið hèr
ei geti þèr
grát drukna mun eg af.
  Grát, auga! þrúngið þú,
af þurrum vatn ef fæst
glóðum, því gleði nú
að gráta mèr er stærst;
já, hægð í hörðum grát
harmandi finnur sál;
gæfir snöggt,

þó geti' ei slökkt,
gráturinn sorgar bál.
Hugskot, af hrygð er skerst,
hvað aumt er þetta sár!
Sálin hve bágt af berst
blóðgar við hjartans ár!
Nær djúpsett aldrei ör
nè undar minníng grær,
og hjartað meir,
uns hèðan deyr,
heilindi forn ei fær.

Eg vissi vel, að er
veröld öræfi snauð,
hvar bústað bygðu sèr
bágindi sorg og nauð;
hvar ástand lífs og lán
líkt hennar knetti snýst,
hvar mjög opt
um lukku lopt
lágnættis þoka brýzt.

En himins elsku son
eg dygð þó meina vann,
og tigna væri von
að vissi dauðinn þann,
er betri ætti' á hæð
arfleifð, enn fjallhús snautt;
hels ofraun
að hennar laun
væri, því trúði' eg trautt.

En, reynsla mæðu meins!
hvað merk þín rök eg finn!
nú sè eg alla eins
út leikur himininn;
eg finn, að fölnar dygð
fángbrögðum dauðans í;
Drottinn vís!
þitt dapurt hrís!
skal dygðin slást með því?
Á þeim, sem ann þèr mest,
af strýkjast húð og fjör?
á dygð og ódygð verst
uppskera sömu kjör?
á líkan öflugt hel
ólíkum veita stíng? —
Hvað er dygð?
á hverju bygð?
er hún tóm innbirlíng?
Eg hugsa þetta þrátt,
þegar fram ana sè
flokk þann sèr hrokar hátt,
hefir stjórn þína að spè;
og hrekkja iðju í
ei við himininn svífst,
en með ró
og yndi þó
líf hans og lukka þrífst.
Þarámót dygð burtdró
dauðinn, svo varla fèkk,
öðrum til yndis þó,

eina stund lifað þekk,
enn skemur renna rèð
rósa-veg lukkunnar;
grafskrift þá
má svoddan sjá!
*Sú næsta skammlíf var.*

En nú af hæstu hrygð
mitt hjarta ráðlaust er,
mitt yndi, mína dygð,
mèr síðan fráskildir —
Örvílnan ángrað brjóst
inntaka mektug kann;
tapað hèr
þá öllu er
ef vonin brestur mann —

Sál mín er sokkin nú
sorgar í djúpan hyl,
ei gryfja sinnir sú
sólar fegurð og il;
viðbjóður einn er önd
ángraðri kætin blý,
mín systir dýr
og huggun hýr
gröf settust eina í.

Sú fagra sól, er skein
í sóma nokkur ár,
og græddi margra mein,
með gæzku ljóma klár,
um dygðar lopt er leið,
leiptrandi stjarna glöð,

horfin autt,
af huggun snautt,
eptirlèt rúm í röð.

Ó, skikkun skaparans!
skeytir þá ekki' um kvein
þú framar frómleikans,
nè frekt syrgenda vein?
fær ekkert andvarp meir
inngáng í brjósti þèr?
hversu má
þeim huggan þá
hjálpa, sem vonlaus er?

Andhælis er þèr sízt
oss mót að gánga leitt:
því ótal vörgum víst
úr veröld þú gatst eytt,
en þetta látið lamb
lifa, sem margur kaus;
hefir þú
þá höndlað nú
sem hæfði? vægðarlaus!

Þá æra' og illsku-verk
eins verða böðuls fórn,
hvar til skal manndygð merk
mikla svo þína stjórn?

## RÈTTVÍSIN.

Dauðligur! meir ei mæl!
mèr, uppheims drottníng', heyr!
vík með þitt vit á hæl,

vankunnugasti leir!
Hvað rètt er, sjálfur sèr
sá lögin stipta vann,
eilífðin
um úrskurð sinn
ein gefa skírslu kann.

Til mæðu, mannligt kyn
myrkum á hnetti, skapt!
lær brátt að bera skyn
bezt á þinn hyggju krapt!
hèrnæst svo hátt sem kannt
til himins þánkann fær!
en hygg að því,
að hæðir í
einn dvergur aldrei nær.

Dupt viti dupt að sè!
duglaus ei boði stríð!
Herrans ráð hugviti
holds er eyðimörk víð;
fyrir það fortjald inn
forðast einn Kerúb gá;
miður kann
þó moldvarpan
jarðar þá sól að sjá.

Blindum farsæla för
fylgd gjörir leiðtogans;
hve máttu, mannvits hrör!
missa þá leiðslubands?
Vogarðu' að etja út
eilífðar þèr á haf,

sem ei getur
farið fet
ef taum eg tek þèr af?
Lát nú af loksins því,
svo lægist ofstopinn,
sitt fellur annars í
afgrunn metnaður þinn;
leggðu þèr mund á munn,
mèr ber að dæma' um það,
sem er þèr
og himins her
ofhátt í allan stað.
Eðla hnoss önnur slík
ei finnst á hæð sem eg,
að makt og aldri lík
ályktun guðs, því veg
opnað forsjónar fæ
fólginn, svo vitnist það,
hennar mèr
að einni er
á lögmál grundvallað.
Öll himins útrètting
undirskrifast af mèr,
hans verður þúngbært þíng
þá eg mótfallinn er,
hægt, ef eg mæli með;
misklíð er okkur fjær;
af rèttvísi
því skærri ske
skaparans verk frábær.

Lífs verður línu af mèr
lengd sett og mörkuð þrot,
fyrr enn því fullnægt er
fjörs enginn missir not;
í dauðans eykta glös
eg tempra mælirinn;
skamtað er,
nær skepna hver
skal hurt, á kvarða minn.

Yrmlíngur enginn deyr,
andar- svo -dráttur þver
ei maðk liggjanda' í leir,
að leynt sè þetta mèr;
hví lætur hyggjan blind,
sem hegðan skaparans
rángslát sè,
fyrst Rèttvísi
er regla gjörðar hans.

Forsjónar leið er leynd,
líkams því fjötrum háð
mannlig ei grípur greind
Guðs hulið vísdóms-ráð;
en nær við ástefnt mið
andstreymis linnir slóð,
hún fyrst sèr
að himins er
öll skikkan einka góð.

Óvit! ei ætla því,
ofhart sè leikið, dygð
nær blóma beztum í

banvæna kyssir sigð.
Nei, vit að Herrans hönd
hirðir sitt eigið bezt,
heim þá ber,
sem helztil er
ómaklig veröld verst.

Ó! ó! þèr andvörp sár
af dauðans lángri bið!
sá deyr með ofmörg ár
sem æfi stuggar við;
en hinn, sem búinn bezt
burt fer, nær kallar hel,
lengi nóg
sitt líf fram dró,
lætst að Rèttvísi vel.

## DAUÐINN.

Hvað? að Rèttvísi? — vort
vald engan líður skamt;
fullsælu fjár og skort
hjá feigum met eg jafnt;
hvern eg til heljar kýs,
hlýtur að kyssa jörð;
þessi lög,
er mèr ei mjög
meinligt, þó sýnist hörð.

Eg högg, og hika' ei grand,
hvað sem minn ljár til nær,
höfuðsins hefð og stand
harðla smátt á mig fær

purpura' og gulligt gjald
grimd min ei óttast þarf,
eðla, fróð
og ólærð þjóð
útheimtir sama starf.

Í hreysum hrör örsnauð
hremma nær leiðist mèr,
hvar mæða mörg og nauð
mín tvíllaus boðan er,
eg skipti strax um stað,
starfa þó sama' og fyr,
bistur þá
eg bánka' uppá
purpura-prýddra dyr.

Tíðum fær högg óholl
hásæti kóngs af mèr;
fólkvörður fer um koll,
fortapað vald hans er;
hans byggir forráðs fold
föðurlaust þegna lið;
kæti manns
og kveinan hans
koma mèr ekkert við.

Margopt frá manni' eg þríf
maka, þeim heitast ann,
hans sálar helft og líf,
hans dýrgrip kærastan;
eg glotti' að hörmum hans,
það heptir ei minn þjóst,
hún skal útrýmd,

þó lægi límd
lifanda manns við brjóst.
Mylkjanda margopt eg
móður frá brjóstum jóð,
já brjóst frá jóði dreg
jarðar í djúpan sjóð;
þó krakki svelti sá,
svölunar fari' á mis,
og jafnvel
sig harmi' í hel,
held eg ei mikið slis.
Tárafullt únglíngs óp,
ótalfalt barna vein,
föðurlauss feikna hróp,
frekt harmað ekkju mein
hvorki mitt hjarta nè
himininn opna kann,
því strax sem eg
mitt stál út dreg
að stáli verður hann.
Morðör og mann-ægt þel
mest þó á dygð eg hvet,
því starfi' er varið vel
víg slíkt nær unnið get; -
háborna' að hafa' í saur
himinsins dóttur lagt
heiður mèr
ei allsmár er,
og sýnir mína makt.

Með svoddan aðferð enn
eitt hjarta drap eg næst,
sem skotfrí meintu menn
í manndygðar brjósti læst;
það hjarta var og víst
verðugt, til gleði lýðs
að lifa hèr
sem lengst, en mèr
leiðinda til og stríðs.

Sanngirni set eg þá
samt undir höfuð mèr,
eg stunda' ei annað á
enn sýna hverr eg er.
Því stærra stríð eg held
því stærra sigri næ;
því hærri dygð
mín höggur sigð,
því hærra krans eg fæ.

## RÈTTVÍSIN.

Hættu nú, þróttlaust þý;
þitt fyrir ormum dyl
oflæti, þessir því
þekkja lángt betur til;
þitt afskúm fær ei fet
fúnum bein-skröpum hreift,
fyrr enn þèr
er það af mèr
og hæstum himni leyft.

Hvað viltu hrósa þá
hreysti, sem ekki' er nein?
þenk ei, af þínum ljá
þiggi dygð bana mein;
þín deyðir heiptar hönd —
hvað ertu sigri' að nær?
dygð þar svinn
við dauða sinn
ódauðligt eðli fær.

Sigrarinn sigrast þá
nær sækist dygð og þú,
og hennar uppgjöf á
enginn vann meir enn sú;
þessvegna dygð af dör
dauðans fær aldrei geig;
henni víst,
nær hel inn brýtst,
vex heldur dáð ódeig.

Dýr skapa dómur er
dauðinn, hvers minnsta púnkt
dygðin ódökkvan sèr;
þótt drambir geysi þúngt,
veit hún þú æ að eins
ófullkomleikans sjálfs
böðull ert,
er skurn fær skert,
svo skuli kjarninn frjáls.

Raupsamur skuggi! skríð
skjótt í þinn myrkva sal,
maðka hvar mergð ófríð

með þèr dupt sleikja skal!
en vit, að dávæn dygð
deyr og lifir í spekt,
hennar slot
þó þúsund þrot
þèr lík á stormi frekt.

Þú systur sofnaðrar
syrgjandi, bróðir! fall,
á hverri hærra var
himins enn þitt tilkall;
þín sorg þó reiknist rètt,
raunar hvað gyldir sú?
hún lifði vel,
uns hana hel
heim flutti', en betur nú.

Tæmdu þá tára-hver,
tala mig eina lát,
af því hinn æzta sker
órètt í þínum grát;
eins banna bróður-stíl
blóðtengdir[1], systur-geð
og dygða hrós
að leiða' í ljós
lífs rèttum farfa með.

Lát mig um þetta þá
þinga, sem dæmi rètt,
og hvítan ódygð á

[1]) Orða röðin er: blóðtengdir banna bróður-stíl (þ. e. þenna bróðursins) að leiða systur-geð og dygða hrós í ljós, þ. e. að hæla systur sinni.

aldrei hef farfa sett.
En sem ei löstum lof
lætur Rèttvísin falt,
dygðar art
hún dýrsta skart
ærunnar æ svo galt.

Eg hef með yndi sèð
andaðrar systur mann
glaðan, þá líf var lèð,
við lát hennar ördaun;
af því hann ára tal
ei hennar kosta veit,
mest sú hrygð,
að missa dygð
ný-fengna, brjóst á beit.

Hans hjarta víst hún var
viðkvæmu partur af,
hjartað til hlutdeildar
honum og manndygð gaf;
verðug því einnig er
offurs af sorgum hans,
fórn þó sú,
ei nái nú
í nýjan himna dans.

Andvörpin föður flest,
fossandi móður tár, —
hverr túlkur birtir bezt
brjósts trega-þýngsli sár, —
vitna: það heitar hel
hjartans þeim æðar skar,

og blóð það eitt
fèkk burtu leitt,
er hlýðið alltíð var.
Hèr hefir bróðir birt
bræðranna þánka' og sinn,
að mestu máli firrt
mjög harmar systirin;
hvar sem að einum af
ástvina flokk er gætt,
til að sjá
hvað tregar þá,
í tárum allt er vætt.
Ei að eins þessir þó;
þar heyrast margir enn,
er hrygð í brjósti bjó,
böl-særðir hrópa menn;
bezt vora, blessað lík!
bættir þú tíðum nauð!
einsog sól
sig engum fól
þín dygð, en blíðu bauð.
Hvað gleði himnum ber,
hvað jörð, það dó hèr allt,
ljúfmenskan liðin er,
lögð í skaut foldar kalt;
vit! hana brast ei börn,
berst því á sorgar-dragt
dygð allmörg,
að dauðans örg,
þær svipti móður makt.

Á marmara manndygðar
mynd eg eilífan gref,
til veltu veraldar
varir það skrifað hef.
Þenk ei, að fegurð fríð
forláti dygð við hel;
hennar bein
þó aska ein
brennd sè, hún blómgast vel.
Eitt nafn sem aldrei deyr,
orðstír og forþènt ást,
uns dygð er ei til meir
sem ærustólpar sjást;
lítill, í luktri fjöl,
líkstokkur aldrei fær
falið það,
af fold sem að
fagrahvels skeiði nær.
Þú sorgum þrúnginn her!
þerra nú grátna brá,
hurt hrind úr brjósti þèr
bleikum ástvinar ná!
eg hennar æru-nafn
og ösku vel fæ geymt,
aldrei því,
hún uns á ný
upp rís, skal verða gleymt

---

Vel því að vísu sè!
vil mèr þó litla fá

huggun; ó harmkvæli!
hjartað nær kljúfast má
fleirum til fróunar,
fullt sjálfs þó heimti neyð;
mæða slík
er meir enn lík
sjálfum þeim dapra deyð.
Huggun þó hefi' í sjóð,
hún margan fèkk við reist:
*Ráðstöfun Guðs er góð,*
*getur því aldrei breytzt;*
*fálmar gegn fleini þeim*
*forgefins mannlig hönd;*
*hygginn sá*
*því heita má*
*hans sem að kyssir vönd.*
*Ætíð er velferd vor*
*hans vilja takmarkið;*
*hans vísdómsvega spor*
*vendir hvert á það mið:*
*Það böðuls höldum heipt*
*hans þrátt er ástar-koss;*
*sárast nær*
*eð syrgjum vær*
*sízt er hann reiður oss.,*
Svoddan við særða' eg hef
sál mína plástur lagt,
hinum og hèrmeð gef
huggunar meðal sagt.
Æ skyldi allra bezt

ángurmótt kæta þel
þánki sá:
*að Herrans há*
*hönd gjörir allt mjög vel.*

Tak þá, mitt hjarta! hèr
huggun, sem víst er góð,
þögn ef þèr óbær er,
umkvörtun þolinmóð
skynsemi hæfir helzt
og harma lèttir mest;
syrgja þèr
að sönnu ber,
en ei svo örvílnist.

Ó! kom þá auga, hratt!
afgreiddan slíkri lát
systur síðasta skatt,
sem nú út pressar grát,
af hjarta einu, sem
hún aldrei særði fyrr
enn þá nú
í eilíið sú
út gekk um dauðans dyr.

Ángurfullt auga mitt,
ó systir dygðarík!
nú sèr í nýjum þitt
náklæðum vafið lík;
munnur þinn mèr gaf títt
og mörgum skemtanir;
að sinni þann

eg kyssa kann,
en framar aldrei hèr.

Þigg nú einn kærleiks koss,
kveðjandi tár af mèr,
þökk fyrir þegið hnoss,
þrá-tèðar velgjörðir;
fyrir þá elsku' og ást
er hèðan með þèr barst,
og hverja stund
sem heims á grund
helft minnar sálar varst.

Mín gleði gjörvöll er
að gráta við legstað þinn,
gott allt sem get eg þèr
goldið, er harmurinn.
Augu full tára tvö,
sem tveir af hundraði
ununar
sem að þèr var
naum reiknast renta sè.

Þú lifir, sæla sál!
í sætri gleði víst;
mín andvörp, ósk og mál
eyru þín mæða sízt;
en gegnum engla saung
ef merkir það eg gel,
orðum með
þig enn svo kveð:
*um eilífð lifðu vel!*

## SÆ-FÖR.

Prentuð í Hrappsey 1783.

Hverf frá, andi helztil djarfi!
hèr þau yztu takmörk sèrðu,
hverjum framar sjálfur Seraf
signaður vogar ei að skygnast;
heim því aptur heimt í tómi
hreifðra þánka skara dreifðan,
brott af púnkti, hvern að hitta
heppnaðist aldrei neinni skepnu.

Moldar bróðir ýngri' að aldri!
eigið flug þig skelfa megi,
fáðu varpað fyrir þig niður,
fældri sjón af hæð ómældri;
uppá hverja' af ofur-kappi,
allt um gátu-stiga valtan,
himin-ræfrum öllum ofar
yfrið djarfur tíðum klifrast.

Hvað þig stoðar hyls foræði,
hafanda' engan botn að kafa?
er ei nógur, hismis hrúga!
heimur þèr ad yfirsveima?
þèr, eg aptur hermi, hverjum
(og himins máske Kerúbimum)
vaunst ei hinnar minnstu minnsta
maðk-tegundar part að grunda.

Ótta rekinn brátt til baka
brunar kraptur ímyndunar,
hæðum ofar nær sem neyðist
nýjan hríng að skygnast kríngum,

hvers mið-púnkti máls er lángtum
minni sá, þar Newton svinnur
með val-skygnum augum áður
efaða gátu fundið hefir.

Því er ráð að þaðan snúir
þinni för til moldarinnar,
heima þínum hjá svo unir
ham, er skildir við einnsaman:
þvísa líkams hrumu hreysi,
er hrynur, þín ef saknar, vinar,
og því dýpra' að dupti steypist
dofið hrör, sem þú kemst ofar.

Þetta hvort þèr aflar ótta?
er þèr grand að kyrr við standir?
hefir hinn *Mesti*, hvers af blæstri
helgum vorðinn ertu forðum,
þèr innskotið girnd til gátu
grun að smíða um óvissuna?
gettu þá sem megna máttu
mest, og geysa í orkuleysi!

Kom, og strángra storma vængjum
styrktur heiman þángað sveima,
örugg von fyrir ógn og fári
ei sem gat, nè frelsi, ratað;
þar um dauðans op út æða
Indíanna hvirfil-vindar,
æ hótandi grimmri glötun
grund og sjó á hverri stundu.

Líð hvort Andinn, anda faðir,
áður nam líða í sköpun tíðar,

og af óguun æðstu tignar
eptir mildur leyfar skildi,
þær er sjálfan þora' að skelfa
þjóst í hörðu jötun-brjósti,
er þó stóð við ægis síðu
öflugur móti Guði' og djöfli.
Sjá þann stað, hvar sæld og klýja
samanblandast, ógn og gaman.
Ó! hvílíkur sjónar salur,
sí-tjaldaður, breiður, víður!
Hvað margbreytt sig hèr á votta
hverful spil, og ótal gerfi,
ýmist gjóta, fjall eða flötur,
fagurblá, hvít og græn að líta.
Blæs af austri geysi gustur,
— grenja raddir Blóðug-haddar[1] —
slóð rótandi vestan-vindar,
vægðarlaust í ekrur plægðar;
annarr bilur æðir sunnan,
ofsa-trylltur þeim umbiltir;
nálæg bíður norðan-kæla,
næst að hlotnist þar að drottna.
Upp nam hrokuð höfuðskepna
heldur megnu storms of-beldi
nauðug lúta, þrátt upp þýtur
þrjózkum krapti', en svignar aptur,
brúsar, freiðir, bröltir, geysar,

[1]) Blóðughadda er ein af dætrum Ægis, þ. e. bylgja; skáldið leyfir sèr að nefna hana Blóðughödd.

hólgin stynur, grenjar, ólgir,
uns við strauma stormar semja
stundar-grið, án trygða bundin.
Hljótt, minn andi! hèr við stattu!
haf og kali liggja' í dvala,
yndælustum sem í svima
sálin blundar af forundrun.
Guðlig makt! í alheims eðli
ímynd þína er jafnan sýnir,
þig mín önd fær þekkt í vindi,
þína tign í hafi lygnu.
Hvílík brúna sýnir sólum
sig veröld, og hvað stór fjöldi
drótt ókendur drafnar- þetta
-djúp uppfyllir! — hvað? — eg villist;
það sem mjög var úfin áður
Unn[1], er himin nú og sunna!
Ó nei! stjörnu rjáfur raunar
og röðull, sènn í speigli glöðum.
Það eru málaðar mána-slóðir,
mikil súð og fagur-húðuð
azúr-hvelfing[2], bjartur bjálfi
bekkjar, þrot sem hefir ekki;
fallega þiljuð fægðu stáli
fellíng gólfs, og jaspis-hella,
það er vind-lopt, eld-lopt, eður
í einu: vísir Paradísar.

[1]) Uðr eða Unur er ein af Ægisdætrum; skáldið kallar hana Unn.

[2]) Azúr er himinblámi.

Sjá! hvað lystug sèr upp kastar
sveit úr djúpi geddu-reita,
eptir nýrri' í lygnu lopti
leitar gnægð af sældar hægðum;
gjálíf hnýsa spráugs í spili
spriklar, veltur, snýst og stiklar,
prýðiliga gjörvallt græði
glansar fullt af leik og dansi.

Móður af sundi beð á boða
brimill hvílir þúnga limi,
höfgan dvala lætur lífga
líkams krapt og eðlis saftir;
síldar mergð úr sínum norðan
sal á meðan eltir hvalur,
falt bjóðandi flóðs erjendum[1],
flótta lið, sem kvelur ótti.

Unun fyllta þarmeð þína
þánka lát, minn andi! vánka,
allt um kríng á Bólmar-belti
beit þeim fast, og hafnar leita
ugglaust hvar þeim auðnist liggja
akker við í kyrrð og friði,
og á Ránar armi þægum
yndis spakan blund að taka.

Yður, smáu bana bræður!
bið eg í stilli rugga, dilla
minni sál, því mjög fer hennar
megn að þrotum sældar vegna.

[1]) flóðs erjendur, sjómenn.

Velkomin, frábær friðar svölun,
fjærsparkandi veraldar harki,
náðum tignarmildum meður,
mjúkust hlíf, frá nótt eilífðar!
Hèr skal sofna — en hvað er í efnum?
hvort er friður burtu liðinn?
hvað er, værðar unun, orðið
of-skammvinn! af hugfró þinni?
Svipill ógn úr söltu djúpi
sèst upp stíga, voða gýgur;
dirfsku húnar grafir gína
gríðarliga' á allar síður.
Sprettur fram af öllum áttum
orrustu sólginn húsa-dólgur,
hvers af ólmu jafnvel jálma
jötunhallir yfirfalli.
Snjallir kríngum veðra völlu
vo-storms rámu-lúðrar hljáma,
reiðubúnir grund og græði
grand að vinna', og saman blanda.
Prýði þakið himins heiði,
hæst þá ljómar röðull glæstur,
grímu-stakki dauða-dökkum,
dag gleypanda, sig á steypir;
frá koldynmu dampa-skýi
dunar heiptug þrumu leiptran;
fæst ei skjól nè skotfrítt hæli
skelfdum hug í yður, smugur!
Þig, minn andi og hræddur hugur!
hyl fyrir nýju sorgar spili!

hversu reiðist ægir óður
örlög megn er þessi fregnar:
að til heiptar ýfður aptur
eggjast nú við herlið tveggja
himins bæði' og storms að stríða?
styrjöld eykst að nýju byrjuð.
Ýmist sèr af ægis-brimi
Alpes [1] hreykja að dvalins-leiku [2],
ýmist Rán með glenntu gini
gleypir þær, er niður steypa
hvítum skalla' af froðufjöllum;
fylgja' á eptir stærri bylgjur,
þær með æðis ofsa meiri
ásókn veita skýja reitum.
Von hagkvæm á fögru fróni,
fjarlæg þó í augum varla,
glóir, áður grimmur dauði
gægist út af fylsnum ægis;
áður brúsa flæði fýsist,
forðum settar yfir skorður,
og gjörvöllum hyggst umhverfa,
hafla-búk í öldur nýjúkar.
Sèrhvað skapt í legi og lopti
lífs með kylju sig fer hylja,
í hverri dæld, um fjöll og foldir,
fjöldi býr af skelfdum dýrum:
Igultanni og Behemot [3] bágur

[1]) *Alpes*, Alpafjöll eður Mundíafjöll; þ. e. bylgjufjöll.
[2]) Dvalinsleika er sólin.
[3]) Behemot, ógnardýr, máske fíll eða krókódíll.

bunduir ógn í felur skunda,
fleygur her af felmtri nógum
feykist niður í holar eikur.

Hver ófreskja þá um þorska
þeytist æsta kólgu reiti,
bárum hrakin sker af skeri
skoppar, einsog flygi soppur;
rifnar storms af dyn, og drafnar
drifi þaktar flíkur blakta; —
hvílík sýn og hvaða fæla! —
hvat-æðandi bylgju matur!

Vits er orku minnismerki
mastur-jór hið vesælasta,
fè-gjörn drótt sem fyrir stuttu
fèkk útsent á karfa-bekki,
öld framandi að ærnum skyldi
auði fletta, þó með prettum,
gusti, straumi, nauð'gum næsta
náttúrunni, guði almáttkum.

Stýr, minn andi! stefja knarar
stafni, þessum með, til hafnar,
og með nýrri þig í þeirrar
þiljum gnoðar undrun skoða!
brattar annars bifs á hættu
bylgjur nú, frá hinu snúir!
meira djúp á mannvits snúru
mæl um hríð í þessum víði!

Veiztu hvað er nákvæm næsta
náttúran í sínum háttum,
gjörði hún hverri kynd á kvarða

kvikri mildan rúm að stika:
tíu þúsundir maurs í mjófu
moldar-inni skort ei finna;
takmörk klèn fá laungum lánað
lund ánægðri fullar hægðir.
Sundraði hún þá storð á stöndum
í stærri parta og aðra smærri,
samt er enginn þeirra þraungur,
þægiligri geðs ánægju;
ógnar djúp þar gróf í gegnum,
grund er heila sundurdeilir,
þess að hefjast öldur yfir
arnar frægum þrótt er varnað.
Skipti hún sólar skini, lopti,
skemtun, fæðu' og öllum gæðum,
eptir sèrhvers eðli sköptu,
er hún sá fyrir beztu vera;
öðrum lýðum annann gróða
annt sèr lèt að fengi plantað;
hinum hvað er bót við bana
bauð hún væri þessum dauði.
Hennar skipan hverr ofstopi,
háleitastri þorði brjála?
sá með píndum sultar anda,
settum strauk frá eigin rèttum,
sèr vogandi nízkur nirfill
nauðalaust í opin dauða,
ei þó hrauð sèr ætli græða,
annarra heldur ræna veldi.

Kunni sæfar ásýnd úfin
ein að skelfa þánka-leyni;
kunni smjúga hel sem hægast,
holu þá vèr ekki sjáum;
kunni stormar bastir hrausta
hræða lund á þurru svæði,
og með rótar föstum fæti
feykja' að velli Sedrus eikum.

Hverr var þá hinn harla djarfi,
holan sem í Ránar fola
velja þorði fyrstur fjalir,
felldar telgdi, og þannveg negldar:
að sèr frítt, og hels við hættu
hèr í borgið mætti vera,
sem með ofsa-stríðum straumi
stökkur inn, ef nagli hrökkur.

Hverr nam slíkum skrokk að skikka:
"skeyt ei hvinum blossa-vinar,
"stattu reist á kjöl, við köstum
"keiprètt styðji þýngdar miðja!
"frökk á hvala bökum brokka!
"bruna í dans með höfrúngunum!
"máttu víst, þó mætir hættu,
"meistaraligu smíði treysta!

Hverr nam skatna boð um breytni
bistum setja stormi fyrstur?
hverr nam orkan stríðum stjórna,
strengdan fork með voð á hengdri?
hallir brims á bruna fjöllum
breiðsúðaðar fram að leiða,

sem þá flýgur bráð af boga
bendum ör í skotmanns hendi.
Hverr örugga leið nam leggja
leyndra gnoðum meðal hoða?
hverr nam fyrst með hægu stýri,
hlès ofríki burt að víkja?
hverr nam akkers meður máttkum,
múl í taumi að halda straumi?
hverr andviðri þúng nam þvínga
þèttan undir farm að lètta?
Hvað er slíkt, minn andi! að óði?
inn mèr, hvers eru fótspor þessi?
hafa verkum englar orkað
öflugir þeim, eða fundið djöflar?
Nei, send fyrst á námstopp hæstan,
njósn; skjálfandi fyrir þèr sjálfum
síðan krjúp, sem eptir apar
englum, djöflum, himna-þengli!
Eigin skoðun lát þig laða,
lotníng anda þeim að vandir,
sem tegundir allar anda
einn hefir skapt, og gefið krapta;
stórum þótt hann mældi meira,
minni nutu deildar sinnar;
hreppti hverr það hans til giptu
huguðu starfi vel má duga.
Höpp og gæði hvílík náðu
holdhyggjandi sálir þyggja?
hvílíkt megn það skírt mun skilja
er ske mun, er og hefir verið,

geta til og verða vitur,
vèlum með fá raun að stela
ályktunar sinnar sönnun,
sem ei gáta til fær látið?

Skoða þú um veraldar víða
vegu, hluti nýstárlega,
fræði, greind og ment sem mynda,
mjög skínandi á þessum dögum.
Guðdóms menjar þessar þýddu!
þó sem skaptar manns af krapti;
verks höfundur var einn andi
vizku slíngur, þinn ættíngi.

Vits þó borið ei fá eyrar
aldin' strax að fullu vaxin:
Thales [1] ruddi, fyrri fæddur,
fægði smíðið Newton síðar.
Uppgötvanir hulinna hluta
hafa gáng sem móður strángar,
lækjar- þær í fyrstu -fari
fæðast af, en verða að hafi.

Ske má, trè nær skatnar sáu
skekið af sjó að landi reka,
hafi neyðin fýst að freista
fars þar á yfir öldu bláa;
ske má hund menn sæu synda,
svana-flota, kóp eða otur; —

[1]) Thales var talinn meðal enna sjö Grikkjaspekinga, hann var í Ioniu í Asiu enni minni, og lifði samtíða Sóloni og Krösus (560 árum fyrir Krist). Thales sagði að vatnið eða vökvinn væri frumefni allra hluta.

þánka slíkt hjá vitrum vakti,
vakran þjóð sá kenndi róður.
Hendíng máske hafi sýndan
holaðan knör úr eikar boli,
vizkan reynda fyrr enn fundið
fengi borð með nöglum skorða;
máske laungun, annarrar eyjar
innbyggendur til að finna,
og fèlagskapar fýsn ódöpur,
fast hafi kennt að setja mastur.
Máske — hverr, þó megi gizka,
mundi, svo að rètt sè grundað,
hendíng, þörf og hnýsnin djarfa
hvílík geti býsn upp fetað?
það er nóg, að þinn má hræða
þánka mest, að ágirnd versta
þann hefir smíðað elginn unnar,
er þú brotin sèr á floti.
Skemst er síðan, skepna' en aumsta!
skína náðu geislar þínir
eins því nær og guðdóms glansi,
gjörvöll sú er prýði flúin;
skelfíng er, að skuli sjálfur
skapari smiðar það fá liðið,
guðs bilæti' að háleitt hylji,
herfiligast djöfuls-gerfi.
Andann sama, er Ægir temur,
undirþvínga vellystíngar;
sjálfs guðs mynd í saurgan fjanda
sí-gleypandi fýkn umsteypir.

Skynsemd gulli fyrir fellur
fram! — að hyggðu því og blygðast,
þú, sem rastar-fáka fyrstur
fara lètst til Ófírs[1] vara!
  Náttúrligur ægis ótti
unninn valla mátti kallast,
svo vanburða' og veikur lúi
værðar naut í hættu skauti;
á húsa-dólg var lagalausan
lagður naumast konstar taumur,
fyrr enn jarðar full-þraung urðu
flet, og af sulti mettir grètu.
  Öfundsjúkar óvart bifi
árar þá að kyrru bárust,
vinir gleymdust, var að ráni,
vandliga spurt til beggja handa;
botnlaus djúp þeir göldu glópar
gjörðu sèr að fóstur-jörðu,
og því hart, sem ei með þurftu,
eptir að sækja mjög við kepptust.
  Framm sèr vatt hin feikna dymma
fljótt-æðandi Njörva-dóttir,
fífl-vogun svo fárs í tafli
fengi hnekkt að komast lengra.
tjaldi svörtu fyrir foldar
fletti niður hálfum knetti,

[1]) Ófír var staður sá sem Salómon konúngur lèt sækja til gull, og vitu menn eigi gjörla hvar hann var.

augunum bæði land og lagar
leið svo bráðum hylja náði.
Allt á fold, sem áður við hryllti,
ama nú ei kunni framar,
hel smáandi hyrjar kali
hæddi að nótt og myrkra þrótti;
fyrðar eina fengu' í norðri,
Pheniciskir stjörnu sèna;
ljós þar öld og leiðarvísir,
laung um sæfar gafst öræfi.
Björn [1] hinn litli, bjarta stjarna
er blika náði þegi hvikul,
nær veraldar norður-hjörum [2]
neitt ei sinni stöðu breytti;
til var kosin veg að vísa
viðis-hind, þá nóttin blinda
sólarskini braut að beina
bannaði, fyrir stýrimanni.
Jókst svo ment og viti vöxtur,
vellystíngar meir þó tíngast;
hverju landi frá, sem fundu
fyrðar, ný kom girnda byrði;
eina saddi fold, en fæddi
fleiri senn í staðinn hennar,
heim óknyttir hverjum fluttust
hundrað armir gulls með farmi.

---

[1]) Björn *(ursus)* köllum vèr hinn minna vagn.

[2]) *hjörur*, þ. e. hjólgaddur eða möndull jarðarinnar sem hún leikur á, einsog hurð á hjörum.

Náttúrunni', er minna mettar,
en meiri nægtum síður eirir,
sköpuðu höldar skort margfaldan,
sköpuðust brek og heimtufrekja;
tók smámsaman við að væma
af vana sínu eigin hana;
ofurgefin lèk í lófum
læknisdóm og kokk ófrómum.

Sömdu menn við sveit ókunna
sáttmálsgjörð og band vináttu,
sinn ábata mest þó meta,
meður vèlum kaupa og selja;
makt Kristinna móti granna
myskuna lètust Barbariskum,
sízt af neinni sættargirni,
sitt að heldur jykist veldi.

Gat fjölbreytin ágirnd ýta
ótal fundið sèr nýlundur,
þess ei framar mátti missa
er munað jók og sældar unun;
með íþróttum mörg upp spruttu
mein yndæl, og þæg harmkvæli;
hyggnir urðu að gikkjum gjörðir
glópsku-næm við annarra dæmi.

Geðró deyr, en sturlun stríðri
stínga hjörtun vellystíngar;
hreinan ótta og dýrkun Drottins
deyfði prakt og nýir taktar;
innst í brjóstum ljótri lasta
lystíng eru bygð musteri,

en hæða-stilli hús af gulli
helgar lið, og Sedrus-viði.
Stoltan Ránar-eyk burt eltu,
indíanisk þar lykt sætfinda
gýs, og dampar dýrra grasa
dúka mastur topps um fjúka;
situr á stafni drepsótt dofna,
dauða lík, og ókennd sýki;
hvílíkt banvænt hreisi kvala!
hnýsinn landi! skirr þeim fjanda!
Hræsið vit! sem laungum lætur
lagar stríðan krapt þèr hlýða,
dýrgrip þann sem fèkkst að finna
fram hèr set, og hæl ef getur!
hefir mikill auður aukist
öld, þar sèst að fleira brestur?
hittu fyrðar gulls í gnóttum
göfuga dygð, er saknað höfum?
Mun sannleikans auðlegð aukin
öld við Seilons [1] krydda-fjölda?
er í hjörtum manna meiri
meðaumkan enn áður tèðist?
munu að kærleiks-lögum laga
lifnað þjóðir norður-slóða? —
þegir þú? — það helzt og hagar,
háðúng ein því er að greina.

---

[1]) Seilon er ey mikil fyrir Indíalandi; þar vex mikið af kryddjurtum.

Lát í djúpu hans vera heiti
hafi þagnar niðurgrafið,
hulin sem að stýra stáli
steins fann mátt til norðuráttar,
upp sem dró með höndum högum
hríng, þeim eptir vellystíngar
smugur fengu leyniligar
leitað upp til nýrra sveita.

Blöskri þèr, hinn Barbariski!
böls við harm, sem nöktum armi
guð þinn sjálfur myndar meður
meistaraliga, þann á treystir;
fjandmanns blóð sem gefur guði,
en grefur iður í þínum niður,
uppheims dómur ei mun framar
eiga' að sinna breytni þinni!

Óttast ei, þó bruna beittan
brýni sól á hvirfli þínum,
nè þó fyllist illum allir
eiturkindum þínir reitir;
hinum fyrir skjól má skýla,
skundað færðu þessum undan;
óttast heldur annað mættir,
eðalsteina og gull, sem treður.

Þú sèr, duptið gula glóir,
getur ei nær hvað dýrt það metur
fjöldi manna í sálu sinni,
sem að þínum höfnum kemur;
legg í minni', að lýðir byggja
land, hvar reiknast þessi sandur

almáttugur, og hæða-hilmis
hástóll berla [1] selst fyrir perlur.
Hvað mun stoða eg hlífist viður
hrekki sjálfrar Norðurálfu?
þar skírðra nafn er ógnar-efni,
óttalígast heiðnum dróttum;
Montezúms [2] frá tignum tróni,
tjáist eyrum klögun dreira;
hvort mun duga flekk að fægja
fljótið Íber [3] þennan ljóta?
Hvort munu hafa ljón af lífi
lík þau tekið öll, sem þekja
múgum saman víða vegu
vestur í Perú, felld í kesti.
Villuráfanda fólk, sem fjalla
fènað, hvar til mundi þèna:
því að ræna er áttu einu,
öreigana? sínu fjöri.
Fyrirverð þig, hin illsku æra
ætt! þar djöflar blygðast mætti
sjálfrar þinnar skynbragð skelfa,
skyldi þjóst í tígris-brjósti;
aðhyggendum stendur stuggur

---

[1]) *berla* þ. e. berliga.

[2]) Montezúma hèt keisari Mexíkubúa þegar Spánverjar komu þángað fyrst 1519; hann dó hörmuligum dauða.

[3]) Íber eða Ebró er mikil á á Spáni, og er hún tekin til fyrir því, að Spánverjar drýgðu mest ólhæfuverk í Vesturálfu.

sterkur þínu af kraptaverki;
staklig rán og morð því mikla
meistarastykki þinnar hreysti.
Heimugligar, nógu næmi,
náttúru-hirzlur opna knáttu [1],
legi og vindum lög setjandi,
lík almættis boði ríku;
þú framvísar höldum hulda
heima, en eyð'r sjálf og gleymir;
vein heiðinnar villu-þjóðar
vottar slíkt fyrir eyrum drottins.
Hertekinni, hofmóðs sinni
hörðu með, þú skiptir jörðu,
en sálar-frið og guðlig gæði
gefur út fyrir moldar hnefa.
Þjóð, dýrkandi þig, með stríðum
þrumum slær og gjörir hruma,
að í heimsins opnast miðri
Eden sælu vítis pæla.
Hifnesks [2] þèr til heiður af nafni
hefir þú tekið erindsreka,
gulls kallandi fýsn ófrjálsa
fljóta lyst til sálar-bóta;
vítis færir heiptug hetja
húð úr friðar-eingils skrúða;
mexíkanisku blóði bræðin
bálheit upp með trúna málar.

---

[1] *knáttu*, þ. e. kanntu.
[2] *hifnesks*, þ. e. himnesks.

Drag nú skýlu fyrir þá fælu!
fregn lát standa, hnýsinn andi!
nóg er sagt af nýstárligu —
nauðugur þessi lát útpressa
þjökuð andvörp þúng sannindi:
það eitt dýr, sem heitir maður,
grimman púka guðs í líki
getur fætt; það blöskra mætti.

*Hann eg er sem haga stýri!*
hvílík reið á sólar skeiði
lypti sèr frá skýi ósköptu
skærrar birtu Kerúbím nærri!
hversu bifast himna rjáfur!
hversu skjálfa jarðar-álfur
við þá raust frá herra hæstum
hátt-tignuðum allra guða!

Þú Alvaldi! er flota fjölda
fær ótaldra stýrt veralda
kríngsveimandi! — ó! hvar endar,
umsjár þinnar hafs ógrynni!
Þú, sem lífi og endíng æfi
yfir ræður, tíð, afdrifum,
hvað sem styrkur annarra orkar
anda, gjöf er þinnar handar.

Stórmektugur í engli' og ormi
einn þú vottast sami Drottinn!
allteins gyldir veraldar-veldi
og vetrar lauf í þínum metum;
ólgu stillir stoltrar bylgju,
stormur hvin að boði þínu;

geislar þínir gylla krónu,
gylva fellir stól að velli.

Þú, sem eilíft endaleysi
í þèr lykur, með þèr stikar!
þú, hvers veran ein er ærið
undarlig og stór að grunda!
gjörvöll speki gjörist reykur,
gufa tóm fyrir þínum ljóma,
háleit sunna! það af þinni
þornar skoðun eins og froða.

Nýliga sá eg haf sig hefja
hátt, við skipun þíns almáttar,
ljúft þeim anda laut eg kröptum,
líkt sem guð er öflgum buðu
stórviðrunum, fram að færa
falliga bygðar timbur-hallir,
höstug ógn og hel sem kasta,
hrylliliga sín á milli.

Fángin ræna forundrunar
fjötrum, nefnir yrmlíngs tötur,
hverjum virðst þín hátign stærsta
hefir, vit og þánka' að gefa;
skilníngshættir, skyn, íþróttir,
skaptir sèrhvers anda kraptar,
þínu dropar eru einir
af grunnlausu maktar hafi.

Til veralda sá eg seilast,
sèr ókendra gýrugar hendur;
þitt hæsta nafn var hædt og lastað
hafs fyrir eldum Mógols veldi.

Ógn það skyni mjög var mínu
megn; en þú, sem allt sèr gegnum,
skeða hluti gjörir góða
með guðdóms sýn og ráðum þínum.

Ræður þú, svo lestir leiðir
líka þjóna þínum tróni,
og djúp-hulin undarliga,
erindi reka þinnar speki;
veldur þú, í öðrum öldum
opna gladdar dýrðar raddir
sömu spil, sem hèr í heimi
harmar áður lykta náðu.

Það er forsjón þín, sem óðar
þvínga náir tilhneigíngar,
þú ei drepur þær, en hlaupi
þeirra snýr og orku stýrir;
sverð týranna, menn sem myrða,
máske gjöri' hvað þú kjörir;
það má ske, en þetta síðar
þín eilífð að fullu sýnir.

Mun, þó tryllist árar allir,
ör skynsemin loksins nema,
að þín speki, er öllu ræður
æskiliga, sè full af gæzku;
önd, sú hèr af ánauð stundi,
ofar mun þín fótspor lofa,
þína hönd nær þar fær sèna
þjóðin grimm, sem jós út blóði.

Mun þá geymast öldum einum
eilífðarinnar, forsjón þinni

prísverðugasti! hátt að hrósa
hæðum á með tignar kvæðum?
Nei, því Unn og stormar stinnir,
stýri og segl á Ránar-dýrum,
söfnuði þínum yrkis-efni
ærin hèr í lífi færa.

Hverr fá litið skyldi skútu,
skapari vís! og þig ei prísa?
er ei þína forsjón fyrir
fastur nagli hverr einasta?
munu ei gjört það höfuð hafa,
hendur þínar, fyrst sem kenndi,
strauma-jór með stýri temja,
storma kast með segli' og mastri?

Þú, sem hefir að leyndra lásum
lykil náttúrunnar vika,
uppljúkandi, þèr nær þykir
þèna, dyrum fyrr ósènum;
þú! aðgreind sem lönd frá löndum
lètst með flóðum, hafi, móðum;
leið tilbjóst og einnig áður,
enginn þar sem hafði gengið.

Sundurdeild í fleiri foldir
fold var sú, er vær á búum,
hver stóð ey, sem veröld væri,
vatns- með -hyl frá öðrum skilin;
fólk að kynnast fleiri mönnum
fýsti mjög, en bægði lögur;
ósk við hætta móðu mátti
mörg svobúin aptur snúa.

Beinar strax við hendíng þína,
bif eru leiðir sèrhvert yfir;
Fornjóts sonar fæst að láni
fylgi sterkt, svo troðast hylgjur.
Ferðast menn til framandi jarða
í frænda leit og hittast teitir;
þaraf sèst, að þú ert fleiri
þjóða guð, enn Norður-slóða.

Hinum birtist heims í pörtum
hátign þín í sama máta,
þitt almætti þar sig vottar
þrátt á skepnum ólíks háttar,
eikum, grösum, öðrum líka
undarligum dýr-tegundum,
enn sem hönd þín, Allsvaldandi!
oss í kríngum lætur tíngast.

Hvað örlát þín hönd úthýtir,
hlunnindum af náttúrunni?
ei að eins hvað þörfin þráir,
þú sælgætið eins tillætur,
sjást því yfir salt hið eystra,
sáðar flytjast Indía-nytjar;
sól-bakaðri varma vekur
vín af lóð í kaldra blóði.

Sjá skaut opið drafnar djúpa!
dýf þèr hress, minn andi! þessar
öldur undir frjófgun fylldar!
framseg grannt, hverr þar nam planta
feikna veröld, fulla' af táknum,
forundrandi Drottins handa,

líka bauð og sagði: "sækið,
synir, híngað auðlegðina!"
Hverr sá mundi, er hvatan kenndi
hval að elta' um jarðar belti,
þann með skutli þó svo litlum
þori menn á hólm að skora?
Hverr var sá, er heims til þarfa
hefir leyft, að skyldi vefast
stóran síldar fyrir fjölda
fánga-stýja' af hampi nýjum?
Þú, sem fyllir haf og háfan
himna kór, ó Jöfur stóri!
einn sem hlutum öllum stjórnar,
ótæmanligu herradæmi!
þú ert reyndar einn sá andi
afl og speki hvaðan er tekið;
fèlag, siglíng, íþrótt alin,
auður, fæða og sèrhver gæði.
Sèrhvert ár, ó Drottinn dýri!
dagur, stund og hver sekúnda,
mengi bæði og mál-leysínga
mest áfýsa, þig að prísi.
Það er þín lyst og ást, að æðstri
ávallt sèrhvað farsæld nái;
skikkan slík ef skeður ekki
skynug sál er verri' enn hinar.
Hví má voga — blygðun bljúga
brýnir þraung og eptirlaungun! —
Hátign frægust! hví má voga
hræddur andi fold-byggjanda,

nýliga skilinn flokk við fúlan,
flekkun heims og girnda hlekki,
þér auðmýktar fórn að færa
fróma' í þínum helgidómi?

Burt, þú sollur illrar artar,
önn og störfin heims óþörfu!
sabbats-hvíld því sál mín heldur,
sè hún lukt í kyrrðar veum!
mjög ákafar hulins hugar
híngað safnist forlengíngar!
yður ástar beint að brjósti,
breiðast viður opnar leiðir.

Lypt, himneskrar handar kraptur!
hugar óskum vanmáttugum,
mest sem nú í mæddu brjósti
mínu flögta, að hjarta þínu!
Engla jöfur, æ sem lifir!
einir hrökkva til að slökkva
bruna þorsta bitran, þínir
blessana straumar, fjölda þessum.

Þjóðir tvær eg lít á láði,
lyndis kátar, það sem játa,
að af gróða frjófs og friðar
fóstur þiggi ríkum brjóstum.
Öld, búandi sal við síldar,
sig með blessun allvel þessi
þinni, guð! og fleiri feðir,
að fylltri þörf og afgángs-körfum.

Hjartans takmark hèr er snortið;
hvergi læt eg þínar fætur

fyrr, enn viður þessar þjóðir
þig hefir undir sáttmál bundið.
þeirra guð að viljir vera,
verndarstaður, hlífð og faðir,
þú mátt — þú skalt — af þrótt aðþreyttur
þessum hjartans innstu parta.

Láttu ást og dygðir, Drottinn!
dróttar lyndi samanbinda;
lát rèttindi' og sannar sættir
senn að fylgja málum hennar.
Nær hún hyggst að neyta byrjar,
nær sem hvílir Ránar fýla,
hamíngju fylkíng heillasömust,
haggist ei frá þeirra flaggi.

En, hvers muntu sóma að sönnu
synja mega þessu kyni?
hverju jöfur gjörðir gefa
glíkrar artar þínu hjarta.
*Hann þú blessa!* — manns hverr munnur,
með hástöfum undir kveður,
ótal þúsund undirsáta
andvarp mitt sèr viður blanda.

Tjá hans spíru tign allskæra,
tögnan þó ei flærðar-ljóma,
hvern veröldin hinum fórnar
hofmóðs tiggjum, þeim er byggja
sèr til æru minnis-múra,
múg af slegnum eigin þegna,
fremd er opt og frægðir keyptar
fá með blóði sinnar þjóðar.

Fyrir þèr gef að helzt sè hari
hár, en engu smjaður-pári;
stór fyrir dygð, svo verðugt væri
að vari skráð á hans marmara:
Friðar stjórnan *Friðrik* góða
*Fimta* á jörðu stóran gjörði,
stærra mild hans vizka veldi
vann, enn brandur hreystimanna!

Þeim ráðandi drottinn, dómi!
dáð er blóðs fær ein afmáðan:
geystur æða geirr ef neyðist
gegn ofríkis flokki megnum,
fullhugaða *Friðriks* öllu
*Friðriks* skapa sál í liði,
unn að sjáist, hans að henni
hetjur góðar vel sambjóði.

Mèr kom raust að mínum hlustum,
mun sú huga þinn fá hugað,
fagnaðar-ljúfan hýrar hófu
hróður sálir minnar þjóðar.
Allar bænheyr andvarpanir,
englum duldar, himna þengill!
bænheyr raddar minnar mæddu
mál, minn styrkur, guð og sálmur!

## 1. SÁ EINASTI GUÐ.

Snúið úr Baggesens kvæðum (*Den eneste Gud*, í Jens Baggesens *samtlige Værker*, fyrsta Bindi, Kaupmannahöfn 1801. 8, bls. 3—12). Hèr eru þrjú handrit hagnýtt, ásamt enu danska frumriti.

Gyðjur ljóða! gætið þagnar allar!
Grikklands tónar, rómversk bergmál há,
máttlaus fyrir mínum saung! gjörvallar
marg-þúsundir lífs! það hlustið á:
helguð guði harpa mín sem kveður;
hamars stormur, brim og reið sè meður!
himin, klettur, haf og frónið allt
hljóminn auki klifaðan þrefalt!

*Frár* sem stormur, *brýnn* sem brimhljóð Uðar[1]),
braukmiklum líkt skruggu dunum *hár*,
*ljúfur* blómstur-lækjar jafnt og suða,
sem lerkans glaði morgunsaungur *klár*,
*ástúðligur* einsog biðji móðir,
*aktverðugur* líkt sem faðir bjóði,
duni' hann fyrir duptsbarna söfnuð
í dansi heillar náttúrunnar; guð!

Guð! — en titra grannir eigi strengir?
gala vogar ormur dupts af þèr?
skjálfa þó ei skógar, björk og engi,
skelfur ei öll náttúran með mèr?

[1]) *Uður*, þ. e. unnar, sjáfarins.

vogar skepna veikust, túngu-lama,
í verka þinna faðmi þig að stama?
dirfist sál að draga' af foldu sig
drottinn! til þíns skugga', að nefna þig?

Kerúb frá, til kvika skriðmors niður,
er kynsaldur sinn lyktar svipstund á,
himinhvolfs og hismis minnsta smiður!
hávalds "*verði*" þíns er sèrhvað frá;
Serafs er, hjá sjálfs þíns glæstum stóli,
sú ættgöfgi jafnt sem maurs í skjóli,
himinsins í öldum eilífðar,
og orms í tíð, sem honum skömtuð var.

Hádags- æ þèr -hnöttur snýst til æru
hans eilífan segulstein um kríng,
allra sóla ótal flokkar skæru
alveldisins dans þar leika' í hríng;
yfir, kríngum, undir neitt ei þegir,
allt hið sama, mátt alvaldan segir,
æ-umskiptum allt með samsaungs róm
útbásúnar, guð! í sama hljóm.

Bráðviðris í bil og vestan gusti,
brostnum skýjum frá í daufum són,
nið í snjóflóðs, nýstra laufa dusti,
næturgalans kvaki, lerkans tón,
ærslum sævar í og lækjar tauti,
umgirtur sem rennur lundar skauti,
ys býflugna, þys sem murrar mý,
mig eins kríngum nafn þitt hljómar í.

Ó! hví svo þá úngar skjálfa raddir?
yðar hví titra, veiku strengir! hljóð?

mitt í skærum gjörvalls saungum gladdir
galið yðar barnahjals kvak-óð!
lystug Kerúbs ljóð og reiðar skriðu,
lækjar millum og Óríons[1] kviðu,
orms við murr og blaktanda við blað
blandist óður, sem mín harpa kvað!

Bergmál! svara: hoga þinn hverr renndi
bústað hvers í innstu hvelfíng átt?
herm, þrumuský! hverr þèr ógna kenndi
hræddri jörð með óskapnaðar nátt?
hverr þèr skipar, skírr náttgali! að fylla
skógar-húm með saung, er lífi dillar?
herm þú sunna! hverr þig gylla bað
hróðrar efnið gjörvallt, sem eg kvað?

Þaut við bergmál þrefalt, sunnu lægir,
þrumu-ský í suðurs heiði brá;
næturgalinn sýngur, sólin fægir
sökkvandi það pláz, er starði'eg á.
Bergmáls hljóð og bjalla næturgala,
birta sólar ný með reið-skarkala,
andsvar mèr og öllum sameinuð
inntu dalnum háttfagnandi: guð!

Helgur! Helgur! Helgur! sál titraði,
hjartað skalf í uppheims vellystíng,
dýrð almættis döggvar önd sem baði,
dansar brjóstið gæzku sæld um kríng.
Helgur! Helgur! sælugeislar góðir

---

[1]) Óríon er ein hin fegursta stjörnumynd á norðurhimninum, og er kölluð eptir griskum kappa í fornöld.

glæddu tilfinníng í vara hljóði;
Heilagur! en hjal, sem stama þær,
hjaðna lætur fögnuður einskær.
  Þegir allt, en þó nam meira tala,
þá í kyrrð, enn reiðar hávart arg,
meir enn saungvar mjúkir næturgala,
meir enn kvæði við ið hola hjarg;
foldin gjörvöll framkraup tilbiðjandi,
fall með sólu hljúgur þú, minn andi!
sveipuð skýlu breiðir nótt út nið
niðri byrg þinn munað, og tilbið!
  Helgur! Helgur! Helgur! — en hverr tónar
Helgur þrisvarsinnum yfir mèr?
þrámælt hljóð, sem þúsund milliónа
þrámælt gleðihróp við blanda sèr;
unaðs kór, svo eyrað þarvið gleymir
unnar, lopts og jarðar róm-samstreymi;
engilskærra uppheims radda mergð
yfrið háleit! hvar ertú á ferð?
  Þríheilagur! þrenn sè dýrð og æra
þeim frá eilífð hlífur, er og var,
þökk tilbeðnum þú skalt, eilífð! færa,
þeim sem fjær og nær er allstaðar!
himna kveðið himnar allir saman
háfagnaðar saung á eining taman:
vora fjöld hvers *"verði"* af engu skóp
vèr alls föður prísum þann í hóp.
  Himinrúms um hríng án enda þenna
hans upptökum frá til eilífðar
tendrast, slokna, tindra, loga, brenna

til hans dýrðar vorar kyndíngar;
hvirflist allra himna logar saman!
í hafi samlags elda gjörið framan
heiður þess, sem himins öllum gaf
hvelum glampa, skugga sínum af.

Þèr, miðnöttur! þeim æ vend til æru
þinn eilífa segulstein um kríng!
allra hvela ótal flokkar skæru
umhverfis þig lofi hans tign í hríng!
einvaldsherrans undir gelli stóli
allrasaman skaptra hnatta sólir!
hvert ítreki himinskaut þann kór:
hann er góður, eilífur og stór!

Hverr er eg, sem heita þig áforma?
hinn ónefnanligi! Stóri Þú!
moldin eg, hvers makt er dugur orma,
mín er gjörvöll eilífð, lítið nú!
eg, hvers sjón í eldum ljóssins glæstum
er í djúp frá tróni fèllu hæstum
af ótal þúsund einn sèr neista bert,
eg, gjörvöllu þínu hjá, ekkert.

Ó! en það mín augu og hugsun veika
í orðastami skjálfa við eg finn
mèr í hjarta, megnu klappi leika
minn eilífi drottinn! kærleik þinn;
og þótt hèr minn andi sèr ei renni
upp að hríngnum, sem þig viðurkennir,
vængi dygðar víst þú, hjarta! fær
vegsmarkinu til að komast nær.

Fleygst með heilum flokk af ljósum þennan
festíng svimhá! niður, grúa mèr
fold á vorri furðuverka hennar
fyrir þína dýrð öll speigilgler!
myl það gjörvallt! mèr lát eyði banna
meir að líta jafnvel stráið granna,
Vanín' [1] í hvers vefnaði, þá dó,
verka merki guðdómsins sá þó.

Tíu dauðar, takmarkalaus sorti,
tómt af öllu gap umkríngi mig!
ein auðn meðal ótal fylltra skorti,
ein í þúsund nótt kollhlaupi sig!
allt frá sjónum hálfsprúngnum mèr hopi:
hafs síðasti minnstu lindar dropi!
seinust glæta síum himins frá!
sjálfan mig, það nægir mèr, eg á.

## 2. Á STJÖRNUSKÍRRI NÓTTU.

Eptir *C. A. Lund* (*efterladte Digte*, Kh. 1836. bls. 95—99). Hèr eru þrjú handrit hagnýtt.

Nóttin ríkir, næturskugga vafin
nú öll hvílist jarðar skilmíng ær;
austur-ránar yfir bylgjum hafin

[1]) Júlíus Sesar Vanína var ættaður úr Neapólisborg; hann var lærður maður, en var sakaður fyrir guðsafneitun og brenndur í *Toulouse* á Frakklandi 1699.

frá ítrum himni, Kyntía[1]! þú hlær.
Þitt, Óríon! þaðra leyptrar belti,
þèr fram undir tímans flóð sèr veltir,
en þú glansar glatt sem fyrsta sinn,
gall herskrúði meðal knatta þinn.

Allt þar varir, allt sífastri lýtur
Aðalráðar vísri skipun æ,
hendíng nokkur hennar verk ei brýtur
hvergi skeikar neitt nè fer á glæ;
kann þar ekkert krónu skini brjála,
kraptur enginn jafnvigt metaskála;
gelur harpan góðs skapara prís:
guð náttúru' er allrar stór og vís.

Þú, sem finnur fegurð, skraut og orðu,
fær til knatta samsaungs hljóða þín!
finn, að speki fyrir ræður storðu,
fegurð líttu þá, sem hún í skín,
þrumu dunur, þytur kvöldvindanna,
þulur lækja, brimrödd ægishranna,
allt að skipun orðu vísri fer,
allt samhrópar: guð er líka hèr.

Þú, sem skynjar skraut umfram og orðu
skyldu-kall, og verð sem dygðin ber!
þú, sem veizt að vettur hèr á storðu
vænt og stórt, sem sálar fegurð er!
ó! hví skal þín umkvörtun sèr þrengja
allra knatta hljóm yfir gleði-strengja?

---

[1]) Kyntía, Díana eða Selene, þ. e. túnglið.

allt nær sitt, um orðu veg, á mið;
"ekki dygðin!" stynur þú hèr við.
"Ýmist trampar óður stríðsher niður
"ánægjunnar heilan ríkdóm þar,
"ýmist blóðgir alast sveita viður
"ánauðugra þræla týrannar;
"en, ó! sjá, hve sínu berst í blóði
"og bræðra glaður deyr fyrir heill enn góði!
"þó fær löstur spilltan dreyra spjað
"sparkandi sá minníng hans fóttrað."
"Byrg, Óríon, blossa þína dökkur!
"brosi jörð ei, Kyntía, vend á!
"hjálparlaus í hörmúng dygð ef sökkur
"hvað er alls ens skapta prýði þá?"
"heyr! hve klögun hljómar alla vega!
"heit sjá tárin streyma biturlega!
"kæti-vinur! kenn þíns bróðurs neyð!
"kenn sjálft lífið tíufaldan deyð!"
Hverr ertú, sem hæstu dýrð frá tróna
híngað á berst purpuraskær lín?
um þinn hvirfil eilífðar króna
í ásjón þinni himins sæla skín!
mái ljós þitt, mildi vonar andi,
myrkrin burt á jörð oss umkríngjandi!
styrð mín augu styrk þú himni frá!
stig eilífrar gæzku kenn mèr sjá!
Fortjald tímans frá þú náir draga,
fyrir þèr veltast eilífðir í sjón,
duptið verður dumbi nú að klaga,
deyr síðastur ósamróma tón;

hefjast nýjir hreinir saungvar líkir
harðla stóru' ens óskapta frá ríki;
sterk raust alls er stillt og samtempruð
stór er dygðar-faðir, anda-guð.

Ó! fyrir gýg það gat ei skeð að tækir,
góði Sókrates, við bana skál!
ei forgefins andlátið þú sækir
eðallyndi Húss, í skálka bál!
ykkar harða stríð til sannleiks sóma
síst mun skeð án ráðs í spillíng tóma,
hlekkjaglamrið hèr og dauða stun
að hásaung þar og gleði verða mun.

Ófullsèn má öll spil jarðar greina,
ógn og vafi gáng vorn kríngum stá,
mikla vonin eilífðar sú eina
ofan sendir ljós í dymmu þá,
þar algjörist allt, og án að skeika
allt þar leiðir til fullkomligleika,
allt sameinar sig til allsherjar
sigurhróss og gleðiradda þar.

Hlæ, Kyntía, hýr með tvöfalt yndi,
hátt vitnandi þíns skapara prís!
þyl, Óríon, þínum í hvirfilvindi
það: náttúru guð sè stór og vís!
nátt-kyrrleikinn, næturgalans tónar,
niður storms á meðal skógar króna,
jafnvel ljóð, sem lèk mín harpa veik,
líka vitna, guð! um þinn kærleik.

## 3. FRÍÞEINKJARINN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Der Freigeist* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, II, bls. 45). Eptir fjórum handritum.

Heiðrendur dygðar! heyrið mèr,
hana sem stundið þrátt,
sem skynseminnar skipanir
og skriptar virðið hátt!
fríþeinkjaranum fullnóg er
fyrir það innan kátt,
að því sem honum þykir þèr
þrælbundnir, hlær hann dátt.

Hann spyr: "hvað dregur þartil þig?
það er víst ánægjan! —
er möguligt að sjálfan sig
svo geti prettað mann?
svo gjörist æfin gleðilig
gleði sig firra vann?
leitandi hvíldar, lúa slig
leggur sig undir hann.

Þèr hatið það sem hafið kært
en hatað elski þèr!
er nokkri skynsemd yður tært?
ó nei! það tvílum vèr;
að vilja finna frelsi skært
á ferli dygðar, er
sem láti hapt á fætur fært,
sá frjáls vill gánga, sèr.

Hjátrúarinnar nætur-nið,
sem níðir yðar vit,

að komast gegnum keppist við!
kostar það minna slit;
fylgið náttúru, fengið lið
færið yður í nyt!
engu, nema sem ákjósið,
að leggið hug nè strit!

Ei heldur varnið yður neins
annars, enn hug er leitt;
þánkinn sè frjáls, og athöfn eins
æ honum fylgi greitt!
dára, sem afla mönnum meins,
metið sem ekki neitt!
fólk af alþýðu fullri kveins
flest er um hauður breitt.

Þèr í burtu frá þeirri sveit
þig lausan slíta ber;
sú mörgu trúir, sem hún veit
sjálf ekki þó hvað er;
það sem náttúran heimtar heit
hún meinar bannað sèr,
af miltissýki lítt hún leit
að lukku hjá sneiðir.

Því ef hún sæi' og þekkti slíkt
þá mundi' hún allrasízt
viltrar hjátrúar veldi ríkt
vera svo undir níst;
mín stuttu fræði, minnur ýkt,
meðtakið þessi víst!
trúnni, sem margir tíðka likt,
til fulls út látið lýst!

Af tómri leti trúir þjóð,
treg að rannsaka neitt,
en hygginn maður hiklaust óð
hyl sannleiks vítt og breitt.
Hvað er ritníngin? hversu góð
hún lætur fræði veitt? —
sorgarfullt líf af sárum móð
og súrum þrautum feitt.

Og gátu, sem ei getum vèr
grundað nè ráðið í,
skynsemin gengin ef ei er
öldúngis fyrir bí.
Hvað er samvizkan? segið mèr!
sem gjörir margan þý:
ímyndar hlutur eitthvað sèr,
uppfóstrið sáir því.

Hún er arfleifðar heilagt fè
huglausra fast við ætt,
þó viti þessir vel hvað sè
það verður af þeim rædt;
samvizku kraptur hylst í hlè,
hans er ei á þeim gætt,
það sem hún lætur þeim í tè
þykir oss ódýrmætt.

Fylgið náttúru ferli! sjá
hve frekt hún kallar hèr!
hvað mun hún annað heimta þá
enn hlýða skulum vèr?
óttinn rèttar- og skyldu-skrá
skrifaði', og tók hjá sèr,

helvíti skóp og himin sá,
honum slíkt eigna ber.
En-setjið skynsemd í hans stað!
athugið þá hvað sèst!
mun helvíti' eða himin það
hjalsmíði kvenna mest?
ónei! vèr sjáum allt annað,
unnum heiminum hezt
þvættíngsins, sem hann þuldi' og kvað,
það er barnæði verst.
Það sem ró gefur helzt og hægð
hvers eins er lögmál rètt,
hjátrú engin nè hugar-bægð
hèr inní skyldi sett;
sá hinn skynsami nær þar nægð
og nýtur hennar lètt,
að trúa meiru varla vægð
virðir hann, heldur prett". —
Svo fallegt var það fræða' upphaf
sem fríþeinkjarinn óf,
og hvar hann setti saman af
sitt lærdóms valta hróf,
meðan vakandi sjálfur svaf
síns í munaðar gróf;
frá tróni dygð hann keyrði' á kaf,
en klæki þángað hóf.
Skapara síns og skynsemdar
skimpaði' hann boðum að,
hans lastafulla hjarta var
honum í þeirra stað;

að þeim, sem kvöl á krossi bar
kannandi dauðans bað,
gífurligt háð og skimp hann skar
skemtan hans opt var það.

Nú kom um síðir nástund hans —
næsta mjög honum brá,
sá aldrei fyrr í dára dans
dirfsku fann bilbug á;
við ásýnd nálægs æfi-banns
af ótta titrar þá,
hugur og dugur broka manns
bristist sem annað strá.

Eilífðarinnar skelfíng skæð,
skiptin sem boðar sú —
dómarinn guð á himna hæð,
honum bölvandi nú —
afgrunns heldýptin ei fjærstæð,
uppsperrt fyrir sitt hjú —:
allt gjörði rofspell ótvíræð
á hans fífldirfsku trú.

Og hann, sem kenníng hárri með,
heims í gegn allri þjóð,
hafandi þor og harðfengt geð,
híngað til karskur stóð,
þolinmóð. eyru lèt nú lèð
lærdómi þeim, er fljóð
þá fyrir honum ræða rèð
um rètta trúar slóð.

Ýngismær, sem hans andláts flet
uppreiddi fróm og þekk,

sú þúsundsinnum þartil hèt
"þú kristna dýr!" hjá rekk,
manninum nú, því minna lèt,
mótsagt og umvent fèkk —
svo traust er leið við feigðar flet
sem fríþeinkjarinn gekk.

## 4. FARSÆLD HEIMSKÍNGJANNA.

Snúið eptir B. W. Luxdorphs "*Tossernes Lyksalighed*" i *Forsög i de skjönne Videnskaber, 2 St.*, *Sorö* 1764. 8, bls. 179—189. Eptir fjórum handritum.

— — Prætulerim, delirus inersque videri
dum mea delectent mala me vel denique fallant
quam sapere' et ringi [1] —
*Hor. Serm. IV, 2, v. 182.*

"Kauptu vísdóm og kynníng"! skráð
kennir Salómon það;
slíkt ens hávitra ræsis ráð
reglu nú gjört er að;
frètt allra lærðra flokk um láð!
fljótt mun þèr andsvarað:
"kaup fyrir guðs skuld kosta dáð!
"kaup hiklaust nú í stað!"

[1]) þ. e. Heldur vilda eg sýnast vitlaust dauðyfli, ef mèr þætti annaðhvort vænt um ókost minn eða vissi ekki af honum, heldurenn eg vildi vera spekíngur með hugarvíli.

En ef vísdómur sjálfur sá
svar gæfi fylgislaust,
uggir mig, kaups að eggjan þá
ônýtti forboðs raust:
"kauptu mig ekki! því að þrá
"það jyki meir enn traust,
"og fyrir heimsku, svo tilsjá,
"seljir mig strax, ef hlauzt!"

Veit eg, atkvæði virðast þaug
vitrum, sem orðtak ljótt,
heimskuna þeir er heita draug
og heimeyðandi sótt,
en sæi þeir dárans happahaug
hún nefudist betur skjótt,
yrði þá ljóst, að aula spaug
arð ber og dýrðar gnótt.

Já! sá með umsvif hugar-heit
hitta vill meðal það,
velferli 'er honum virta-neyt
veitt fær og margfaldað,
fara skal heimsku fast á leit,
fæst þá hvað stefnt er að,
en vizkan hinn af vegi sleit
og villti frá þeim stað.

Heimskan spikuð, með hressan góm
og hávart gleði-bull,
mettast á því, sem magatóm
mat vizkan óætt sull;
nær finnur þessi fátækdóm,
því foldar hreinsar gull,

tekur hin allteins gjald og gróm
svo glymur pýngjan full.
Sá vitrum fellur vel í geð
vottast í heimi fár,
en hartnær öllum hylli tèð
heimskíngjans opin stár;
vís maður forakt við sig skeð
virðir sem banasár,
en glóp er mesta gamanið
gjörvallrar jarðar dár.
Já! inná heimskan æran þrátt
óboðin treður sèr,
þá fyrir hana fróður mátt
forgefins úttæmir,
og sá, sem óttast aðrir hátt,
ótta sífeldan ber,
hinn stendur tryggt, sem staur í gátt,
styggð það ei neinum er.
Varus [1] má Stórax fæðu fá
fyrst narri sá er hans,
við hofið orði hvekktur á
höfðínginn fèll í stans;
neins rèttar ekki neyta má
nú, vegna gleði-banns;
stríðmettur borði stóð upp frá
Stórax með narra-dans.
Sinnir ei Krispa samkvæmis
sæld, fyrir leiða' og þrá,

---

[1]) þessi nöfn eru smíðuð af skáldinu sjálfu.

herma eptir og henda' að gis
ef hún ei Rúfu má,
en Rúfa glöð fer meins á mis
og mundi' ei trúað fá:
að hún í hendi bæri blys
sem borði stendur á.
Júst gat með höfði sínu sèr
svo lypt í tigninni,
að honum einmitt hliðra ber
við herra Korts parruki,
kyrrt, Jústs á lopt ef kollur fer,
Korts parruk hygg eg sè,
því svo háskaligt það ei er
sem þessi Jústs heili.
Hyggins líf því á hver sem met
heimskíngjans mót legg eg,
aldregi sèð þó annað get
enn að farsælli mjög
öll hins síðara sèu fet,
og sexfalt tryggileg,
ef kjörum beggja að öðru lèt
eins háttað lukkan veg.
Hvort mið, vísdómur! þá er þitt,
þín not og endalykt?
"að eðli dygðar, ekta' og hitt,
"aðgreinist, falskt og tryggt;
"að maður læri sinni sitt
"að setja' í jafna vigt,
"og feti dygðar för einmitt
"hvort fellur vel eða styggt."

Eru not vitsins þessi, þá
því ber að skammast sín
nær hægri og betri hlut þeim á
heimskunnar verkan skín?
annað af tvennu: heimsku hjá
hærri met settu þín!
eða viðurkenn: vís er sá
sem veit ei meir enn svín!

Hvað fremja skal sá feikna her?
frèttur var Pyrrhus að;
"með honum ætlum vinna vèr
"Valland og Róma stað!" —
"hvað meira?" — "Sikiley þá er
"uppnæm!" — "og síðan hvað?"
"Kartagó hernað blóðgan ber
"þyr fyrsti' er gefst þángað."

"Sjálfskilið er, þó sè ei tjáð,
"sízt muni þarvið hætt,
"Egipta- strax og Libýu-láð
"láta sèr við oss bætt;
"með æðstu sigurs yfirráð
"allt fáum kríngum þrædt,
"uns ferð vor lyktar, heiðri háð,
"þar hófst, sem nú er rædt."

Ansast: "hèr varðar ei um það!
"alleina spyr eg nú
"hvað síðan skulum hafast að
"nær háð er iðja sú?
"sjá skalt þá mega, sjóli kvað,
"Sýneas kæri! þú,

"með hoppi, dansi og hlátri hvað
"hossar oss gleðin trú."
"Að hlæja, stökkva og halda dans",
hinn spyrr, "hverr bannar þèr,
"svo fold alla til friðarbanns
"fyrir það uppæsir?
"hvað skal slíkt fyrir munað manns
"mein-hark og styrjaldir,
"fyrst nær sem villt að njóta hans
"í náðum unnt er þèr?"
Svo er um hátt því varið vit:
vèr megum finna' og sjá,
hversu það kostar starf og strit
stórkostligt því að ná,
hve tilsöfn heimta tíðarslit
torveld, stað hverjum á,
gömul saman að raka rit
og reynslu nýja fá;
Sjálfs yfirheyrsla sín, hvað er
serhverjum ógeðþekk,
og bágt afvöndum aptur sèr
agns þess að forða smekk,
sem áður prófa verðum vèr,
en vel hverr skilið fèkk
að lángtum minni bata ber
enn blóm í augun gekk.
Og loks, þá hèr með ósæmd fróð
orðin, en skaða þar,
af náð frú Vizka' er oss svo góð
að opna sjónirnar,

hvað er þá lært? hvað sèst í sjóð
er sveiti og strit að bar?
Hvers gat Sókrates um sinn óð?[1] —
"eg veit: eg þekki' ei par."

Heimsnúnir lendum vèr þá við,
og veitum þökk fyrir næst,
hvað áður vissum — heimsku mið,
en hefðum, striti fjærst,
allrabezt sparað ómakið
sem ekkert gagn af fæst;
já! sè ei reynslan skaða skrið
skeð er nýlunda stærst.

Náttúra' og fæðíng nokkuð hèr
ná heimskum kenna víst,
(þarfur sannleikur engum er
offagur, þó sè lýst):
hann veit, að guð sèr heiðra ber,
halda sem landsbraut snýst,
og skil þau tjá sem skylt á hverr, —
skynjum vèr meira? — síst!

Jú! hald til góða! miklu meir,
margt skynjum vèr þarhjá
(ei vèr heimskíngjar, heldur þeir
hyggnir sem bækur má);
lypt mèr upp, tíngl! og lát mig, heyr!
lærdóms vit þeirra sjá!
en samt mig ekki svo hátt keyr
af svim' að falli þá.

---

[1]) *óður*, skynsemi.

Einn getur sagt oss efni það
af gjörð er heims byggíng,
og hvernig sköpun hans fór að
hins kennir vizka slíng:
að bæði vèr og eitt sèrhvað,
er alheim sèst um kríng,
sè næturgabb, ei neitt annað
nema fölsk innbirlíng.

Einn getur þaunkum málað með
meginhreint sálar borð,
hinn öpum skóla reisa rèð
þar ræður læri' og orð,
kráku-mál þriðji kann, og fèð
kvikt sem talar um storð,
fjórði gat allt, sem fær hann skeð,
fyrir sagt lífs á sporð.

Gull þessi veit að gjöra, og hinn
í glasi mynda kann
sólmori' og ösku samspunnin
sèr börn, já tvíburann;
einn lætur spila sýnast sinn
saltara hljóðlausan,
af litum geisla líkt fáinn
leik dags hvar augað fann.

Öll dygð sè fölsk, en engin hrein,
einn gjörir fyrir skil;
af þeim vitshetjum þó er ein,
þá æðsta prísa vil,
er svosem dýran eðalstein
upp gróf úr vísdóms hyl:

að engin ills og góðs sè grein
og guð ei nokkurr til.
Verndi mig guð! eg veit hann er, —
sè vísdóms kjarni sá,
kýs eg einfeldni megi mèr
minn heila vaktað fá! —
nei! slíkt er ekki nema her
nyt fiflsku, svarast þá;
vilji menn hlaupa villausir,
er vísdóms skuld þar á?
Ske má hann eigi þar í þátt,
þekkirðu hvílíkan?
viðblandað heimsku vit, þó smátt,
víst gjörir dára mann;
nær grannt er meingað gult og blátt
grænt þaraf saman rann,
sem hvorugt er, en sinn á hátt
samt eignast báðum kann.
Má fullvel sjóða málmur kyrr
í móti steypíngar,
en mylsnu sands ef í hellir
eða vatnsdropa þar
sandur og mót í svip upp þyr,
sèst þar ei eptir par,
mun skuldin vera málms? eg spyr;
móti því Holzmann[1] bar.
Einfaldi Kláus opnar brár,
upp rís og klæðist skjótt,

[1]) *Holzmann*, merkiligur myndasmiður og málari á þýzkalandi á 18du öld.

hyggur að veðri, hèrnæst gár
í hús og matast ótt,
hefur sig út og heim til krár,
háttar og sefur nótt,
og vildi meðan veröld stár
við þetta lifa rótt.

Hvað mundi verka hèr í skvett? —
hálfmörk af vísdómi? —
það yrði stappa ráðlaus rètt
af römmum hræríngi,
hrunamauk, sem með hraki slètt
brýzt upp úr suðunni
einsog þurt hrís í eldinn sett
eða vott brennutrè.

Inntökur slíkar eg gef tvær,
ólgan mun sefast brátt! —
en von og ótta víst hann fær
viðbjóð, lyst, grilluslátt
viðlíkt og finna veikur nær,
en veit ei hvar, sèr dátt,
hans allstaðar sem hryminn slær
er honum ekki kátt.

Hættu nú, og þig vara við
að veitir honum meir,
því annars kann þitt ofmikið
orsaka, það hann deyr,
og hann, fallinn á Enskra sið,
upp heingi sig sem þeir,
því líkt sèr æ svo leið með snið
lífs hans enn jafni reir.

Nú vel! hvað sýnist þarum þèr? —
þú lætur móti sett,
að utanvið og hvarfli hèr
en hitti' ei miðið rètt;
því milli þess sem óvís er
og ærr, sè meðalstètt,
hvar leita skulum vísdóms vèr
og vísdóm finna lètt.

Rótfest á kærleik heill er hans
og helgri rèttvísi
samvizka góð, til sama bands
svarin, þau byggir ve;
umbunin er hans eiginn krans,
innvortis velgengni,
það sæta logn í sinni manns
af sál rètt ánægðri.

Já! gengi þannig, vinur! vèr
værum sem englar þá,
ef góðs og viturs auknöfn hèr
æ ræffust sama hjá,
ef vonzku jafnt og heimsku hver
hægliga mætti sjá;
ó! heilla tryggvar hagsældir! —
en, hlýð nú svar mitt á!

Af þekkíng smekkur fæðist fyrst,
fýsnina smekkur ól,
hún af freistíngum hundrað víst
um hverja getur sól;
ef vísdóms skortir vald og list
að vinna þau meintól,

hvar er vort meðalhóf? þá spyrst, —
hvar á samvizkan ból?

Ef vitrum hænum verður á
að verpa netlum í,
því meira vit sem manni er hjá
meiri brot teljast því;
geðsturlan meiri, geigur, þrá
gefst; og misþóknan ný,
í hverju fólgin er sú þá
umbun og rósemd hlý?

Eg stunda sjálfur vísdóm víst,
og viðurkenni það,
en með því fèkk minn heili hýst
hunn-mart, eg veit ei hvað;
hitt veit eg glöggt, og synja sízt,
sannliga þvílíkt að
mèr hefir sinni mörgu þrýst
í magnkalt svitabað.

Mín uppfyllíngar umsorgun
á því eg skyldast til;
vareygð, mig fyrir vondum grun
að verja lífs um bil;
lotníng, sem offrast upphrokun,
er þó forakta vil;
þökk, goldin svosem þæg umbun
því falsi, er eg skil.

Átumein það, sem orðháks bál
eitrar sitt hundsbit með;
órèttur, þann af engri sál
eg fæ varnaðan sèð;

stundum morgundags bræðslan hál,
hug minn forgefins skeð;
stundum lærdómur, laga mál,
lífs reglur, prestsdæmið.
Nú brauðs umhyggja býsna kná,
bústáng og svanni minn,
nú vísnagjörð þar ofaná
að fylla mælirinn;
guð veit, hvernig öll mergð sú má
í minn koll troðast inn!
heppinn Kláus! sem heimi frá
heila ber tóman þinn.

## 5. ÁNÆGJAN.

Snúið úr dönsku. Kvæði þetta er á dönsku kallað "*Nöjsomhed*", og er ort af enu alkunna norska skáldi *Wessel;* vann hann verðlaun fyrir það í enu svonefnda norska fèlagi 1775. Það er prentað meðal rita hans mörgum sinnum, t. a. m. í útgáfu Boya (1832) bls. 77—80. Hèr eru þrjú handrit hagnýtt.

— — — multa petentibus
desunt multa: bene est cui Deus obtulit
parca, quod satis est, manu.
*Hórat.*

þ. e.
Þeim, sem hafa mikla makt,
mikill opt er brestur
á flestu;
hinir, guð sem lèt tillagt
lítið nóg, og una spakt,
fá mætin mestu.[1]

HVERVETNA Damon! er hrópað af þèr:
"Hvar er sá góði[2] sem dygðinni ber?
þar fæðíngin alein, en framar ei neitt,
fær manni lukkuveg tilreidt.

Slempi-lukkunnar þá tilviljan tóm
telur út umbun og refsíngar-dóm
og hennar blind óvild með heiptarmegn sitt
hittir á sakleysið einmitt.

Hvað fyrir misgjörníng unnið hef eg,
í armóð og vesæld sem lífið fram dreg,

[1]) útleggíng sèra Jóns.

[2]) *góði*, þ. e. ábati, hlynnindi.

að sömu tilætlunar synjað var mèr
sem hinum öðrum þó veitt er:

Að njóta hèr maktar og fagnaðar fulls?
því fæddist eg ekki til Krösanna gulls?
munu með dygðunum hafa sèr háð
holla forlaganna þeir náð?

Fær nokkurr, áður enn fæðíng að bar,
framið og tamið sèr manndygðirnar?
hverr skapað gat mèr, áður skópst eg, ósnild
skapanna tapaða góðvild.

Hverr er sá glæpur, sem eg hafðist að,
áður enn neinn fèkk mín tilvera stað?
fyrir hvers sakir eg þörfuun og þraut,
þrældóm og forakt í straff hlaut?" —

Það straff er ei nema þín innbirlíng ein
undir hvers þúnga þú ber svo upp kvein,
jafna fèkkst lukkuna þú viður þá
sem þó leggur öfundar-dóm á.

Því serhverju standi var meðbýtt og mæld
mótlíka hlutdeild af ánauð og sæld,
og herrann að öfunda' af hag eða stètt
hefir ei þrællinn til neinn rètt.

En böli því gjarnan sem ei kremur oss
úr gjöra plögum vèr lèttvægan kross,
og lukkunnar happ, það er annarr fær allt,
í ofsjónum vorum er tvöfalt.

Allra stand metur hverr sælt, nema sitt;
sjálfs þíns hvað nú er, ef ei væri þitt,
allshugar hvervetna þú meður þrá
þess óska mundir að til ná.

En kosti þá jafnvel, sem krýna það bezt,
kallarðu plágur, og unir þeim verst,
og það sem þín farsældar undirrót er
yfir því barmarðu mest þèr.

Erviðið þrældóm og nægðina nauð
nefnirðu, jafnvel þó blessunar auð
gefi þær uppsprettur gjarnan af sèr,
gjörvallan, sem það í raun er.

Þú stynur sáran: að þín neyði kjör
þig til að leggja, svo viðhaldist fjör
með dagligu brauði, sem daglig er þörf,
dugnað og kostgæfni við störf.

Lær þó að skilja hvað skakkt þú nú fer!
skynjaðu betur hver farsæld þín er!
starfsemi' og hóf við ef stöðugur ert
sturla þig plágurnar ekkert,

Óhófið hverjar og iðjulaust mók
inn sèr til meltíngar hvort um sig tók,
já, heill þá, sem lífinu er hollust í raun,
hefðirðu' í mæðunnar verðlaun:

Hún gæfi sál þinni hressari móð,
hún fengi' af soranum klárað þitt blóð,
ró hún þig öruggri reifaði' á beð
reisti þig glaðan upp þar með;

Hún ein þèr kryddaði munntaman mat
mjög dýrir rèttir þótt ei kúfi fat,
svo mættir á honum þèr mettast í hag
með jafnri lystíngu hvern dag.

Geta þar stað nokkrar óheillir átt,
er þú nauð líður á svofeldan hátt?

og mundir þú, kjör ef þèr tilbyðust tvenn,
taka þann lakara kostinn:
Að sitja með velgjuna, kránkur um kvið,
kræsíngar margar og sælgæti við,
og nauðga því eitri til niðurgángs þar
sem neytandan drepur og mettar?
Fyrir það skæðust sem ólifjan er
og óbrigðanligasta dauðamein þèr:
að þá í mókskauti lukkunnar lást
lèztu þèr borið, og þar átst,
Ofmata gómur hvar allrasízt fèkk
af því sem hollast er sèr þægan smekk;
og títt prófað sælgæti tilfinníng þreytt
tyggur og skirpir út samfleytt.
Og gnæfandi nægtir, sem misbrúkan mest
marglæti girndanna við tamdi flest,
lángsaman finna mun leiðann á sèr
loksins umsnúinn í píslir.
Dauðinn einn sjálfur hvar von gæfi' á vægð,
vanræktar skyldur ef ei gjörðu bægð,
með blöskrandi skrugguraust bríxlandi þèr:
brauztu náttúrunnar skikk hèr!
Og hefðir sjálfur með óhófi þú
ei sett svo knappar, sem verða þær nú,
dögunum skorður, og dauðanum bil. —
En, Damon! — þú svarar mèr hèrtil:
"Eg mundi sjálfráður, ekki sem ær,
útvelja lakara', en hitt setja fjær,
nè fyrir stjórulausan sællífis sið
setja burt heilsuna og minn frið.

Nei! spar og hófsamur einsog eg er
yfirtaks nægtir þó tilfèlli mèr
eg skyldi láta mèr nægjast með nóg
og neyta þess glaður í hugró."

Kæri minn Damon! þann veikleika vèr
viðkönnumst sjaldan, sem fylgja vor er,
og þángaðtil sigraðir mist höfum mátt
meinum oss fullsterka vèr þrátt.

Hann á því tryggvast og hættuminnst ráð,
sem himininn lætur því standi fá náð,
í hverju stríðs fyrir áskorun hann
ei þarf að verða svo gjarnan.

En, látum nú vera sem sèrt hetja sú,
sjaldfengin æ meðal dauðligra, þú,
sem einn bjóða freistíngum orrustu kann
og á jafnan sigurinn vísan.

Látum, sem blíðskauti lukkunnar í
lystíngar allar þú sigraðir frí,
sem dygðar kappana sjálfa þó títt
sett hafa þrældóms í hald strítt.

Yfirtaks gæði hver nú mundu ný
af notum þess sigurs þitt skaut hellast í?
hvað fyrir hnossgæti þá ættir þú
það sem ei hefir og átt nú?

Þau ef ei faung eru þín eiga sjálfs,
er þú ekki vogar að brúka sem frjáls,
ábatinn væri þá nettasta nóg
ei neitt, utan hvað áttir fyrr þó.

"En æran, að vita hjá svo miklum sæg
sig skara framúr, er þegi lèttvæg,

og uppmálaður sem afbrigði mest
augu fá gjörvöll á sèr fest.
Að finna hlýðið sèr undirsett lið,
ávallt til reiðu nær litið er við,
eru þau gæði, sem ótígin stètt
utanhjá hvervetna var sett."
Öfunda, Damon! þú aldregi skalt,
aumkaðu dramblátan heldur ávallt,
sem dygðina seldi með dreissugum sið
og dautt æru-skuggahjóm tók við.
Lukkan hans, álengdar sem var að sjá
svo stór í upphyllíng vonar, og há,
brátt, er á notunum bergja rèð hann,
burtu hvarf, lètt einsog þokan.
Blekktur af gleðinnar bláskari því,
sem blikar hans viðurmóts hræríngum í,
óskar þú gjarnan, að hans ættir hag,
hafnandi þínum með allt slag.
En vit, að hans ásýndar vöðvi sèrhverr,
vaninn með konst til að fjölbreyta sèr,
um ástand hans geðsmuna vitni ber valt,
varast að trúa sem þú skalt.
Mest þá er vegsemdin, mundi víst hann
meta sig sjálfur hve vesælastan,
ef hann ei sæi, hve þúngt kvelja þig,
þánkarnir öfundar um sig.
Sæld hans er gjörvöll (ef svo kallast má
sældartóm innbirlíng) stofni bygð á
einúngis þessum, að aumíngja-sveit
öfunda sig þar af hann veit.

En ektaskír dygð (þareð eins við er frjáls
óánægjunnar og hofmóðsins sjálfs
harðræði) lukkunnar blindan við byr
bifar sig ekkert, er grafkyr.

Hvern þann, sem dygð hefir mikin gjört mann,
meiri fá hávegir aldrei gjörðan;
notin af dygðar og ódygðar önn
eru rètt farsæld — og neyð sönn.

Og guði til æru skal sí og æ satt:
að sekum eins plágur hann jafnþúngar batt,
og þeir, sem dygðamenn eins eru hèr,
eins eru lukkumenn jafnir.

## 6. TIL GLEÐINNAR.

Snúið úr kvæðum Hagedorns ens þjóðverska. Hèr eru hagnýtt þrjú handrit, og hefir Rask skrifað eitt þeirra eptir eiginhandarriti skáldsins.

Prúðlyndra hjartna gyðja góð,
Gleði! virzt heyra mig!
gef að þessi, sem gel eg, ljóð
gjörist þèr þóknanlig!
láttu minn, kveðinn um þig, óð
æ gjöra stærri þig!
þessi, sem frá mèr hvarfla, hljóð
hvött af þèr votta sig.

Þú [1] systir ástar, full með fjör,
og fagurt himins jóð!
sálar kraptur og eflíng ör!
allt megin lífs hjá þjóð!
ó! hver má lukkan, ekki spör,
oss leggja gæði' í sjóð,
nema þú, gleði kæra! kjör
kryddir, að sèu góð.
Dumbar, sem liggja' á dauðum seim,
dýngjur svo vakti þær,
einúngis ríkir eru af þeim;
en hinn, sem rètt glaðvær
gæta þarf einkis gjalds um heim,
gamnar sèr, kveður og hlær,
enginn af nízku kafinn keim
kóngur við jafnast fær.
Hverjir með heiðrun þekkja þig,
þeim veittu nýjan móð!
ný skrítinyrði skemtilig
skírmæltum túngum bjóð!

---

[1]) Skáldið hefir fyrst ætlað að snúa þessu erindi þannig, en hætt við það ólokið:

Yndællar systir ástar hýr!
afkvæmið himins sjálft!
þú sálna kraptur, sífelt nýr,
sem ert, og lífið hálft!
hvað er að lofa lán, sem býr
lukku vinfengið hált . . . . .

únga með nýjum auðga sig
íþróttum láttu þjóð!
þeim gengnir eru gamals stig
gefa nýtt virztu blóð!
Þú, hollust Gleði! skugga ský
skynsemi rekur frá,
dökk og illkvittin fól þú flý!
fælst að eilífu þá,
sitt logið hól um borg og bý
sem bera', en öðrum lá!
engum af hræsnis ó-fè því
unnt láttu þig að sjá!

## 7. GEÐPRÝÐIN.

Snúið úr dönsku eptir M. H. Bornemanni. Útlegging Magnús Stephensens á þessu kvæði er prentuð í Klausturpósti 1819, bls. 38—39. Eptir tveim handritum.

Heill þeim, sem elskar glaðvært geð!
gegnum hvers augu blíður hlæja,
fjær og nær gleði fær hann sèð,
fram af sèrhverjum lokka rèð;
hvar helzt sem jarðar byggir beð
býður sig honum fús ánægja;
öll hann náttúran unun með
örfar, sem fuglinn skær morgunblæja.

Heill þeim, sem manna vin sig veit!
hvers viðmót boðar sameign haga,
heill þeim öll bræðra' er hjartkær sveit!
hann sèr ást þeirra veitta leit,
honum ann jörð og hæðin teit
hans meðlíðunin sykrar daga;
endurskín gleðin honum heit,
þó hitti' á vegi sorgir og baga.

Enn honum sæla! hvers að er
hjarta trúfastrar dygðar sæti,
hún mund almættis hann styrkir,
heipt forlaganna jafnvel ver,
því hann himin í brjósti ber,
byggir sakleysis þar-í kæti;
með frelsi geðs og frið hann sèr
fram á guðs ríkis vongóður mæti.

Vertu glaðlyndur, góðgjarn, frjáls!
af gózi þrennu blessastu þvísa,
hjálp ens algóða sèrðu sjálfs
sèrtu hress, ljúfur og frí án táls,
í einíng hjarta- og anda-máls
alls sköpun líkist sál þín vísa,
uns algjör, frí og utan brjáls
í andlátinu lífið munt prísa.

## 8. ÞRÁR MÍNAR.

Snúið úr kvæðum ens norska skálds Zetlitz (*Mine Længsler*, í *Poesier*, *Förste Samling*, *Khavn* 1789. 8, bls. 294—96). Eptir tveim handritum.

Hvað harðla lítið heimtist til
hag manns að sæld á ljómi!
vært geð, ástúðlig veigabil,
vinur, þeim að er sómi,
húskofi smár að hýrast í,
hollt brauð og vatnslind sorafrí,
vit svo mikið, að mál og skil
veitir þessum lærdómi.

Gullskin og makt sín mæti ber,
metorðin engan lýta,
að vera lærður ágætt er,
en ekkert er þó til hlýtar;
nei, skelfast ei við dára-dóm
og daginn taka sem hann kom
er betra' enn gull og æra þèr,
engir það frá þèr slíta.

Við brjóst Elísu æ eg ef
allri jörð segja kynni:
"sjá! þitt hið bezta víf eg vef,
veröld! í kjöltu minni!"
eg vinur sæti mèr við mund,
mín sú er gleði lukkustund,
að meiri fýsn eg gaum ei gef
gózvana fár þó sinni.

Í dal afsíðis fólki frá
eg færi' og kofa bygði,
þar víf og eg, og vinur sá,
víst gætum átt svo dygði;
til gróða neyddi grundar-beð,
gæzku prísandi sveita með
þess, sem hátt drottnar himnum á
en hríng mèr gjörfan trygði.

Eg yrði faðir, — ástkær jóð
á knè mèr viðkvæm setti, —
augun á þau, sem ágjarn sjóð,
umhyggjufullur hvetti,
að móður svip þar gjörði gá
og grát af úngri kyssa brá,
fríð þætti jörð, og guðs hönd góð,
er gaf mèr rúm á hnetti.

Eg segði dæla dóttur við:
"dygðin er fegurð hæsta!"
og við sporhreifan ýngis-nið:
"ill breytni skömm er stærsta!"
eg segði bæði dreng og drós:
"dafnar lífs meðal þyrna rós!
af dygðar lind gleði drekki þið!
drottni þá hjartkær næsta."

## 9. TIL APOLLONS.

Snúið úr Hóratíus kvæðum *(Quid dedicatum poscit Apollinem — vates?, Od. 1, 31)*; prentað áður í "Gamni og alvöru", II, bls. 156—58. Hèr eru þrjú handrit hagnýtt ásamt bókinni, og er eitt af þeim eiginhandarrit.

*Lag: Krúsar lögur kveikir bögur.*

Um hvað biður óðar-smiður Apollín,
auðmjúk viður áheit sín,
offur-siðum að þá niður ágætt tappar vín,
nýtt í skál er skín?
Sízt mun jarðar auðugs arðar óska sá
feitri Sardinía frá;
kröfur sparðar kátrar hjarðar, kalabriskum[1] á
sólvang, þegja þá.
Eld um hrannar Indíanna' og eðalstein
fæst ei hann, nè fílabein,
ei um ranna tún, sem tannar tíðum hljóð og sein
Líris[2], á sú ein.

---

[1]) Kalabría er einn hluti Neapels-ríkis, austan fram á Ítalíu, og heitir nú *Terra di Otranto.* Þar voru ali-hjarðir miklar í fornöld og hagbeit hin bezta.

[2]) *Líris* skildi Latium og Kampaníu; hún heitir nú *Garigliano* (frb. Gariljanó). Á Lírisbökkum voru í fornöld enir fegurstu víngarðar. Hann kallar að áin tanni bakkana þar sem hún sleikir úr þeim, en hljóða kallar hann hana því hún var lygn.

Þeir, sem veiga-við [1] að eiga veitt er, hann
kúga mega kaliskan [2];
víns ódeiga [3] taki teiga af tríglum gulls [4] kaupmann,
Sýrland við sem vann!
Hann má, stórum himin-stjórum hjarta-sár [5]
þrem- og fjórum-sinnum sjá'r-
sigla -jórum [6] síkn, með órum [7] samandregins fjár,
Atlants-haf hvert ár.
Allt fyrir þetta olívu metta eg mig læt,
malvan lètta mèr er sæt,
meðal rètta sig fram setta síkóría [8] mæt
tjáir [9] allvel æt.
Míns að neyta virðst mèr veita vel með ró
brauðs, er sveita dygð að dró,
lund með teita, heila' og heita, hraustum kroppi' í þó,
æztur Apolló!
Enginn falli æru-galli' á aldin mig!
gamli kallinn gleðji sig!

---

[1]) *veiga-við*, þ. e. vínvið.

[2]) *kaliskan*, vaxin við Kalesborg í Kampaníu.

[3]) *ódeiga*, þ. e. óhikaða.

[4]) *gulls-tríglar*, gullskálir eða gullbikarar.

[5]) þ. e. viðkvæmur, kærr.

[6]) *sjá'r-jórum*, skipum.

[7]) feiknum, ógrynni fjár.

[8]) Olíva, malva og síkória voru hafðar til mannfæðis meðal enna fátækari, og þóttu lèttar og heilnæmar.

[9]) *tjáir sig*, þ. e. sýnir sig, kemur fram.

hjá mèr gjalli hljómurinn snjalli, harpan iðuglig,
allt á efsta stig!

## 10. SMÁBÝLIÐ.

Frumkveðið á dönsku af Gunnlaugi sýslumanni Brím, kammerráði (*Til Hytten jeg iler*, o. s. frv.). Eptir þrem handritum.

Nú hraða eg ferðum í klækjalaust kot,
þar kæti með sakleysi' á heima,
þar svikafrí vinur } og sveitar vær not
þar svanni dýrmætur }
mig svertínga hnjóð láta gleyma;
eg ann þá vel gikkjum að aumka minn hag,
mig aumka, nær fullglaður lifi hvern dag.

Í kotið, þar heill, lyst og krapt hefir fólk,
þar kost minn ei læknirar blanda,
þar erviðið kryddar þess urtir og mjólk
því ánægða brjósti til handa;
ó, heiðrum það sakleysi, { hugást / hússyndi' } og frið,
sem hjá eru fámenni smábýli við.

## 11. LANDKOSTIRNIR.

Eptir einu handriti.

Minn sumardalur! þökk sè þèr,
með þúfu hverri og steini!
gott þegar kvikfèð útleyst er
af dymmu vetrarleyni,
blómgrænan faðm þú breiðir því,
býður sælgæti mart parí;
minn sumardalur! þökk sè þèr
með þúfu hverri og steini!

Minn góði skógur, þökk sè þèr
þarfra hvern fyrir lunda!
arðsæll haustplógur minn er mèr
megi eg þitt umrót stunda;
dýpt vetrarfanna drjúg þó sè,
svo dansi lágt þín stoltu trè;
minn góði skógur, þökk sè þèr
þarfra hvern fyrir lunda!

Mín fjallagirðíng! þökk sè þèr
þú dalsins háfi bakki!
vörn móti stormum ólmum er
þinn yfrið stolti hnakki;
mín *Silfurtá*, þú góða geit!
gjörist þar næsta spræk og feit;
mín fjallagirðíng! þökk sè þèr
þú dalsins háfi bakki!

Mitt akurlendi! þökk sè þèr,
þökk ykkur, mörk og eingi!

framandi hjálpar án mitt er
með ykkur hólpið gengi;
guð annist þá, sem annars dyr
áknýja hljóta þurftugir!
mitt akurlendi! þökk sè þèr,
þökk ykkur, mörk og eingi!

Minn bæjarlækur! þökk sè þèr
þú Símáll! beztur granna!
lángt betra kaups og mælis mèr
mörg af þèr veittist kanna,
en af vínsölu kífnum kút,
sem kúgar vikusveitann út;
minn bæjarlækur! þökk sè þèr
þú Símáll! beztur granna!

Fyrir allt, Drottinn! þökk sè þèr!
þínum er allt frá höndum;
þaðan hver blessun útbreidd er
öllum veraldar löndum;
fyri vor, sumar, vetur, haust,
vist og heimili, kvikfè hraust,
fyrir allt, Guð minn! þökk sè þèr!
þínum er allt frá höndum.

## 12. TIL VINU MINNAR.

Snúið úr dönsku. Eptir einu handriti.

Mín ástúðligust ástarvina!
ástbollum sem í faðmi þèr

hefir svo þrátt mig haft, að lina
harm og ángur í brjósti mèr;
guð föðurliga gefi það
með gleði og heill þèr umbunað!

## 13. SONARDILLA.

Snúið úr dönsku. Eptir frumriti og þrem afskriptum.

Ó! hver gleði' er á við þessa?
auðnukjör, sem mín, hvar finn?
önd mín, dagur! æ þig blessar,
eignaðist eg Hallvarð minn;
blunda, sonur minn! sem mýkst,
magnast þú og föður líkst!
en, sem móður megnar nefna,
mæltu heiti föðurlands
og blessa þess hinn bezta krans!

Ber þú vit, með brosi' að líta
bráðum kjöltu móður frá,
þèr í arma föðurs flýta,
og föður nafni tæptir á!
sof, mín ástar laun og lyst,
af lífi mínu sprottin fyrst!
þú skalt, son minn! vígður vera
vísis þjón og föðurlands,
vax þú upp til mæta manns!

Lítill skaltu læra' að ríða,
letur stunda' og fræði gegn,

síðan starfa, smala, smíða,
í smáu' og stóru dyggur þegn!
býðst þá launa blessuð von,
bústað færðu, víf og son;
hann þá móður megnar nefna
minn á heiti föðurlands
og kóngsins blessun, Kristíans!

## 14. VÍNIÐ.

Snúið úr dönsku *(Druen voxer paa vor Klode)*.
Eptir tveim handritum.

Vínber jörð á vorri spretta,
víntrèð gleði þýngir sig,
vín oss gjörir lyndislètta,
láðs er krínglan dægilig;
:|: glamrið bræður gleði skál!
gladda kýs öll jörðin sál! :|:
Stundum þó vèr standa finnum
sturlun vaxna gleði hjá,
vínið leiki, svo ei sinnum
sorgum jarðar, gleymdum þá:
:|: hennar dára-skap og sköll
skálir kæfi fylltar öll! :|:
Faðir Evan frelsis húfu
fest hefir uppá hvirfil sinn,
frjálsar hendur fergja þrúgu,
fegri er tvöfalt lögurinn;

.|: Drekkið bræður! kveði kór!
klæðist frelsi jörðin stór! :|:

---

## 15. GLAÐVÆRÐIN.

Snúið úr Dönsku eptir Frankená *(Fryd dig ved Livet)*. Eptir frumriti og einni afskript; á frumritinu hefir séra Jón sett "Tyrocinium", þ. e. viðvæníngs-tilraun, fyrir ofan; hann mun því hafa snúið úngur þessu kvæði.

*Viðkvæði.* Líf svo ei leiðist,
lífsvorið glaðvært kjós!
tak, áður eyðist,
unaðar rós!

---

Menn skapa gjarnan mæðu sèr
mjög ótal þyrnum, nærsýnir,
en að blómlilju hvergi hót
hyggja þeir við sinn fót.
Líf svo ei leiðist,
lífsvorið glaðvært kjós!
tak, áður eyðist,
unaðar rós!

Og verki stundum vegar þraung
volæðis-tíðin myrk og laung,
þá ljær vináttan ítri önd
æ hverri bróður-bönd.
Líf svo ei leiðist, o. s. frv.

Trygg þerrar hún öll tár af brá
til dymmu grafar vöggu frá,

á línu mótgángs ljómar hún
líkt morgunroðans brún.
Líf svo ei leiðist, o. s. frv.
Band það fast knýti bróðir hvör!
bræður! trútt höldum eina för,
þá ber oss glaða, án bölþánkans,
til betra föðurlands!
Líf svo ei leiðist,
lífsvorið glaðvært kjós!
tak, áður eyðist,
unaðar rós!

## 16. KVENNAREGLUR.

Eptir einu handriti.

Þig á vori þínu prýð,
þorngrund úng! með kransi;
dansa meðan til er tíð!
tekst þú snart frá dansi.
Ei sèr morgun, ennnú ljós,
út að læðast hraðar,
áður þú af ýngri rós
unnin, missir staðar.
Þinn á meðan spegil spenn,
spurður hrós þèr inni,
hverfur vinur, sannmáll senn,
sá þèr víst úr minni.

Þú meðan sèr þig umkríng
þokka kynnta sveina,
stilt á þína strengi sýng,
stúlka! skemtun hreina.
Brátt þar stendur herra hár,
er hèr nam þjón sig beygja;
barnið grætur, leikur lár,
lángspils strengir þegja.
Æfintýr og ástarljóð,
eiðar, krydd og smjaður
sætan draum þèr færa, fljóð!
finnst þá margur glaður.
Innan stundar ángruð þú
ektakona vaknar,
til kífs og mæðu kölluð nú,
kórónunnar saknar.
Hafa rósir hjónabands
hart stíngandi þyrna,
þó er gamla meyju án manns
miklu verra að fyrna.
Lífsins blómstur líða af því,
lær þau rètt að meta!
aldrei fimmtán ára á ný
orðið muntu geta.

## 17. VÍNGÆÐIN.

Snúið úr dönsku eptir Ölensleger *(Vil du være stærk og fri)*. Eptir einu handriti.

Viljir þú styrk og frjálsleik fá,
fargi rauð vínber sær!
ef aðstoð viltu lukku ljá,
loga þíns úngdóms nær!
hlaupandi glaðir hjörs í þrá,
háski nær dauðans slær,
blítt frúm og meyjum breiðum á
blómstra-stig heilsum vær.
Þín vortíð græna varir smátt,
velta lífstímar skjótt,
veturinn hvíti ber þèr brátt
boðskap um lánga nótt;
samt kann hár geyma silfurgrátt
sèr rjóðra kinna þrótt,
og nærri *Bacchi* bikar þrátt
býr *Amors* píla hljótt.
Af rós purpura-líkri lær,
í lundi, glatt viðmót!
nem, að láta við áflog ær
óvinar brotna spjót!
enginn á lýtalausan fær
lands depil settan fót;
en regla sú þèr æ sè kær:
"alls rèttiliga njót!"

Ef fellur burt hin fagra mey,
sem fèkkst nýliga kyst,
hirð ekki framar heims á ey,
að hreifa þinni lyst;
blómstrið visnar, því hold er hey,
heyið má skipta' um vist,
sèrhverr á vissan dóm þann: "dey!"
drag þaraf huggun fyrst!

## 18. VÍNDRYKKJAN.

Snúið úr dönsku (*Manden med Glas i Haand*).
Eptir einu handriti.

Rekkur, þeim staup hjá standa,
stoltur af háfum anda
kennir sig mikin mann;
við rètt og skyldur rækinn,
ráðvandur, en þó frækinn,
engan sinn óvin hann
á víðri jörðu fann.

Þú, vínbers-veig hin dýra,
veizt úngdóms krapti að stýra
aptur í aldrað brjóst!
með vínglas millum handa
mig hjá vin sè eg standa,
og vor mitt aptur ljóst,
yndisligt mèr þú bjóst.

Þótt margan hreyktar hafið
hafsöldur! sjómann grafið,
þessi samt yður ann;
sè ættjörð sèn fyrir stafni,
af sinnar stúlku nafni
fegin saung framher hann,
með faðminn útbreiddan.

Glöðum án víls um voða
vaggar á hryggjum hoða
honum hugsan um mær;
hans manndáð honum geldur
heitasti kærleiks eldur,
en hittist hún meinsær,
hann máske dauðann fær.

Heill sè þèr, haf kærasta!
heill, sèrhver mey trúfasta!
heill! sýng, þú heili kór!
heill vinskap, hugdirfð, teiti!
heill þèr, tær berjasveiti!
heill borgar hópur stór!
hverr góður lifi rór!

## 19. VÍNDRYKKJUMEGIN.

Eptir einu handriti.

Hvílíkt tákn gjörir Vínguð vor
votta mín gjörvöll æfispor;

eg drekk, en þó til annars ei,
enn að burtreka hrygðar-vei;
eg vil mitt lífskeið yður tjá,
ángur og lyst, sem beið þará,
en læt mèr áður lètta geð
lög þann, sem vínber kæta með.

Mèr gaf allt fè sitt maurakall
með testamenti fjörgamall;
allt hvað hann hafði svælt að sèr
settist eg við í huga mèr;
flykktust lögmenn, sem flugur að,
fljótt hremmdu gózið í minn stað —
eg grèt — en fyrsta mótgángs míns
minníngu drekkti' í flösku víns.

Eg vildi stunda ljóða list,
að lærdóms-gyðjum samrýndist;
en mig vantaði þánka þrótt,
þarmeð orðfæris háfa gnótt;
allir minn kvæða smáðu smekk,
til smánar mèr hverr dómur gekk —
eg grèt — en mitt í sárri sút
saup eg full hundrað vínstaup út.

Munarfýsn knúði mig ofbráð
metorðastig að geta náð,
eg smíkti stórra fylgi' að fá,
í forstofunum jafnan lá;
Herrarnir miklu hètu mèr,
hègómi sem þó varð einber, —
eg grèt, þegar mig svikin sá —
sinni mitt vínið hressti þá.

Nú snerist eg að baugabil,
(banvænt athvarf að flýja til!)
sem hundrað kveikti' í hjörtum ást,
hundrað unnustum líka brást;
bauð að eins hýran blíðusvip
botnlaust ótrygðar lekahrip —
eg grèt — en særðrar elsku böl
útdrukkin kæfðu vínglös svöl.

Aldrei, þú fagra flærðar víf!
fær að armæðu gjört mèr líf,
svolengi drykkju sem eg ann,
af sorgum ekki deyja kann;
aldrei þín grimd skal orka því,
að gröf mèr sjálfur steypi' eg í,
nè fyrir tímann sturlan stríð
stytti minn lífsþráð fyrr nè síð.

## 20. HEIMUR ENN BEZTI.

Snúið úr dönsku eptir Baggesen *(Den bedste Verden)*.
Eptir einu handriti.

Það er svo dýrðligt umhverfis,
auga hvert maður rennir;
hverr annarr heimur alls óviss,
engan eg betri kennir;
með fari, sá vill, Montgolfier [1]

[1]) Montgolfier hètu bræður tveir á Frakklandi, og var annarr þeirra frumsmiður að enum fyrstu lopt-

mættu sjást nýjar veraldir —
mun þar sætra vín selt enn hèr,
samt betri vildarmenni?
Það er svo gott í heimi hèr:
hagliga' allt niður raðað;
sól reikar, túngl og himnaher
í hríng um jörð allstaðar;
helzt má ókeypis horfa á
himneska gleðileika þá,
sem ljósar stjörnur leiða frá
lopts syðri á norður-jaðar.
Það er svo gott voru norðri nær:
nettar hèr vaxa píkur,
og ef vínviðar ekki grær
ávöxtur hjá oss ríkur,
höfum allsvegar víðan geym,
verður fagurla siglt á þeim
í þann farsæla Austurheim,
þar aldrei vínið svíkur.
Það er svo gott í þessum stað:
þíng, ölteit saunglyst, gjalla,
dans, gleðileikir, það og það,
þrádægiligt tilfalla,
til og frá skunda þeir og þeir,
þeir giptast, bókrit hefja meir;
maður hlær, spilar, drekkur, deyr,
þá dauði og læknir kalla.

---

siglíngabátum, sem kenndir eru síðan við nafn þeirra bræðra.

Það er svo gott við þetta borð:
þrautir oss engar stínga,
því vinskaps faðmlög, þýðlynd orð,
þenna vorn hríng umkríngja,
er það víst dýrðligt yndi manns,
að sitja tryggt í vinakrans,
glaðværr rètt njóta gæða hans,
og gamankvæði sýngja.

Það er svo gott fyrir sèrhvern sett,
sèst hrygð á bræðra aungum;
vistir himneskar veitast rètt
af vinsemd, kvæðum, ölfaungum;
flösku tæm síðstu, fríska sál!
fylltu rennandi staupa mál!
drekktu víns, saungs, vinskapar skál!
skál vín! bróðerni! saungur!

Það er svo gott fyrir sjálfum mèr:
sè eg allsvegar kæti,
í brjósti mínu hún byggir sèr,
hólfestu' og stöðugt sæti.
Minn saungur er: gleði sanna hljóð,
mitt sæla boð: dygð mild og góð,
mín ósk: al-heimur missi móð!
mín meiníng: skáldið grætist.

## 21. JARÐAR ÓMINNIS-ELFAN. [1]

Snúið úr dönsku eptir Baggesen (*Jordens Lethe* i *Ungdomsarbeider*, Khöfn 1791, bls. 155—57). Kvæði þetta er prentað áður í Vinagleði, bls. 87—88; hèr eru samanborin tvö handrit við Vinagleði.

---

Nær spök góðmenni nauðin beygir,
nú sem, því miður, hvern dag sèst,
en herra-drussar hrakmannligir,
hrjóta í lukkuskauti mest;
nær af heimskíngja dans-hádunum
dramblátum þaggast armóðskvein —
súpum á, bræður! svo ei munum
svallkæti dára og hyggins vein.

Nær bónda soltins óm af ýlfri
óheyrðu slær frá Reigíngs höll,
hverrar drottinn í sæld og silfri
að sorgum bræðra gjörir sköll,
og náttúrunnar ógegnt stunum
auðgast við þeirra sveita' og blóð —
súpum á, bræður! svo ei munum
hans saurugu maura og barma hljóð.

---

[1]) Óminnis-elfan er á sú í undirheimum, sem Grikkir og Rómverjar kölluðu Lethe, og sögðu að framliðnir drykki úr, og gleymdi síðan allri hinni fyrri æfi; var hún handa þeim, sem ætlað var að koma í aðra líkami síðan hèr á jörðu, sem trú manna var í Austurheimi og margra spekínga meðal Grikkja og Rómverja. Skáldinu þykir vínið vera nytsamligt til ens sama á jörðunni einsog Lethe í undirheimum.

Nær mætrar ber til moturs-hildar
misgrun án saka vors aftót,
nær tárastraum ei tekst að milda
týranna-brjóst í kvæntum þrjót;
nær menþöll hrein af misverkunum,
má þegja hnipin æfilángt —
súpum á, bræður! svo ei munum
sakleysi það, er líður rángt.

Óreyndrar nær á æsku vori
ærustundandi fögur mær,
vors kyns ataðan slinna slori
slæmu heilli til biðils fær,
og síðast blekkt á blíðmælunum
baktals og ángurs þolir sár —
súpum á, bræður! svo ei munum
sætu gabbaðrar mörgu tár.

Ef rauðra þrúgna vökvi' ei væri,
vera hverr lengur kysi hèr?
hvert sem eg stjörnur brúna bæri
birtast eintómar líðanir;
kúgaðra glymja hrinur harðar
hróp flýgur tældra suður og út.
Upp, bræður! drekkið allrar jarðar
óminni, sem er full af sút.

## 22. GOTT VÍN.

Snúið úr þýzku eptir Hagedorn. Prentað áður í "Gamni og alvöru", II, bls. 185; við það eru hèr samanborin þrjú handrit.

Vínberjum lífið út vall af;
augljóst það máltak sanni þèr,
kappar, reyndir við krúsar haf,
og kostuliga vínlærðir!
*Rekkabítar*, þú virta-veig!
vermdu sín aldrei brjóst með þèr [1];
fyrstur þú, Nói! fèkkst þèr teig,
þið feðgar drukkuð eins og vèr.
Þó fögnuð veitti festíng hrein,
fáguð regnboga, þinni sýn,
samt gladdist meira enn augun ein,
þá auðnan gaf að drekka *vín*.
Bauð sig, þín vegna, blessan góð;
björk hin fyrsta með víni spratt,
ekkert gat smekkinn eptir *flóð*
ofdaufra vatna betur gladt. [2]

---

[1]) sjá Jerem. 35, 6—8.

[2]) orðamunurinn í Gamni og alvöru er líkliga breytíng M. Stephensens.

## 23. SLÆMT VÍN.

Snúið úr þýzku eptir Hagedorn. Hèr eru hagnýtt þrjú handrit, og er eitt þeirra frumrit.

Ó þú, upp þeinkt af vonzku, vín,
vatn svo, meir lofað, njóti þín!
með örvæntíng þú ölvar mann,
eitur og dauða svelgir hann;
í þèr korgurinn ólmast þver,
einn þinn seljandi hrósar þèr,
einn hann þig sparar og hans frú;
um þig hyggst eg að kveða nú!

Land það mjög harða bölvun ber
björk, móðir þín, hvar sprottin er;
sandorpin lóð fèkk strafi svo styrt,
strákur hafði þar föður myrdt;
og (nema skrökvað að mèr sè)
eigandinn víngarðs kafnaði,
berin, uppruna-bústað þinn,
nær bar að vitum fyrsta sinn.

Upp, upp, þèr skruggur! öskrið hátt!
eldíngar, fram! og logið brátt!
í hefndar ofsa hjálpist að!
hæfið samt ei nema víntrè það!
látið part þenna heims af hríng,
er hrak það gjörir svívirðíng,
ókynjan slíkt, hin illu ber,
aldrei með dragast hèr eptir.

## 24. PANDÓRA.

Eptir einu handriti.

Gakktu lángt, hinn grimmi, tilbaka!
gakk til fyrstu heimsins upptaka!
þegar yfir allt var að líta
ekkert nema sakleysið hvíta.
Í æfintýrum færðu þá fundið,
frásögn um eitt dávæna sprundið;
hún hèt — hún hèt — hún hèt — láttu líða
litla stund! svo máttu tilhlýða.
Prestur hana *Pandóru* nefndi,
Prestur — nei! — eg ránga leið stefndi, —
engir Prestar enn þá til vóru —
öskjur mundu fengnar *Pandóru.*
En, að öllum við lögðum voða,
var þó bannað í þær að skoða.
Sjá til! sjá til! sjá til! — á seiði
sífelt hefir eitthvað hinn Leiði. [1]
Kvaldist hún af forvitnis fylli,
fylgir vífum ennnú sá kvilli;
öskjurnar hún opnar um síðir,
uppkomu þá hávaðar stríðir.
Hèr út flugu heims allir klækir,
hún með sama í ofboði skrækir:
Hættu! hættu! láttu nú lokið! —
liðið synda var þá allt strokið.

[1]) Fjandinn.

Sturluð tók nú stelpan að gráta,
strax vill sína dós aptur láta,
en hún galtóm orðin var þegar —
æpir hún, og gjörníng sinn tregar.
"Aldrei það eg optar skal vinna!
aldrei skal eg forvitni sinna!
kom tilbaka, kom synda skari!
kom, svo eg þig betur forvari!"
Kveinstaf hennar gegndu með glotti
glæpirnir, og svöruðu' af spotti:
"Frú *Pandóra!* gríp oss, ef getur,
og gleym ekki að forvara betur."
Nei! vèr skulum nú slarka lausir
nær og fjær, þó tárum útausir;
húrra! húrra! heiminn ei spara
hèðan af, en auka vorn skara.
Kjöri hverr sèr kærast herbergi,
kyr og rólig synd er þó hvergi;
allar kepptust æ lengra' að fljúga,
Adams kenndu börnum að ljúga.
Hófust skálkar, hórur og þjófar,
hófust allskyns veraldar bófar;
hjá þeim, hjá þeim, hjá þeim, eða hvergi,
þar er rètta syndar herbergi.
Málaferli, mannhvefsnar þrætur
og meinsæri komust á fætur,
öfund, prettir, okur, spil, dansar,
yfirlætis fánýtir glansar.
Komu nú upp kænir doktórar
kokkálar og prókúratórar,

fáorðt, fáorðt, fáorðt að spjalla:
fèkk stjórn þegar Belzibub alla.
Þó er sagt í öskjunum eptir
orðið hafi vínstaunglar tepptir,
sem menn tóku síðan að rækta
sèr til gagns og yndælis nægta.
Því má ei við *Pandóru* píku
prósess halda', ef gætt er að slíku;
skeinktu! skeinktu! skál súpum þekka!
skeink! því engin synd er — að drekka.

---

## 25. HÓFSINS SKÁL.

Snúið úr dönsku eptir Baggesen (*Maadens Skaal i Ungdomsarbeider.* Khöfn 1791, bls. 168). Prentað í Vinagleði bls. 242—44, og er hèr hagnýtt eitt handrit þaraðauki.

---

Fávís ber kvíða fyrir á morgun,
frjáls hvern dag vitur nýtir sèr,
og himni felur hins umsorgun,
hans eins, en ekki vor sem er.
Ef skulum, vinur! una lífi,
ei þess kjósandi styttra bil,
*ástir* og *vín* það áfram drífi,
ort, kyst og leikið grafar til.
Ei, svo sem dárar, illa látum
áhyggju gjöra oss dægur laung!
honum er ei við geð að grátum,
sem gaf oss *stúlkur*, *vín* og *saung*.

Við *ölstaup* full í vinskap heima,
og vænnar *konu* hjartkær brjóst
bauð hann oss lífsins gremju gleyma,
en gleðjast við þess yndi ljóst.
Ó! sèrhverr *elski, sýngi, drekki*,
svo lengi njótum hèrvistar,
vèr getum *hèr* — en vitum ekki,
vinir! hvort geta munum þar.
Hèr skal þó ætíð *hóf* við leggja
heimskur dári því aldrei nær,
offrekt, oflítið er hvorttveggja
eymda frjófsamar mæður tvær.
Vèr skulum *elska, súpa, sýngja!*
en svo þess not ei verði tál,
í vínhríng þessum vel skal klíngja,
vors yndis móður: *Hófsins, skál!*

## 26. BISKUPSBRAGUR.[1]

Snúið úr dönsku kvæði *(Da Sanct Peder vandred om)*, sem mælt er að ort hafi kammerherra Anker, sem kallaður var hinn ríki, í Kristianiu. Eptir frumriti og afskript.

Sankti Pètur umferð á
inn kom víntappara hjá,

[1]) Biskup er einskonar óáfengur drykkur af vínblandi, sem mjög er drukkinn í Norvegi og víðar annarstaðar.

gángmóður sèr hugði hraða
hýsíng þartil fengi glaða.
Bjórtapparinn bauð honum mat,
bar fram kúfað rèttafat;
Pètur kallar: drekka! drekka!
dreypt er á hann Biskup þekka;
Pètur drakk og mælti: meira!
mund í tekur veitandans:
"Hvað þig lystir, lát mig heyra,
ljúfi hressir ferðamanns!" —
Halur smeikur hika rèð,
húsfrú óskar bendíng með:
"ó, að Biskup sopa seira
sè æ bezt fyrir vina geð!"
"Sem þú biður, svo mun ske",
sagði Pètur brosandi;
sveit skal elska seggja og kvenna
og syndlaust drekka Biskup þenna,
heiti geistligt hafa skal,
heimi færa not ótal:
til þènandi mat að melta,
móð að lètta, sorg frá elta;
hèr af sèst, að hefir án vafa,
helgur Pètur verið til;
vogi nokkur verr að skrafa
viss um þessa sannleiks skil:
berið honum Biskups skál!
brátt mun umskipt játa mál,
krapt og makt og heiður hafa
hann frá gamla Pèturs sál.

Skál fyrir allt það ærligt blóð,
á sem byggir norskri lóð!
skál fyrir hverja snotra snóta
snild, ef fylgir dygð ámóta!
borgara, bónda-skörúngs skál!
skipmanns, prests og rekks með stál!
hefð og stètt skal ónefnd engi,
efla sem vill *Noregs* gengi;
þeim er stjórnarstandi nýja,
stiptar þraung, sè skömm og hróp!
kauphöndlun sá fjötrar fría
fest við Dofra-tind [1] þann glóp [2];
honum lát, án vína' og víns,
veitta starfs af gjöldum síns
sömu skál, sem hann óhlýja
í hönd svo margs gaf fátæklíngs!

## 26. TÓBAKSPÍPAN.

Ort fyrst á svensku eptir greifa Oxenstjerna, en sèra Jón mun hafa snúið því úr dönsku. Það er prentað hèr eptir Ljóðmælum, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 90—91.

Mín einka skemtan! eg sem mèr
einmana þrátt við leik;

[1]) eða Heklu-tind.

[2]) Mælt er að þetta sè sneið til Lewetzóws, sem þá var stiptamtmaður í Kristíaníu.

eldstó glóandi' og eysu hver!
ó, pípa full af reyk! —
Heilan þú slæmum vessum ver
við rèttir hjörtun smeik;
opt sýg eg ljúfan útúr þèr
ylminn af tóbaks steik.

Ylmandi tóbaks eðla rót!
yndi míns hugar blítt!
nær þú í loptið furðu fljót
flýgur, svo gætir lítt,
og sem snæleiptran yfrið skjót
auganu hverfur títt,
æfi skamvinnrar eptirmót
eg fæ að líta nýtt.

Þá flýgur strax í þánka mèr
það, nær eg heli selst
hvílíkur verð, sem eintóm er
aska, hvar sálin felst,
og þá eg reyknum eptir fer
í hæð þó lengur dvelst,
eg líð í burt, og þannveg þèr
þarí mjög líkur telst.

## 27. SVEFNINN.

Snúið úr dönsku. Kvæði þetta hefir *Wessel* ort, og unnið verðlaun fyrir í enu norska fèlagi 1775. Það er prentað meðal rita hans í útgáfu Boya bls. 81—88. Hèr eru tvö handrit samanborin.

---

Duunvinget, silkeblöd, du gled paa Öjet frem,
og hvisked: al din Sorg, dig selv, Stryange! glem.
*J. N. Bruun, Zarine*[1], *V. Act, I. Scene.*

þ. e.
Dúnvængjum búinn augað á
ýtist þú silkimjúkur heim
og hvíslar: allri þinni þrá
og þèr, Strýangur! sjálfum gleym![2]

---

Þó, tvöfalt fegri því eg svaf,
þrótt mínum barka-hreym skalt tæra!
þú, ljúfi morgun! líf skalt færa
lofrödd, er Svefni gelur af.
Forgefins buðu fegurst hljóð
fram sína skemtun eyra þjáðu;
ólyst, frá myrkvu auga og hrjáðu,
að anda leiða-fullum vóð.

---

[1]) *Zarine* er sorgarleikur og ber nafn af Zarinu, sem skáldið lætur vera drottníngu einnar Austurálfuþjóðar í fornöld, er Sakar hèt. Strýangur hèt hershöfðíngi Cýaxaris Meda-konúngs og tengdasonur hans; hann fór herferð móti Zarinu drottníngu og varð ástfánginn til hennar, og myrdti sjálfan sig af örvæntíngu. Hèr er hann látinn tala við sjálfan sig.

[2]) útlegging sèra Jóns.

Lá rètt við dauðann lífið nú,
leizt hver mannorka slitin elli;
byggíngin var sem bráðum fèlli,
bendíng, ó Svefn! er gafst mèr þú.
Þitt mjúkt í skaut eg þúngur hnèg,
þá firrtur viti, sýn og tali,
mjög líkur þeim í moldardali
til meira hvíldar-dvala sèg.
Til minnar veru trúi' eg þèr;
hve traustar styttur, ei að frètti,
þessum við haldi þúnga hnetti
í þunnu lopti að sofnum mèr.
Kríngum mig ótal heima her,
ef hársbreidd eina skeika næði
frá venjuligum vegarþræði,
óskapnað gjörði' af öllu og mèr.
Um naglsrót eg í nánd við slis
nóg blunda rótt, og veit ei saki,
þess aldrei sefur auga vakir
allt fyrir jafnt og sèrhvert fis.
Sem eg, hinn hálfi hnöttur var
hjúpaður myrkurs dumba-þokum,
og á tilbyrgðum augnalokum
ímynd þíns grimma bróður bar.
Enn glæðist eldur, græðist fjör,
gefst þèr á ný, minn andi! kraptur,
skjótt fær þú morgun skæran aptur
og skaparann stóran fundið gjör.
Myndan sker árs á morgni slík,
og moldar vökvar lífi skjóta

þá serk und hvítum sorgar-hóta
sýnist náttúran hvíla lík.
Í æðar kraptur allar flaut,
urðu nýslakar fjaðrir spenntar,
sálar önn verur sendust hentar,
svefns er leikandi bygðu skaut.
Sem brjóstgóð móðir þeim bauðst þú
þann únga fósturson að hressa,
Svefn! og ástvinar augum þessa
öll geðfeld spil að sýna nú.
Lækníng og huggun þú lèzt þær
þess í elskanda brjóst innausa,
sem elur blossa lukkulausa
og lund sár-þráir hvað ei fær.
Hans Grimmlynd upp nú skapast skjótt,
skýtur venus-hýr til hans brosi,
ást í viðmóti, en enginn rosi,
í augum himin ljómar rótt.
Þú bauðst þeim leysa fángin fót,
á fylkis-stól þær þrælinn hófu,
bersnauðum Perús-góz upp grófu,
glöddu nauðþrykktan von á bót.
Vesæll í hreysi valt útaf.
vært bakvið tjald það, sem í stilli,
hengdir dags þrauta' og hans í milli
með bros á vánga bleikum svaf.
Eitruðum verkja broddi brást
að blæju þína sundrað fengi,
hyl hann þar bakvið! hyl hann lengi!
hans böðlar vaknir úti sjást.

En, mitt í blíðra sjóna sveit,
sál manns er heilli tæla beztu,
uppgötvar skynsemd, undran mestu,
alvizku fásèn spor í leit.

Musteri í þinni myrkvu krá
hverr maktar andi bjó sèr hendur?
á frètt hans guðdóms stimpill stendur,
stansfull vantrú er treysta má.

En tímans mál á iðjubraut
alfrjófum kröptum hrundið lætur,
flýr nú Svefninn á fjöðrum nætur
fjarlægra landa' að sefa þraut.

Ljós og sannleikur tendrast til,
tjald sjónhverfínga hlýtur falla,
og sálin skilur enn þá valla,
að, hvað hún leit, var sjónar spil.

Sæll kom þú, morgun! Svefn, far vel!
sè frjófsöm þökkuð hvíld og varmi,
sem nýtt líf, þèr á sætum armi,
í sál kveikt hafa minni', eg gel.

Hverr andi er hress, hverr kroppur knár,
kætin á alla sansa tekur,
unun hvert hjarta viðkvæmt vekur,
verkan allt Svefns og heill er klár.

Hann hefir samstillt helgan róm
af hópum túngna', er loptið fylla,
með kapp' allsherjar-kóng að hylla
kennd er hans stærð í þeirra hljóm.

Þú eini góður! eini stór!
mitt ófullkomna virðist heyra

og veika kvak þitt voldugt eyra!
við blandað ótal radda kór.
Alheima Guð og minn! þèr mun
mitt brjóst verðugra kláráð gjalla,
þá eylífur dagur út mig kallar
frá dymmri grafar-draumnjórun. [1]
En miðri jarðar Eden í
eyra mitt hverr má hljómur særa?
er lof þitt tárum unnt að stæra?
ó Svefn! hverr manna grætur því?
Grátlig eymd, hverrar gleðistand
gekk upp með þèr, og einn veg linnti,
með ángist frá þeim að henni hlynnti
flaug á hið rètta raunar-land.
Skal eg? — æ við mín skirrist raust
þeim skelfiliga að hreifa þánka:
að hverja gjörir ógn mèr kránka
og óttans skrugga brjóstið laust. —
Mun eg ens stóra morguns boð,
menn sem frá efsta kallar Svefni —
vaknendum hverjum ógnarefni? —
allt blóð mitt fraus! — Guð! veit mèr stoð!

---

[1]) *draumnjórun*, þ. e. nótt.

## 29. HUGGANIN.

Snúið úr dönsku eptir Baggesens kvæði (*Trösten* í *Ungdomsarbeider*, II, 206 og *samtlige Værker* 1801, bls. 128). Baggesen hefir ort kvæði þetta til vinar síns eins, sem misti unnustu sína. Útlegging séra Jóns er prentuð áður í Vinagleði, bls. 218.

Viss er dauðinn! værðin sæla,
vinur sorga! bíður þín;
gleðisnauður! gleym að væla!
grafarborg mun enda pín.
Hvað er hið valta vina-mæti?
víf að kyssa' og faðma snjallt?
hvað er það allt í heimi kætir
hjá því vissa' að deyja skalt?
Sjá! hvað skjótt á skýja baki
skundar sunna mælda leið,
og sökkur fljótt, að sèr við taki
sæld í unnar faðmi þreyð.
Þinn kvöldroði' á þjáðu fjöri,
þèr í jarðar bendir skaut,
sá viss boði sætar gjöri
sorgir harðar og alla þraut.
Hans þú njót! á honum þreifa!
heill og svíun allri ná!
mæðunnar hljóta mildt sèr dreifa
myrkur, flýja og hverfa þá.
Dapri þrenn í dauðans eru
dumbastofu myrkur veitt,

sögðum hennar samt einveru-
svartara -kofum líf er eitt.

Grílur aumar grand ei mæða
gröf þann mjórri faðmast af,
pílur drauma' ei á hann æða,
aldrei værri blund hann svaf.

Kvíða frá, í nauðir nýjar,
náða-spillir veki fljótt,
svefninn þá ena sælu fríar,
sú er dillar kjölta rótt.

Voð sá undir grafar grænni,
grædt hefir nýjar hressíngar,
tvöfalt skundar vakinn vænni,
vegsemd í Paradísar.

Þá eg fæ, er þar að kemur,
þau hèr kveð, að faðma hnoss;
sælunnar æ, er nafn ei nemur,
nægð sèr hleður kríngum oss.

En þótt megi lángt um líða
og lötri skaptrar aldar far,
að þeim degi', er fold við fríða
faðmast aptur sálirnar.

Lífsins hvað er lengsta mæði:
lest harmkvæla', er sífelt þjá,
á ára-raðar ötuðum þræði,
eilífð sælufullri hjá?

Hvar eg æ meðal úngra lýða,
innanum nýjar dásemdir,
njóta fæ þess nein ei þýða
nöfn, eða fríar túngur hèr.

## 30. RONZEVALS-HERFÖR.

Eptir einu handriti.

Sofa nú Frakklands hetjur? hví
hirða þær ei um lárber fleiri?
menn erum vèr ei þá úr því,
þúng ein oss unnum bönd á ný
drottnara', og rètt til kveins af keiri;
 fyrr skal vort hel,
 lángt heldur hel,
 ó, hel! vèr á þig köllum,
 hnoss það oss vill til vel,
 vegna Föðurlands að föllum!
Á hæl skal flokkur ólmur sá,
óþjóða blindra ragir þrælar,
oss heiðri vorum elta frá,
með ótta frelsis kappa' að slá,
og hugprúð ljón, sem hèra fæla?
 fyrr skal vort hel,
 lángt heldur hel,
 ó, hel! vèr til þín köllum,
 það hnoss oss vill til vel,
 vegna Föðurlands að föllum!
Komum til allir, sem ein sál,
að sigra dýrum eiði játum,
klár skal vort frjálsa stord fyrir stál,
stríð við drottnunar morð og bál
oss binda framar aldrei látum!

fyrr skal vort hel,
lángt heldur hel,
ó, hel! vèr á þig köllum,
það hnoss svo vænt er vel
vegna Föðurlands að föllum!

Heyr kappans sigur sinn við stig,
hvers blóð frelsinu síðast streymir:
"ó, hjartkær fold! ei harma mig,
að hefna sór eg fyrir þig,
og fyrr enn dýrum eið eg gleymi
fús bíð eg hel,
lángt heldur hel,
ó, hel! eg til þín kalla,
það hnoss mèr vill til vel
vegna Föðurlands að falla!

Þú heiður Frakklands! hugarfjör
hátt tendrar vort, ó, dýra frelsi!
eðla dropi skal í oss hvör
offraður þèr enn tróns við skör;
fyrr enn ný berum fánga-helsi
kjósum vèr hel,
lángt heldur hel,
ó, hel! vèr á þig köllum,
það hnoss oss vill til vel,
vegna Föðurlands að föllum.

Eg hlakka til þess hýra dags,
þá hrósar þú, jöfnuður! sigri,
þá unnt er góðum eðalhags,
þá eydd er gjörvöll heipt mannslags,
þá drekkt er prælkun drottinligri!

skal þá vor gleði skýjum ná,
skemtan lífs ei má bifa;
ó, það er heill svo há,
vegna Föðurlands að lifa!

## 31. HVERR VAR EG.

Quis hoc, quod exit, inchoante seculo
fui? futurum quid nihil.
Quis exeunte, quod dabit hic crastina
ero? creator noveris.

Hverr var eg þegar upp hófst öld
sem út nú fló?
ekkert, sem skapast átti þó.
Hverr verð eg þegar út fer öld
sem upp hefst nú?
Guð, minn skapari, það veizt þú!

## 32. HERSHÖFÐÍNGINN.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Der fromme General* í *sämmtliche Schriften,* 1765. 8, III, bls. 51). Prentað áður í Kvöldvökum II, 203—4. Hèr er eitt handrit hagnýtt til samanburðar.

Hæðandi helga trú
höfðíngi, trón sem bar, —
munu ekki margir nú
makar hans sitja þar? —
eitt sinn háaldraðan,
unnanda kristnum sið,
um hana hreystimann
hrakliga ræddi við

Háðfullum hætti mjög,
sem hlær einn stoltur af,
sá engin aktar lög,
utan þau sjálfur gaf;
"þèr, stillir! sturlið", kvað
stríðshetjan, "mína trú,
"og berið Yður að
"orðin fjörgamlan nú

"Lífshuggun, líkn í deyð
"laungum að svipta mig;
"illt hvað þess af mèr leið
"Yðar tign konúnglig?" —
"Alls ekkert" — kóngur kvað, —
"kappa þèr berið megn,

"og eruð (eg veit það)
"minn ágætasti þegn,
"Einföld, en ónýt trú
"ef þar er skilin frá;
"legg hana niður nú!" —
"Nei! aldrei læt eg þá!" —
"En ef eg Yður það
"alvöru býð af rót?" —
"Ei heldur", kappinn kvað,
"kóngs skyldu slíkt er mót.
"Guð Drottinn yfir á
"eignarráð minni sál,
"en öllum foldar frá
"furstum er dæmt það mál." —
"En hvað? ef ættum vèr
"á Yðar lífi ráð?" —
"Hinn kvað: "þau eigi þèr,
"því hef' eg traustri dáð
"Margt Yðar vegna við
"vogað, minn Herra! slag,
"og undir óviss grið
"æru Guðs fyrir í dag." —
"Ganti!" kvað gylfi, "en ef
"Guð sá er enginn til;
"en ef eg Yður gef
"um þetta fræðsluskil?" —
"Þá æskti' eg, ekki seinn,
"að fara í skelmis ham,
"og sè Guð ekki neinn,
"ei heldur skeytti gram;

"mörg þúsund mundu þá
"mèr líkir verða í her;
"af sprettur arður sá
"ó prinz! því kennið þèr."

## BRÚÐGUMINN OG DAUÐINN.

Eptir einu handriti.

Heim frá kirkjunni glaður gekk
garpur úngur, sem konu fèkk,
(bar eigi hvern dag brúðarkrans
beðja fögur sem þessi hans!)
í brullaups sal var báðum þeim
búið sæti, þá komu heim;
eptir algengum vana var
víndrykkja nóg og gleði þar.

Magnliga gjörðist drukkin drótt,
drafað var lengi fram á nótt;
kom þó loksins hin kæra stund,
sem kætir bæði menn og sprund;
brúðguminn skyldi búast við
að brúka gamlan hjóna sið,
hann skyldi þegar hefja sig
á hjónabandsins aðalstig.

Útá lukkunnar gullna grund
að gánga sú hann kvaddi stund;

það er: hann átti búin beð
að byggja sinni konu með;
en rètt í því að annað þar
af honum stígvèl dregið var,
inní herbergið einhverr gekk,
orð þessi varla stamað fèkk:
"Maður, ókennda mynd sem ber,
mjóbeinóttur við dyrnar er
(hræddur verð eg, ef hann fer nær)
honum að drekka buðum vær;
strax sór hann það, hann einum á
ei skyldi dropa bergja þá,
fyrr enn sitt hefði fengið hann
flutt erindi við þig sjálfan."
Brúðguminn fór, en — æ! hvað er
óttaligt fár sem nóttin ber! —
bersýniliga í beiskum móð
bleikur þar úti Dauðinn stóð;
gripu nákaldar greipur hans
grimmliga' í armlegg brúðgumans;
"þú skalt mèr fylgja strax af stað!"
styggur í bragði gestur kvað.
"Hvað? — eg þèr fylgi" — hermir hinn —
"heimtar þú, varla nærgætinn, —
og það nú, tíma þessum á, —
þú munt vitinu genginn frá.
Það væri snoturt, ef eg í
önnur mig klæddi föt á ný,
færi með þèr í dauðra dans
frá dýrgrip beztum ektamanns!

Eg, sem að stíga' í brúðarbeð
búinn stend öllum huga með!
ef þú setur þig í minn stað,
yfirvegandi gjörla það:
hvort gegna mundir þessu þú,
sem þannig af mèr heimtar nú,
línkindum sæta mundir meir,
enn mig að kalla burt í leir.

Dauðinn, er glensöl sjaldan saup,
sagði nú: "skenktu mèr í staup!
hlíft skal að sinni þessu þèr,
en þegar aptur mig að ber,
hafðu það fast í hug ávallt
hiklaust þú fara með mèr skalt!"
"Já!" kvað brúðguminn, "víst eg vil
vera þá ferðar búinn til.

Þó vil eg biðja þig um eitt,
það láttu mèr og einnig veitt,
ó herra Dauði! að yfir mig
ei falli grimmd þín hastarlig!"
"Herra brúðgumi! þú um það
þarft ei að efast", Dauðinn kvað,
"svo sannarliga sem mig þú
sèr drekka af þessu staupi nú."

Eins og þyrst sála Dauðinn drakk
og dör í sínar skeiðar stakk;
"þèr skulu gefast", hermdi Hel,
"hèr um þrjú teikn, og farðu vel!"
Herra Dauði þá hverfur skjótt;
Herra brúðguminn skundar ótt,

og undir brúðar brekán skreið,
bráðri feigð ekki lengur kveið.
Þar lá hann, en af þessa nótt
þó hafi getað sofið rótt
trúanligt varla telja má;
með tímanum hvarf ótti sá,
ár sèrhvert var nú uppfrá því
sem augnablik hans þaunkum í;
en konan jafnan eldtist þó,
ellihrum varð og loksins dó.
Á hennar myrkva beina-beð
herliga gat hann merki sèð,
hvað fyri sjálfum honum lá:
hann mundi Dauðinn líka slá;
ó nei, hálfníræð æfi hans,
með ár fimmtíu hjónabands,
sem únglíngs enn er kösk og kná,
kaldt hel fær aldrei minnt hann á.
Einn morgun merkti' hann mein á sèr,
magnlaus, án verkja, síðan er;
þareptir allri sviptur sýn,
situr í nótt, þá dagur skín;
vinir geðsmuni hresstu hans,
hermandi margt af efnum lands,
og, sem vant er: um veðurátt,
af verður annars mála-fátt.
En það varð nú að meini mest:
maðurinn heyrnar reyndi brest,
ofur-þýngð fyrir eyrun bar,
ei merkti glöggt, hvað talað var;

hugarfjör hans ei þverrar þó,
þá honum fast í minni bjó
þúsund-margt sem hann þekkti fyr,
þess minníng sat í brjósti kyr.
"Ljúk upp!" — hurð knýja höggin stinn
"Hver er þar?" — Dauðinn annað sinn.
"Nú er víst kominn tími til
að takir saman öll þín spil;
kom strax!" — "Hvað? herra kögglamann!
kall þitt ei gjörir alvaran,
míns húss ráðstöfun hlýtur fyrst
að hafa tíð, svo framkvæmist.
Hvar eru teiknin, hverjum þú
hètst forðum uppá æru og trú?"
Tók Dauðinn fyrir tal hans þá:
"teiknin?" segir hann; "hefir, sjá!
eg ei haldið mín orð við þig,
sem ærlig sál og trúmannlig?
hálfdauður, blindur, haltur nú,
með höfuðórum gengur þú!
Hvað hefir þú ámóti mèr
meir' að ræða til forsvars þèr?
eru þá ei hin töldu teikn
talandi nóg?" — "Ó, hvílík feikn!" —
"Strax hèðan burt og statt ei við!
stund þessi leyfir enga bið,
og ekki að talir eitt orð meir!" —
Út með það sama fóru þeir.

* * *

Heyr þú! sem veizt hvað vora
vegferðar-tíð á líður;
gef að oss hörð ei hæfi
heiptarör þín dýrkeypta!
eggjar lát hels ei höggva
hör lífs að oss óvörum!
ljá þú oss feigum, faðir!
forskot að iðrast brota.

## 34. SKAPADÓMURINN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Das Schicksal í Fabeln und Erzählungen*, 1765, I, bls. 73—74). Prentað áður í "Gamni og alvöru", II, 257—60. Hèr eru borin saman þrjú skrifuð handrit við bókina, og valið það sem bezt þótti fara af orðamun þeirra.

Hví villtu, maður! þenkja það,
þekkt munir fá og rannsakað
hátt ráð og dóma dýra,
hvar eptir veldi veraldar
voldugur drottinn allsherjar
gjörvöllu gjörir stýra?
skammsýnni viltu skynsemd með
skilið fá tilgáng þann og sèð,
er hinn óendanlegi
hefir sèr einum hugfestan
í hverju því sem skikkar hann
á stjórnar- vísum -vegi.

Þú sèr af öllu því sem sker
það aldrei rètt, sem liðið er,
og hvað það af sèr tèði,
en ætlast þó til samt að sjá
hin sönnu rök, og orsök þá,
hví svo er skeð sem skeði.
Allt Guðs forsjónar ráð er rètt
raunar, hvað sem hann lætur sett,
það er ei þitt meðfæri:
um heims tilfelli hver og ein
að herma' og vita fulla grein,
utan alvitur værir.

Vildir þú gjörvöll vita rök,
vísdómur Guðs og forsjón spök
hví láti hvað til bera
það sem viðgengst í heimi hèr,
himna Guð sjálfur, það sem er,
þú hlytir þá að vera;
lát þèr nægja, með lotníng há
hans leiðarstefnu' að prísa þá,
sem þú í sjálfs þíns anda
ofveikum sjónum ei til nær,
athugasemi þessa lær
af því eptir fylgjanda:

Það erGyðínga frásögn fróð,
framberandi þann lærdóm þjóð
allt það Guð hugað hefir
að vísdómsfullan sè á sett
sannleiks grundvöll, og skipað rètt,
hverr sem þar gaum að gefur;

og þó oss stundum þyki grimmt
það fyrir vorri sjón er dymmt,
— sá tíðum heyrist hljómur —
vissuliga þó sannur sè
samkvæmur drottins rèttvísi
og skýlaus skapadómur.

Þegar Móyses eittsinn á
upp rèði gánga fjallsbrún há
kóng fyri konúnganna,
bað hann, sèr yrði býtt af náð
betri þekking um eylíft ráð,
sem skiptir sköpum manna;
var honum sagt að venda sjón
á viðblasanda slètta frón,
sem þar lá einmitt undir;
hann, að svo gjörðu, verður varr
vatns uppsprettu, sem fram rann þar,
vökvandi grænar grundir.

Við hana sá hann stíga strax
stríðsmann reisanda hrygg af blakks,
og kæla brjóst með bifi;
sá burtu riðinn varla var
vífandi þegar pilt að bar
þángað í sama svifi;
frá hjarðar vöktun hann sèr brá
heilnæman vatnsdrykk til að fá,
því bitur þorsti krafði;
sjóð þar af gjaldi fullan fann

af ferðamanni glataðan,
brátt með hann burt sig hafði.
Hèrnæst þángað á bækjum drógst
hálfboginn karl, og nærði brjóst
með teig' af tèðum legi;
en að því búnu siga-sein
setti niður en þreyttu bein
að kasta mæði megi;
reikar-fjall[1] hans, af riðu hrist,
rèð sèr ekki, því hallaðist
að grundar faxi fríðu;
andlátsbróðir á augun rann;
ellinnar þúnga gleymir hann
þar í blundskauti bliðu.
Í þeirri svipun að honum óð
aptur kominn, sá misti sjóð,
vargur í vondu skapi;
hamstola geysar hótun með,
heimtar, að karlinn láti fèð
ellegar öndu tapi;
hinn gamli sór fyri gjaldsfundinn
með grát og kvein, en bölvar hinn
og ógnar æ því meira;
unz þetta veslíngs hruma hrör
hreppti mörg sár af víkings dör
og lá þar dautt í dreira.
Móyses fèll við sagða sjón
sorgfullu hjarta niður á frón,
en heyrði rödd svo ræða:

[1]) *reikarfjall*, höfuð.

"að í heiminum allt hvað sker
"eptir rèttvísi skikki sèr
"þetta skal þig nú fræða;
"því vita skalt að þessi karl
"þar, sem ná-blóði drykkjar hjall,
"fyrri varð föðurbani
"ens únga sveins, er fèsjóð fann,
"fengin með ráni og tapaðan,
"sem er víkinga vani.

## 35. SEMNON OG VEFRÈTTIN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Semnon und das Orakel* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 41). Eptir þrem handritum.

Sýn sókti mjög
á Semnon fýsn að vita
fyrir forlög,
framknúður af þeim hita
ei drýgir dvöl,
að Delfis [1] hofi rann,
og freistar frekt
frètta við goðs-altari,
en yfrið tregt
Apolló birtir svari
dóm dulin þann:

[1]) Delfi var ypparsta hof Apollons á Grikklandi, og stóð í Parnass-hlíðum.

"Þú mikla munt" —
mælir hann — "lukku hreppa,
"en sè þèr unnt
"að vitir, henni sleppa!"
Mun fyllta fá
forvitni Semnons það?
óneil því nú
með nýjum aukin blossa
sèr steypir sú
í sára bænar fossa;
hann klökkur kvað:
"Æ! megi megn
"manns bænar á þig vinna,
"guðdómur! gegn!
"og gjör forlaga minna
"nú leynda leið
"ljósari fyrir mèr!" —
Svo bæði' í senn
enn sami reynist maður
auðtrúa', og enn
aumliga vantrúa'ur,
sem Semnon hèr.
Hann trúði traust,
til þess að lukku hreppti,
ei ragna[1] raust —
nei! raunar það var eptir
hugarósk hans,
sem hafði fyrrenn bað;

---

[1]) *rögn*, goðin.

en hvort mun hann
hinu svo fast trúandi:
illt auðnu bann
að annarsvegar standi?
fjærri fer það!
  Af því það er
óskum hans gagnstætt næsta
hægt hyggur sèr
hann með forsjálni stærsta
að forða frá
fári, sem tilkynnt var;
hvað um það er
orðlengja þarf ei meira,
Semnon vill sèr
sín forlög kunngjörð heyra
þrábæninn þar.
  "Fær þú, kvað frètt:
"fyrir ást konu þinnar
"í stjórn og stètt
"stigið kóngstignarinnar;
"þjóðir, sem þig
"þjón áður höfðu sèð,
"þjónandi þèr
"þegar fram tímar líða,
"sem boðsvald ber,
"bendíngu þinni hlýða,
"magt hárri með."
  Svari Semnon,
í sínum styrktur huga,
vítt fram í von

víkur, þeim fyrr nam duga
pílagríms prik
prins-spíru í þaunkum ber,
án ríkis röð
ríkishöfðíngja semur,
og Týs á tröð [1]
teymir út, fyrrenn kemur,
sinn heilan her.

En allt hvað er
í anda Semnon glaður
samt lèt það sèr
sízt nægja fávís maður;
ei veit hann enn
allt það er vita kýs:
þá tignar tíð
á trón er stíga skyldi,
hart hugar stríð
hann bar, því ennnú vildi
þess verða vís.

Ó! ef eg strax
öðlaðist konúngs sæti,
þess hefðar hags
hvað lengi mun ágæti
mèr haldast hjá?
hugsaði Semnon það,
og eittsinn enn
sú efasemd hann keyrði
djörf, dárlig, senn

---

[1]) Týs-tröð, orrustuvöllur.

til Delfos, lítt því eyrði,
hann stökk af stað.
"Dauðligri drótt
"þú dári! mest til góða"
— kvað fréttin fljótt —
"fálu goð vitund þjóða
"ókomið allt:
"en vit: á skammri stund
"skrýðast skalt þú
"skarti purpurans væna,
"en sama sú
"sem þig hóf, önd mun ræna
"með tróni mund."
Nú Semnon sig
með sverði frægð á hleður,
öll ærustig
ættjarðar hæst upp veður
fóta skör frá,
fyrir sín hreystiverk;
svo tók með tíð
tilskipan forlaganna
hans harðla blíð
á högum nú að sanna.
guðmæli merk.
Svo Semnon bar
hans sívaxandi gæfa:
að virt sèr var
af veldis-drottníng hæfa,
hugástum hann
heitum að sæma með,

hjarta sitt hún
honum og kóngdóm skenkti,
en buðlúngs brún
og brjóst þó hræzlan krenkti,
sem geymdi geð.
Lèt hann lítt sú
lukkunnar smakka teiti;
en fagra frú,
sem fèkk að nokkru leiti
hann ástar unnt,
að öðru hryllti við;
til hálfs rèð hans
hug með þurrlyndis kvilla,
en mjúkan manns
munað til hálfs að fylla;
það firrti frið.
Nú ósk hans er
optar enn þúsundsinnum:
að honum hèr
hót af forlögum stinnum
ei væri víst,
svo vífið ektamanns
og ektamann
ektavífs njóta kynni,
og hennar hann
af heitum ástum brinni
sem hún af hans.
Hún fullvel fann
fylkis afundið sinni,
og hèlt, að hann

hjákonu' af ástum brinni,
svo dauða drykk
döglíng með eitri gaf;
hann fellur frúr
við fætur nár af dögum —
Mun — öld, leys úr! —
ei happ, að manns forlögum
veit enginn af?

## 36. GAUNGUMAÐURINN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Der Reisende i Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 52). Prentað áður i Vinagleði, bls. 152. Eptir einu handriti.

Guð, sem er yfir guðum neðri,
gaungumaður í straungu veðri
:|: um logn og sólskin biður blítt. :|:
Júpíter bæn ei hans vill heyra,
:|: himininn blès og draup þess meira, :|:
því viðra átti þann dag strítt.
Maðurinn ferðast mæðu hreldur,
með beiskri klögun áfram heldur:
:|: að guð ástundi manna mein. :|:
Hvenær sem ofsa-biljum bráðum,
:|: er brantar-teina [1] sviptu ráðum, :|:
laust á, úr munni lastan hvein.

[1]) fætur ferðamannsins, þ. e. þegar hann gat ekki stjórnað sèr fyrir ofviðri.

Skógur nálægur skjól má veita,
skundar hann nú til þar að leita
:|: í fárviðrinu fylsnis sèr. :|:
En áður ró í runnum næðist
:|: ræníngja sèr hann koma', og hræðist, :|:
strax í regni við staldra fer.
Ræníngiun greip og benti boga,
af bleytu slakan streng nam toga,
:|: morðör álagðri miðar vel; :|:
en regn og vindur ráð hans brjóta,
:|: rauk afllaus píla niður til fóta :|:
þeim færa skyldi' í hjartað hel.
"Dári!" Júpíter reiður ræðir,
"rèttvel þig nálæg píla fræðir
:|: "hvort eg lèt vera hvast um of; :|:
"ef sólskins-ósk væri' eptir gengið
:|: "örin, sem datt, þèr hefði fengið, :|:
"af stormi vörnuð, æfi-rof."

## 37. ÓGÆFAN.

Snúið úr dönsku úr bók sem kölluð er "Lækniriun frá Hamborg". Prentað áður meðal ljóðmæla sèra Jóns, í Hrappsey 1783, bls. 88. Eptir einu handriti og bókinni.

Örlögin stríð og auðnu bann
enginn að fullu varast kann,
það hittir hann;

annars skilja mætti mann
við sig sjálfan.

Og hverr mun fjendur alla þá,
ófarir manns sem girnast á,
fram talið fá?
varr um sig því vera má,
og vel sín gá.

Ógæfan, lærð á lymsku-bók,
í leyni vara á honum tók;
þó kempan klók
hennar bryti bragða krók,
nýtt böl sèr jók.

Sitt flækju net þá sjálfur spann
sífelt uggleysið gjörir mann
of óvaran:
óhætt nú, þar eitt sinn vann,
sèr hyggur hann.

En gleði sú er alltof fljót;
óvinar þó í skæðri nót
ei festi fót,
sjálfan rak hann sèr á mót,
ólukkan ljót.

Hann líkist flugu þeirri þá,
þannig eittsinn er náði tjá
með þjóst og þrá:
"ei mig lætur af að þjá
grey-svalan grá.

Umsitur mitt með brögðum blóð
bestía sú, við beljar glóð
út klakin, óð;

vorri skaði veikri þjóð
þar stórr af stóð.
Illfygli það oss eltir mý,
ótígin legstað fáum því
þess iðrum í;
því er bezt við förum frí
í fylsni ný!"
Vesælt kvikindi vildi sèr
við grimmri svölu forða hèr,
í fjós því fer.
Þar ei heldur óhult er;
sinn óvin sèr.
Námrík könguló net þar reið,
nýjan hin hèraf ótta beið,
í skjól því skreið;
þar sèr hugði griðin greið —
fann nóga neyð.
"Nei, þessi vefur ekki er
í auðu skoti" (flugan tèr
með sjálfri sèr)
"að eins til gamans hengdur hèr;
það fjærri fer.
Ei er eg lífs af fári frí,
ef fylsni þessu lengur í
hèr bíð og bý;
hvað mörg plága hrellir mý!
eg hèðan flý!"
Hún tafði sízt, og tók sèr hið
í tryggum stað, svo kvikindið
hlaut frjálsan frið

kóngulóar veiðum við
og svölu sið.
Þannig hún tvisvar færi fann
að forðast óvin skaðlegan;
en beið þó bann:
feig í ljósið fljúga vann,
til bana brann.

## 38. HALTUR OG BLINDUR.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Der Blinde und der Lahme* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 24). Eptir tveim handritum.

HALTAN blindur, sem hót sá eigi,
hittir eitt sinn á förnum vegi;
þegar gleðst hann um þánka stig,
að þessi muni leiða sig.
Hvernig mun eg þèr hjálpað geta?
enn halti kvað, er ei má feta,
þó sýnir mèr þitt breiða bak
að borið getir yfirtak.
Með því, ef nennir mig að bera,
mun eg þèr leiðarsýnir vera;
fæ eg þá styrkan fót hjá þèr,
en fullskygn augu þú hjá mèr.
Hinn halti fór á bak hið breiða
blindum, og prik sín þar nam reiða,
hèr gátu tveir því hjálpast að
hvorigur einn sem kom af stað.

* * *

Gáfur eigi þú hefir hinna,
hinum er varnað gáfna þinna,
og af þörfunnar þessum bag
er þjóða sprottið samfèlag.
Nema þess annarr neitun bæri
náttúran mitt sem bauð að væri,
hann mundi lifa sjálfum sèr
en sorga lítið fyrir mèr.
Kær því ei guð um kjör þín, maður!
kostur annarra, þèr synjaður,
björg er almenn, sem hætir skort,
bresti samfylgið ekki vort.

## 39. SAGAN UM HATTINN,

### FYRSTA BÓK.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Die Geschichte von dem Hute — das erste Buch*, í *Fabeln und Erzählungen* 1765, 8. I, bls. 4—6). Prentað áður í "Gamni og alvöru" I, 85—89. Eptir einu handriti.

Sá með hugviti fyrst upp fann
fallegan *hatt*, sem prýðir mann,
óbrettan lèt hann uppá svörð,
á axlir niður hèngu börð;
hann gat þó brúkað hatt fyrir því,
honum óx þar af virðíng ný; —
hann dó, — svo varð við helför hans
hattur kringlóttur erfíngjans.

Arfinn við hattbörð ofurslök
ekki gat hitt en rèttu tök;
hann hugsar ráð, og vel úr-vatt,
vefur tveim-megin upp sinn hatt.
Svo birtist hann; þá blöskrar drótt,
hvað blóminn hatts er aukinn skjótt; —
hann dó, — svo varð við helför hans
hattur tvíbrotinn erfingjans.

Arfinn tók hatt og blótar bist,
bót kvaðst þó sjá, er útheimtist;
með stakligt gjörir hugvit hann
hattinn, án dvalar, þríhyrndan.
Fólkið undrast þá miklu ment,
mælti: "Stórt vit er þessum lènt!
sjá dásemd hitta dauðligs manns!
dýrð er hann rètt síns föðurlands."

*(ítrekast þannig:)*

Fólkið undrast þá miklu ment,
mælti: "Stórt vit er þessum lènt!" —
hann dó, — svo varð við helför hans
hattur þríspertur erfingjans.

Saur nokkurr á var fallinn fat,
farið víst ekki hjá því gat
í höndum fjögra, þessi því
það litar svart, að einhver ný
hans uppáfinning sýndi sig,
ei síður hinna furðanlig;
"Heppið tilvik af huga manns!"
heill borgarlýður gaf það ans.

"Svo djúpsær maður enginn er,
"að jafnist við hvað þessi sèr;
"hvítan hatt á að setja sig,
"sú breytni mjög var blæilig;
"svartur, minn bróðir! svartur, já,
"situr hatturinn bezt þèr á!" —
hann dó, — svo varð við helför hans
hatturinn svartur erfíngjans.

Hattinn erfínginn heim svo ber,
harla trosnaðan orðin sèr;
hann grundar ráð, og falligt fann,
færðan lèt uppá trèkubb hann,
með heitum burstum fægir fat,
faldað umkríng með borða gat. —
Nú gekk hann út, og sig lèt sjá,
sèrhverr maður nam hrópa þá:

"Hvað sjáum vèr? mun töfrum tælt?
"til reiddan hatt! ó, land farsælt,
"sem villa' og myrkur flýja frá!
"framar dauðligur enginn má
"huganum spinna háleit verk,
"enn höfuðs þessa vizka sterk!" —
Hann dó, — svo varð við helför hans
hatturinn snúinn erfíngjans.

Uppfinníng miklar meistarann,
minnandi seinna fólk á hann;
erfínginn tekur borðann burt,
bryddíng forgyllt er meiri kurt;
hatt fèkk dýrðligan hnappur gert
höfuðið settan á um þvert,

Lýðurinn, þegar leit nú hatt,
af leik og skemtun um sig datt.
"Nú fyrst er kunstin hafin hátt,
"hann einn fèkk vit og þánka-mátt,
"aðrir hjá þessum eru' ei meir
"enn ekki parið" sögðu þeir, —
hann dó — svo varð við helför hans
hattur gullbryddur erfingjans; —
líkan honum í landi stadt
lèt sèr hvert mannsbarn gjörðan hatt.

* * *

Hvað síðan er við hattinn skeð
í hinni bókinni verður tèð,
ætíð hver sem hann erfði kind [1]
af honum tók þá fyrri mynd;
umgjörðin hatts varð alltíð ný,
eltist hann sjálfur fyrir því.
Að eg fám orðum segi satt:
sem um Heimspeki, leið um hatt.

---

[1]) *kind* merkir hèr afsprengi.

## 40. DRAUMGLEÐIN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Der süsse Traum* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 50). Útlegging Sveinbjarnar Egilssonar á þessu kvæði er prentuð í Klausturpósti 1820, bls. 36—38. Hèr er fylgt eiginhandar riti sèra Jóns.

Með draumum, þeim oss tíðum tæla,
Tímon ein gríma kæta vann;
honum veittist í svefni sæla
sú trautt vakanda' í þánka rann.

Maðurinn sjá úr miðju fleti
mikin upp koma þóttist sjóð,
og hann á sömu svipstund lèti
sett lysti-slot þar kot hans stóð.

Forstofan öll var full með þegna,
fáklæddur hann við ón þá sat;
beið margur, unz hann hjóst að gegna,
bljúgur, sem fyrr hans varla gat.

Vífin, sem opt í vöku píndu
viðmóti styggu Tímons geð,
honum nú fulla sælu sýndu,
sig því elskaðan dreyma rèð.

Hann kallar upp og dillar, dýra
Dóris því þótti faðma sig:
"Ó Dóris! þú mín huglyst hýra!
"hefir nú Tímon sigrað þig?"

Hans rekkjubróðir heyrði' hann dilla,
hugsar að draumur tæli mann,

viljandi skyldu vinar fylla
vitrunum firrir sofandann.
"Lát þig ei", kvað hann, "vèla, vinur!
"villtur af draumi, hresstu þig!" —
"þú trygðarilli!" Tímon stynur,
"tign þú hvílíkri sviptir mig!
"Þú ollir, draum að minn eg misti,
"mig því þín raust frá skemtun dróg,
"sem eg ei hèlt að sannleik hristi! —
sá eg ei gabbið, það var nóg!"

* * *

Þèr, sannleiks vinir! þrátt oss pínið
þènustu góðvild yðar með,
og rósemd vorri tíðum týnið
í tilsögn; vort er fræðir geð.
Hverr yðar villu hað að banna?
sem brjósti voru' er yndælt hnoss,
og þótt á treystum svosem sanna
samt skaðar minna enn gagnar oss.
Sá stríðir hálfum múga manna,
sem mis-sjón alla fá vill slökkt;
flestar tegundir fagnaðanna
fæðast af því menn sjá ei glöggt.
Hvað þenkir kappinn dráp við drótta?
að drengja vaskra mestur sè.
— Látið hann kátan þeim af þótta! —
það varnar honum hugbleyði.
Spyrjið: hvað ætlar Aðalheiður?
— að elska bóndans nóg sè trygg —

dyljið, þó slíkt sè ósær eiður,
að konuskepnan verði' ei hrygg.
Hvað ætlar bóndinn sè hún Setta?
sjálft skírlífið og dygðin hrein;
eg veðja, hann fer villt um þetta;
veiztu betur, en hann því leyn!
Hvað þenkir ritari' heimspekinnar?
"Hofið [1] mig les og tignar borg."
Leyf honum villu lundar sinnar,
að letjist þánkinn ei af sorg.
Gegnum allt manna líf þú leita!
lýð hvað til stórra verka knýr?
hvað plagar ró og huggun veita? —
heil-opt sæt grilla' og draumur rýr.
Það nægir, fró oss þaðan streymir,
þó þúsundsinnum sè hún tál;
víki burt gjörvöll villa úr heimi,
að vera maður kveldi sál.

## 41. DRAUGURINN.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Das Gespenst i Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 19). Útlegging sèra Hannesar Arnórssonar á þessu kvæði er prentuð í Kl. pósti 1820, bls. 110—112. Eptir þrem handritum.

Sagt er mèr að seggur einn
sínum byggi' í ranni,

[1]) þ. e. konúngur og hirðin.

andi nokkurr, ekki hreinn,
á hann bar
lengi þar
neyð og kvöl um næturnar,
náðir tók frá manni.
Vondri til að verjast feykn
vildi bóndinn læra
særingar og töfra teikn,
til var reynt,
fór þó leynt,
varð ei draugnum við það meint
vill hann manninn æra.
Engar þulur orka þar,
ekki hræddist vofa
rúnir eða ristíngar,
reifum í
hvítum því
hverja kemur nótt á ný
nær sem hinn vill sofa.
Undi bóndinn illa við
einn um nótt að vaka,
bað því komin bragarsmið
að bíða þar
sem hann var,
og skáldmæli til skemtunar
skrítin upp að taka.
Halur gól, en hlustar til
hinn sem kvelst af álfum;
það var sárkalt sorgar spil
sem hann las;

þetta fjas
þó að bónda þætti mas
þóknaðist honum sjálfum.
  Birtist, einsog venja var,
vofan húsbúanda,
seggur þótt ei sæi par,
sem las óð,
þar hún stóð,
sín hann þulin lætur ljóð;
leiðast tók það fjanda.
  Frásögunnar fyrsta þátt
fraus hann við að heyra,
fyrr enn annarr hyrjast brátt
burtu hvarf;
ekki þarf
hinn sitt magra stefja-starf
að stauta fyrir hann meira.
  Bónda varð í brjósti rótt,
bata-von hann gladdi,
aptur lætur aðra nótt
óðarsmið
þylja grið;
strókur kom, en stóð ei við,
strauk og engan kvaddi.
  Bóndi kvað við sjálfan sig:
"svo fer lángtum betur,
skjótt burt fæla skulu þig,
skelfir minn!
ljóðmælin,

höfuðfjanda þennan þinn
þú fyrst heyrt ei getur.
 Einn var bóndinn eptir það,
á fèll þriðja gríma,
tólf þá stunda-klukkan kvað
kemur inn
draugurinn,
"Jóhann! Jóhann!" hrópar hinn,
"hraðaðu þèr í tíma!
 Skjótur vert, og skáldsins til
skilaðu kveðju minni,
sitt eg bið hann sorgarspil
senda mèr,
þetta kver
litla stund svo lesist hèr
líkt og fyrra sinni!"
 Draugnum þetta skelk að skaut,
skjótt hann sveini bendir
hann ei skuli bruna braut,
brátt á ný
hverfur ský,
andi hvítur upp frá því
aldrei þángað vendir.

* * *

 Undra-tilburð hermdan hèr
hverr sem lesa náir,
leidd þar útaf láti sèr
lærdóms rök
eigi slök:

engin finnast ljóð svo lök
að lið ei neitt af fáir.
Hafi vofur andstygð á
illa sömdum kvæðum,
oss það huggun auka má,
en þótt vèr
flakka hèr
drauga sæum heilan her
hræðslulausir stæðum.
Skjótt vèr mættum skörum þeim,
skjómar þó ei biti,
sópa burt, ef sæktu' oss heim
síð um nátt,
ekki brátt
verða mundi vopnafátt,
því vísur aldrei þryti.

## 42. TESTAMENTIÐ.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Das Testament* i *Fabeln und Erzählungen* 1765, 1, bls. 34). Eptir þrem handritum.

Fílemon, stórum gjalds með grúa
góðfúst er höfðings-sinni bar,
gat þó ei alla gjört sèr trúa
nè gauðin forðast öfundar,
hvernig sem hann í mein sèr mest
margopt annarra græddi brest.

Einnig þeir sem hann öfunduðu
aðstoðar nutu hans því meir;
honum þó sárast hatur buðu
hans nágrannar af öllum tveir:
þeir hvíldu ei nè lètu lon
að lasta' og spotta Filemon.

Hvarfyrir gjörðu þeir nú þetta? —
því hann svo lukkugefinn var,
og honum gæfu sáu setta
sem mikið yfir þeirra bar;
eða var slíkt ei ærið nóg
illvirki fyrir, last og róg?

Eggjuðu vinir hann að hefna
á hinum sinnar forsmánar,
en slíkt var ei til neins að nefna;
"nei, látið þá" (hann gaf til svar)
"af öfund lasta mig sem mest,
meðan þeim dugur til endist!

Minn eptir dag þeir munu kunna
að meta, hve þeim sómdi lítt
mèr lukku þeirrar ei að unna
allfáir vel sem geta nýtt." —
Hann deyr; og finnst, sem hèr er kennt
hans eptirlátið testament:

"Nær dauðinn býður það eg þrjóti,
þá vil eg öllu mínu fè
tveir mínir grannar taki' á móti,
til þess að arfur þeirra sè;
af því þeir sjálfir aldrei mèr
unnt gátu þess að njóta hèr."

Fílemons vinir fullum ama
formæltu Testamenti því:
"gat eg ei" (hverreinn sagði sama)
sýnt honum öfund líka frí?
þó lèt hann gjörvallt þannig veitt
þessum tveimur, en mèr ei neitt."

Hinir tveir sjá með glöðu geði
gjafabrèfinu fullnægt þar,
því vizkan mönnum þrek ei lèði
þeim dögum á til málsóknar,
annars hefði þar aldrei fis
út komið þeim til hlutskiptis.

En þannig fengu þeir án mæðu
þennan gjörvallan aura fans;
ó! hversu mjög þeir opt í ræðu
upphófu dygð ens sæla manns!
sjálf rausnin nú, sem hæfði hrós,
hann var, og allra tíða ljós.

Gat testamentis-gjöfin setta
gjört honum svoddan umbreytíng?
því áður var hann aldrei þetta
á þeirra túngu land umkríng;
en — urðu þeir sem fengu fèð
farsælli nú? það gæti skeð!?

Áhrærum þá með orðum styztu,
atburð beggja nýju kjör:
annarr þeirra gaf aura-kistu
í offur bæði ró og fjör;
nirfillinn hendi nízkri með
nótt og dag hana vakta rèð.

Opt vakir hann, þótt aðrir hrjóti,
óskandi sèr með tárum heitt:
að vondra þjófa vèlum móti
vitugum ráðum gæti beitt;
dauðskelfður þrátt úr fleti flaug,
fólans leitar þar draumur laug.

Með þúsundfaldri þræls-umsorgun
þjáir hann sig, að aukist fèð,
og ræðst, í móti rentu-borgun
að reyna', ef helftin verði lèð,
en lætur hvern sem æskja vann
alltíð burt fara tómhentan.

Fátækur át hann saðníng sína,
en sveltur aura mikla við,
hann lætur fyrr sig húngur pína
en hálfan á sig horði kvið,
klagandi guð og óár aumt;
öllum skamtar hann sínum naumt.

Svo er hann þeim ein sífeld mæða,
en sèr dagliga plága ný;
sá annarr garpur hann rèð hæða:
"heimsku þvílíka", kvað, "eg flý,
"eg vil brúka þann arf eg á
"og lifa glaður sem eg má."

Heit þessi skjóta fyllíng fundu:
á fáum árum gjörvallan
auð lítur sinn í annarra mundu;
óþekktur fótum sleikir hann
götur, sem fyrri gaspráð á
gortfullur hafði til og frá.

Við hinn erfíngjann hann þá segir:
"hefir Fílemon þetta sèð,
að ríkdómurinn okkur eigi
auðgaði nema spillíng með;
þar fyrir hefir okkur ört
eigendur hann að sínu gjört.

Þú kvelst og sveltur heiln húngri
af herfilegri nízku þó,
en eg plágast af örbirgð þúngri,
því öllu kastað hefi í sjó;
við auðs makligir vorum, því
villtur er hverr hans brúkun í!"

## 43. ERFÐARGJÖFIN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Das Vermächtniss* i *Fabeln und Erzählungen* 1765, II, bls. 47). Eptir þrem handritum.

Orontes dýrmætt happ það hreppti
heiminum í, sem aumur títt
fjárhirðir naut, en fursti sleppti:
falslausan vin með lyndi blítt
að vita stöðugt unna sèr;
æskiligasta hnoss sem er.

Orontes — sá er auðnu slíka,
allt hvað fátækur hann þó var,
ástundað gat og öðlast líka —
í rekkju lagðist helsóttar;

bartskeri lærður bana sá
berliga vissan honum á.
Og húss ráðstöfun hann á minnir,
helstund því nálæg væri sjálfs,
vill hinn, afhuga veröldinni,
vænta dauðans í anda frjáls;
vin sinn kalla sem hráðast bað,
brá og Pýlades strax við það.
Orontes blíðum örmum spennti
ástvin, og mælti: "burt eg fer
í gröf, en það sem guð mèr lènti
góði vin! eptirlæt eg þèr: —
on minn uppala' og fæða frú —
fullmakliga þess nýtur þú!"

## 44. SÁ FÖÐURLAUSI.

Snúið úr dönsku. Eptir tveim handritum, og er annað með hendi sèra Jóns.

FRAMANDI kom eg fyrst híngað
föðurlaus, sviptur öllum mínum,
eitt hjarta bar, eg átti það,
og iðjum tamar hendur sínum;
*Marteinn* karl að sèr mig þá tók,
mèr og hvervetna gæfu jók.
Hann var hygginn með eðal-óð,
(eðla kann líka bóndinn vera)
stolt hans búskapar stètt var góð,

stórmennska: ráðvant þel að bera;
hann endti, guði og hilmi trúr,
hýrt líf rósömum andláts-dúr.

Helgikvöld sat eg honum með,
húsfreyjan áður borð upp lèti,
spurði þá karl með glaðvært geð:
"girnist þú, *Jón!* að fá *Margrèti?*"
kætin mèr túngu keyrði í bönd,
kysti' eg þegjandi födurhönd.

* * *

Þèr vil eg, Faðir! þessa gjöf
þakka, sem hinar óteljandi
fyrir hèðan og handan gröf,
hugur meðan er til og andi;
hans skal í minni þökk til þín,
þín velgjörð er í hans til mín.

## 45. FÁTÆKLÍNGURINN.

**Snúið úr dönsku. Eptir eiginhandar-riti og einni afskript.**

Einn kofi stóð, og ekki meir,
í dal hjá læk óvirtur,
var hálmur þak, en veggir leir,
af villum rósum girtur;
öreigi nokkurr í honum bjó,
af sínum frómleik glaður þó.

Fá hjörð hans litlu fold um rann
frændur hans víf ei kenndi,

hún var fátæk og fróm sem hann
fyri það átti hann kvendi;
grètu þau ei, nè gátu um nauð,
guði þökkuðu vatn og brauð.
Eitt kvöld um vorið hann og hún
hèldu sig nálægt inni,
"heillin mín!" kvað hann hýr á brún,
"hèr kom mèr ráð í sinni,
að bæta nokkuð bræðra þörf
brauðs þótt við eigum spara körf.
Á eyði-sandi þú sèr þann
þjóðveg um nakið svæði,
þar fyri lúin ferðamann
finnst ei hið minnsta næði,
við gætum hvert ár trè þar traust
til nota plantað vor og haust.
Þá fyrst rann dagur fóru hjón
fegin að þessum önnum;
laufgaður prýðir lundur frón,
lúnum skjól ferðamönnum,
þar voru og grafin þeirra bein,
þó neinn ei fengi minnisstein.[1]

[1]) e. merkisstein, leiðisstein, bautastein; *skáldið.*

## 46. KARLINN VÆNI.

snúið úr Gellerts kvæðum (*Der Greis* í *Fabeln und Erzählungen* 1765. I, bls. 7). Útlegging Séra Þorsteins Sveinbjarnarsonar á Hesti er prentuð í Vinagleði bls. 25; hèr er fylgt eiginhandar riti Séra Jóns, samanbornu við tvö önnur handrit.

---

Um karl einn vil eg hefja hróður,
heim er níræðum augum sá,
og lukkist mèr nú ei minn óður
um eilífð það ei verða má.

Um karl einn vil eg lofdikt laga
og lýsa því hann kraptað fèkk,
hvað mèr birt hefir sèrhver saga
sem eg las um hinn gamla rekk.

Kveðið þèr skáld með eld í anda
á yður frægð um vín og lofn!
lofn og vín yður eg læt til handa,
lofkvæðis míns er karlinn stofn.

Eilífa gjörið yður með saungum
um þá sem vernda lönd og þjóð!
af kappa-verkum kveð eg aungum
um karlinn mín sèu gjörvöll ljóð.

Þrengst í aldir, þær eptir líða,
öll frægð, sem þessi karl sèr bjó!
heyrið það, eyru hverra tíða! —
hann fæddist, lifði, kvæntist, dó.

---

## 47. BÆNASYSTIRIN.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Die Betschwester* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 21). Eptir þrem handritum.

Virta frú, en vandaðasta
vorri er finnst í allri bygð,
í klæðaburði' og fasi fasta
frómleiks ætíð sýnir dygð,
munn af saungs- og bæna- ber
-hýsnum fullan, hvar sem er,
mæta kvendið mjög fásèða, —
mun' ei vert um hana' að kveða?

Hversu mjög er höfðíngs ekkju
hegðan gjörvöll lærdómsrík:
varla fyrr hún rís úr rekkju
reifar kroppinn varla flík;
formerkt varla fáum vær
fyrr, að klukkan átta slær,
en til bænar víf að vanda
víkur, fyrir dag komanda.

Sú þótt hafi silkitróða
sextugs aldri fullum náð,
hreinlífis um gæzlu góða
grátbænir hún himins ráð,
og þótt hafi' um æfistig
aldrei borðað metta sig,
hún samt æ um hófsemd biður
hjartanliga fyrir sín iður.

Þótt hún panta ofaná alla
óski rentu láns af fè,
herrann gjörir hún ákalla
um hjálp í sínu volæði;
hèr má líta hjarta frómt;
hèr er meir enn nafnið tómt;
hvílík ástar heilög stilli
himins er og frúr á milli!

Tvisvar les hún út á ári
allar bækur ritníngar,
heimilið af fjandans fári
frelsar svo til eilífðar;
sálma tólf um sèrhvern dag
sýngur hátt með raddar lag; —
Hverr mun sá er híngað kemur?
hrumur karl á dyrnar lemur.

Haf þig burtu, dælskur dári!
dirfast ætlar máske þú
barlóm með og betli-tári
bænarsaung að glepja frú!
hún þá sýngur, heyrir ei,
haltu það sem væri nei!
gakk þinn veg af húngri hrjáður,
hýma máttu jafnt sem áður!

Hún er búin hjarta' að lypta
himins til í bænastað;
á hún sèr af aumum skipta
en frá guði draga það?
hátt sýngjandi bitann ber
Beata' uppað munni sèr,

vondra, meðan tyggur, tíða
tekur gáng með lasti níða.

En hverr bángar aðkomandi
aptur nú á hennar dyr?
er það kona í aumu standi
örbirg sem að henni spyr;
brauðs á engan bita sú —
"burt með yður!" kallar frú,
"matfrið þurfið mèr ei banna
"með áreitíng horsníkjanna.

"Mun ei vera satt hvað segi:
"sýngið ei nè biðjið þèr,
"frómleik stundið, frestið eigi
"framkvæmd þess sem skyldugt er!
"sínum aldrei gleymir guð! —
"geng eg þannig sárhúngruð
"nokkurntíma brauðs að biðja?
"bæn og saungur skal vor iðja!

Mun þá ekki frúin fróma
framar naum og hörð enn ber?
mun ei síður mega róma
meðaumkun enn stríðu hèr?
nei! til stærstu nytsemdar
nauðlíðendum æ hún var,
burtvísun og bríxlum meður
betran þeim af henni skeður!

Þeim að iðn og bæn hún bendir; —
býður ekki ritníng það?
fèstyrks eflir fús með hendi
fólk einasta rèttsinnað;

hverr það nokkurt vera veit
víf frómlundað hèr í sveit,
er ei hjálpar athvarf finni
auðgrund hjá í mæðu sinni?

Fái það í frèttum henni
fært hvað lítið vera kann,
fim er hún sem fákur renni,
fè launandi greiða þann.
Ójá! bæði dáða dug
drósin ber og ljúfan hug,
hversu mart sem heimur lýta
hyggst þar finna, til að víta.

Ei Beata' að eins lifendum
er til liðs og þarfa neyt,
hennar gjöful hjá örendum
hönd inn skuld að leggja veit:
nær er borið barn að gröf,
Beatar hvers kista gjöf
annarra framar ekki hrósi,
er það prýði-kransinn ljósi?

Hvenær erfis- hverreinn -gestur
hvetur ekki mál að tjá:
krans Beatar kom þar beztur,
krossmarkið var lyst að sjá! —
hverr mun gefið hafa það?
"hún Beata," er ansvarað,
"líki það til sóma sendi,
"sèrligasta dygða kvendi!"

Ef að mínar æfistundir
yfir lifði þessi frú,

vissuliga veitast mundi
virðíng mèr af henni sú:
að eg fengi forsilfrað
fjalhús mínum beinum að;
altarið með prakt hún prýðir,
prèdikunarstólinn skrýðir.

Næstkomanda nær eð ljóma
nýárs tekur fyrsta sól,
aldar þrátt fyrir öfga dóma
altarið og ræðustól
ríkugliga mun reifa svinn
rausnar frú í þriðja sinn,
þvættíngs munnar þó á víki
það sè gjört af ærusýki.

Konan, sem í kistil gjafa
knýti fullu læddi seint,
seg mèr: verið hverr mun hafa? —
hennar nafn er þegar greint:
guði Beata' æðstum ann,
aldrei treg nær gefa vann,
hverr má þar um hana víta
hinir slíkt þó kunni líta.

Lát, Beata! lastaranna
leiðar túngur mæða sig,
með illkvittni miður sanna
mælandi svo ljótt um þig:
að þú viljir mútum með
mildíngs himna fleka geð,
okur þitt og ágirnd rânga
óstraffað svo láti gánga.

Lát með spotti laungum hina
leggja slíkan á þig dóm:
vömmum sèrt á veröldina
vön að ljúga, sjálf ófróm,
og að kærust sè þèr sú
sagna fregn, nær heyrir þú,
einsog mesti mæta feingur,
móti þegar öðrum geingur.

Öll þín dygð sè látalæti,
logið tál og yfirskyn;
en eg stórum þessa þræti
þó við yður, spèlna kyn! —
allir saman þegi þèr!
það getur ekki staðizt hèr!
biðjandi því fer á fætur
fljóð, og leggst með saung til nætur.

## 48. LAND ENNA HÖLTU.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Das Land der Hinkenden* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, 8, I, 14). Prentað áður í Kvöldvökum II, 202. Eitt handrit er hèr hagnýtt til samanburðar.

Forðum eitt lítið land til var,
lifandi sást ei nokkur þar
óstamað talað orð sem fèkk,
og ei haltraði, þegar gekk:

ágæti mat það innlend drótt,
aðkomnum sýndist manni ljótt;
hann þenkti: "hèr mun öldin öll
undrast hvörnin eg spránga völl."

Með stífum fótum storð hann trað,
starsýnt varð hverjum manni' á það;
allir, sem komu auga' á rekk,
að honum hlóu, nær hann gekk,
flissandi stóðu og "ferðaláng
fallegri", sögðu, "kennið gáng!"
ámæli það, með öllu villt,
af sèr að reka mat hann skylt.

Hann kvað: "þèr haltrið, en eg ei.
af skyldi lagt það vanagrey!"
uxu þá sköllin miklu meir,
málfæri gests nær heyrðu þeir;
hann stamar ei, en stillir tal;
að stóru brígsli varð það hal;
fyri rètt orð og fótatak
forsmán allt landið á hann rak.

* * *

Vaninn gjörir, að vömm er fríð,
vèr sem frá barndóms sjáum tíð;
verk það forgefins vogað er:
vitsmuni þó sá meiri ber
heimsku vorrar oss segi sann,
sjálfir höldum vèr dára þann,
einasta fyrir orsök þá,
að honum vit er meira hjá.

## 49. BETLARINN.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Der Bettler* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, I, bls. 30*)*. Eptir tveim handritum.

---

Betlari kom með beran fal
á bæ hjá einum ríkum hal
og lítin bað um líknarskamt
sem líkum hans er næsta tamt:
"yðar kristiligt kærleiks þel",
kvað hann, "eg þekki mikið vel!
"Ástundan það er yðar mest
"annarra kjör að styrkja bezt,
"og um hvern þann, sem ánauð ber,
"alltíð í brjósti kenni þèr,
"af því veit eg mín auðmjúk stun
"yður til hjarta gánga mun.
"Óskikkanligu móti með
"(megi þèr gjörla fá það sèð)
"heimta eg ekkert, heldur mæt
"á hjartagæði mig forlæt,
"að mitt vesældar- aumkið -líf." —
Í því sýnir hann nakin knif.

* * *

Sólgnir ritendur sitt í hrós
með sömu breytni koma' í ljós,
þegar þeir vilja frá oss fá
fylgis-dóm lagðan verk sín á:
með komplímentum kunnug gjörð
krafa sú verður miklum hörð.

Út-kúga vill ei átor [1] hann [2],
ónei, hann treystir góði mann
vorri rèttsýni, vill þó nú
við sporna því, að gleymist sú;
í báðum höndum undireins
otar því stríði' og hótun meins.

---

## SAMA KVÆÐI ÖÐRUVÍSI,

prentað eptir kvæðasafni ens íslenzka bókmentafèlags, VIII, bls. 338. Útlegging þessi er nokkuð fjær frumriti Gellerts.

Betlara nokkurn bar um kvöld
að bæ hjá einum ríkum höld
og lítin bað um líknarskamt,
sem líkum hans er næsta tamt:
"yðar kristiligt kærleiks þel",
kvað hann, "eg þekki mikið vel.
"Yðar góðvild og örlát hönd
"æ hins fátæka leysa bönd,
"já, um sèrhvern, sem aumur er
"altíð í brjósti kenni þèr,
"af því veit eg mín auðmjúk stun
"yður til hjarta gánga mun.
"Þèr heyrið, að með harðri fíkn
"heimta eg ekki neina líkn,

[1]) *Autor*, þ. e. rithöfundur.
[2]) þ. e. fylgis-dóminn.

"heldur mín auðmýkt hjartanlig
"á höfðíngskap yðar reiðir sig
"að mitt vesældar- aumkið -líf!" —
Í því sýnir hann nakin kníf.

* * *

Sólgnir ritendur sitt í hrós
með sömu breytni koma' í ljós,
þegar þeir vilja frá oss fá
fylgis-dóm lagðan verk sín á;
með komplímentum undireins
ota þeir bók og hótun meins.

## 50. KÓNGULÓIN.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Die Spinne* i *Fabeln und Erzählungen* 1765, 1, bls. 47). Hèr er fylgt eiginhandarriti sèra Jóns, og borið saman við tvö handrit önnur.

Aptur fyrir sig augum brá
illúðlig kónguló
gagnsærri vefjar-glipju frá,
glöð sinnar konstar þó,
silkivefnaðar orm einn á
er henni nærri bjó;
uppblásin hún af þótta þá
þúngan svip á sig dróg.

Lík fals-kurteysisfullum segg [1],
fánýta ment sem hlaut,
og niðurgrafinn allt á skegg
innanum verk sín flaut,
ef skólasveinn með uppfrætt negg
að honum kveðju skaut,
hègómans einmitt hinn úr dregg
hornauga til hans gaut.
Silkisormur, þann fyrir fám
fært hafði dögum inn
til gamans, og að fjölga fjám,
forsóktur húsbóndinn,
á kóngulóna skoðunar-skjám
skaut, laungum aðgætinn,
og spjátrúng þann með sperru-knjám [2]
spyr: hvað er vefur þinn?"
Hún lèt þá aptur heyra' af sèr,
heiptin því nísti geð:
"þú fipar, glópur! fyrir mèr
"fánýtri spurníng með;
"það sem eg vef fyrir eilífð er!"
Eptir það drambsvar tèð
stúlku með sóp þar strax að ber,
stofuna hreinsa rèð.
Allt hvað óklárt á veggjum var
vöndurinn burtu strauk,

[1]) *Pedant* hefir Gellert.
[2]) Knè kóngulóarinnar eru lík sperrum í húsi.

veg kóngulónni vísar þar,
og vefjar eilífð lauk.

* * *

Hverja ment sem þitt hugvit bar,
hún ef er óþarft mauk
en neinum ei til nytsemdar,
að narri þitt verður brauk.
Gellur á móti gortfull raust
glis þess er stundar bert:
er þá allt starf, sem eg í brauzt,
ei minnar þakkar vert?
þèr svarast, kæri! látalaust,
lángtfrá! eg neita þvert!
því gagn ei meira þèr af hlauzt
en þeim sem vann ekkert.

## 51. ÞRÆTNA KONAN.

Snúið úr Gellerts kvæðum (*Die Widersprecherinn* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, 1, bls. 38. Eptir þrem handritum.

Ísmena hèt auðar-hlíð
einhversstaðar á fyrri tíð,
eðlisgáfa mörg og ment
mælt er henni væri lènt,
þó hvað helzt, að þrætin var og það gat kennt.
Almennt er um breiða bygð
borin fljóðum þessi dygð;

þúsundsinnum þó nú ríkt
þvogli heimur allur slíkt
hygg eg það sè húsgángs kvis og helzt-til ýkt.
  Opinbert og fortaks-frí
fyrir öllum lýsi' eg því:
að eg trúnað aldrei skal
um eilífð leggja' á þetta hjal,
merkiligri mín er raun um margt kvennval.
  Opt eg nefndi fagra frú
ferlíki þó væri sú,
því eg kaus að þar á mót
þræta skyldi við mig snót,
en hún nunnað í þann veg lèt aldrei hót.
  Er því rángt, að öllu sè
eignuð þrætnin kvennfólki;
yður niðrar þannig þjóð
þrátt án saka, kæru fljóð! —
Ísmena vill á sig minnist aptur ljóð!
  Það eg játa, að ei er ein
illkvittni, þótt menjarein
þeirri sè um þrætni kennt,
það var hennar aðalment;
sönn er þarum saga gjörð og sett á prent.
  Manni sínum með við disk
menþöll sat, og hafði fisk
fram, með öðru, soðinn sett —
sýnist mèr eg geta rètt
þó eg steinbít þennan nefni þokka-rètt —.
  "Hjartað mitt!" kvað halur stillt,
"heldur þú eg fari villt?

"mèr finnst einsog maturinn
"muni vera linsoðinn!" —
"þessu spáði" — þá við gall hún — "þánki minn!"

"Hèr, sem optar, heyrist það:
"hvað vel sem eg ber mig að
"orsök finna þykist þú
"þína til að sneypa frú;
"verða laungum við þig föst mun venja sú!

"Fám orðum skal fullsagt þèr:
"fiskurinn dável soðinn er!"
"víf mit kæra!" verr þá kvað,
"við skulum ekki deila' um það
"álít eg það einkis vert í allan stað."

Sem þá rauður hlutur hèr
hana völskum[1] sýndur er,
á augabragði þýtur þá
þarvið heiptin rauð og blá
gins og nasa gjár uppí, og gýs þar frá.

Glennir hann þær geysi vítt,
glossar úr báðum augum strítt,
vængjum lemur ótt og opt,
ýfir fiðrið hátt í lopt,
orgið meður illum skræk fer út um hvopt.

Brá nú allteins baugastorð
bónda síns við fyrrgreind orð:
blóðið hleypur andlit í,

---

[1]) valskir hanar verða ólmir þegar rautt er borið að þeim.

áður bar ei neitt á því,
þess á milli það varð grátt sem þoku-ský.
Æðar þrútnar urðu snart,
augun kreystust saman hart;
hljóp í varir bólga blá,
bæði nef og kinnar þá
tognuðu, svo tví-slík urðu til að sjá.
Hárið reis á höfði vífs,
heiptin ýfði það til kífs,
við þess hræríng eyrum af
ýttist hennar nætur-traf,
hún skjálfandi honum svör án hýru gaf:
"Eg, þú maður! eg, þín frú,
"eg stend við það fast enn nú
"nóg var fiskur soðinn sá!" —
saup hún út af glasi þá —
betur hefði bræði-fyllt ei bergt þar á!
Maðurinn skildi brátt við borð,
burtu fór og mælti' ei orð,
varla genginn var hann fyr
vífi frá um næstu dyr
enn hún leið sem lík í dá og lá þar kyr.
Hvernig farið hjá því gat?
hæst þá reiði-blossinn sat
að steypa þar í sterkum drykk
stóran mátti gjöra hnykk;
allt varð húsið uppvægt nú í einum rykk.
Öldin stumrar yfir frú,
allra bragða leitar nú,
svarrann á með svaka bar,

sveigði þumalfíngurnar,
allskyns balsam orkar þó sem ekki par.
  Þunnvánganna þètt var húð
þarmeð slagæðanna gnúð,
en sig vottar ekkert líf,
einsog bálkur lág hún stíf,
svo var tekið sviðið hár og sett fyrir víf.
  Ónýtt, ónýtt, engan þef
af því finnur hennar nef,
ekkert getur andardrátt
aptur kveikt, nè hjarta slátt,
kallað var á kærastann, og kom hann brátt.
  "Æ! þú sálast elskan mín!"
æpir bóndinn þá og hrín,
"æ! þú deyr! æ auman mig!
"ástar beðja hjartanlig!
"hverr bað mig að hefja slíkt og hrella þig?"
  "Ó! þann vondan óláns fisk
"illri kominn heill á disk!
— "þó veit guð, að hann var hrár!"
hún er ekki lengur nár,
rètt með sama ristils glymur rómur hár:
  "Hann var soðinn!" — "hann var blár!" —
"hyggst þú enn að kífa þrár?"
krapta-verkun þannig þar
þrætnis-andinn meiri bar
enn læknaranna reyndust ráð og reikníngar.

## 52. KÓLNUÐ ÁST.

Prentað eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 96.

Leander ljóst
Lísetu fèkk þó að hvíla við brjóst;
hitt var aumka, það halur og víf
hófu strax deilur og úlfbúðar kíf;
þeirra var hjónaband þrældómi líkt —
:,: þrátt skeður slíkt. :|:
Hann friðar fljóð:
"fljótt varstu kaldsinnuð, elskan mín góð!"
Hún svarar skapstygg, og heldur óþýð:
"haltu þèr saman, þitt argasta níð!" —
það er ei furða, því upphafið eitt
:|: ofmjög var heitt. :,:.

## 53. HEIMASÆTURNAR.

Eptir Ljóðmælum, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 97.

Hafið nú ekki hátt um stund,
höldar! þèr sem lastið sprund,
þrástagandi: það sè lund,
þýðra silki-nipta,
að þær hvorki fró nè frið
finni', og ekki þoli við,
úngan fyrr enn öðlist nið

og sig megi gipta;
óbljúgt svoddan umtal hèr,
eg aptur ber,
og yður hlýt að skripta.
Yður víst að blygðast ber,
sem brúkið svoddan lastanir,
þaraf satt því ekkert er,
sem ótal dæmi' vísa.
Þellur gulls eg þekki tvær,
þóttist hvor hin bezta mær,
dyggvar hètu drósir þær,
Dorímena og Lísa;
þèr munuð fyrir utan ef,
nær útsagt hef,
aðferð þeirra prísa.
Fer til biðla fjölmenn sveit,
sem fá vill þeirra göfugheit,
hvern því greip, sem laufgrund leit,
loginn ástar glóða.
Ekkert nema spott og spè,
sprundin lètu þeim í tè,
(venja heyri' eg sagt það sè,
sumra merkis-fljóða);
hurfu þeir með háðúng brott,
og höfuð vott,
hèldu þó til góða.
Þessa frömdu list og leik
lángan tíma fljóðin keik,
uns að klínir ellin bleik
í ásýnd þeirra slími;

á þær stimpil setti sú,
sem ógyldir hverja frú;
biðill enginn birtist nú,
burt var þeirra tími;
holds ástríðan hart þær beit,
en hölda sveit
hygg eg að þeim kými.

Öll úrkula von þá var,
vífum enginn sinnti par,
báðar tóku brúðirnar
biturliga' að gráta;
fullar trega fóru' af stað,
fyrst þann hitti, sèrhvor bað:
sig að eiga — þú mátt það,
púnga pressu játa! —
önnur matrós, arman þrekk,
að eiga gekk;
önnur fèkk soldáta.

## 54. UPPBYRJUNIN.

Eptir Ljóðmælum sèra Jóns, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 100.

Drengur nokkurr átta ára,
alinn af blóði fiskimanns,
lyst til fèkk og laungun sára
leið að kanna geddu ranns;

að vaða pitti vatns óklára
var því iðja daglig hans.
Hvað er það sem börn ei bralla? —
hjó hann til úr sefi knör;
faðir hans, sem æfi alla
alið hafði' í sæfar-för,
skipherra-efni kund nam kalla;
kappanum hældi menja bör."
Dramb í huga drengs það vekur,
dirfist hann við föðurs orð,
móður sinnar trog því tekur,
tjáist vilja kveðja storð,
frammá tjörn því óðum ekur,
ætlar strax að fara um borð.
"Herra skips nú orðinn er eg",
úngur drengur sagði þá,
"úti Kína fús því fer eg";
— faðir hans hafði minnst þará. —
Hann kom að og sagði: "sver eg,
svoddan breytni hrósa má!
Huggast eg af högum þínum,
hjartað lífgar gleði sú:
fótsporum að fylgja mínum,
fallega hefir byrjað nú,
haldir þú fram hætti þínum
höfuð-bátsmaður verður þú."
Fíflskum dreng sú fýsn óholla
fjölgan ára þróast við;
trè, upp reist í trígil-bolla,
traf á hengdi dálítið,

akker lèt þar tvö við tolla,
tjarnar siglir útá mið.
Bylur kom að feigðar fleyi;
faðirinn horfði sitt á jóð.
Maðsfos sökk á miðjum vegi,
mælti þá og rak upp hljóð:
"föður míns hrós, en hrísið eigi,
hratt mèr nú á dauðans slóð!"

## 55. MAÐURINN OG FLYÐRAN.

Eptir Ljóðmælum prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 96.

Forgefins hafði fiskimann
færinu keipað lengi dags,
þolgæði stöðugt hafði hann
þó heppnaðist ekki veiðin strax;
(Merk: að biðlundar mest er þörf
mönnum sem stunda fiskirí,
skólameistara og skyttu störf
skiljast ei heldur undan því).
Fiskari sagður aungul á
um síðir hreppti vænan drátt,
stóreflis flyðra það var þá,
þau stríddu hvort við annars mátt;
en þegar hún kom undir borð,
örfaði kæti sváugan höld,
til hennar þessi talar orð:
"tönnin skal prófa þig í kvöld!"

Hann velti lengi' í huga sèr,
hvörnig hún yrði bezt tilreidd:
"helftina steikja hyggst eg mèr,
hálf skaltu verða' í potti seydd!"
En meðan þetta mikla happ
matbjuggu og átu þánkar hans,
færið bilaði, fliðran slapp,
fór hann svo búinn heim til lands.

## 56. SÁ FOKREIÐI.

Eptir Ljóðmælum, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 99.

Hversvegna Croesus hátt svo lætur
og hartnær sèr til bana grætur?
volandi: "loks eg vesæll má,
vergáng bannsettan hrekjast á."
Hafa þá grandað honum þjófar?
hafa fè rænt hann vonzku-bófar?
ónei! — Hver valda þá mun þraut?
þènarinn glas ísundur braut.

## 57. SÁ FORSJÁLI.

Eptir Ljóðmælum, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 99.

Impostor hafs í háska var,
hótuðu dauða bylgjurnar;

hrópar hann þá af hásri kverk:
"Herra! gjör á mèr furðuverk!
fjárhelft mína, ef frelsan bíð,
fátækum skal eg gefa lýð."
Hann sína beiðni heyrða fèkk,
heilum skilaði báran rekk;
gjöf þó lofaðri gleyma vann,
"gott og vel slapp eg", sagði hann;
"eg sökk ei meir í saltan hyl,
siglíng því aldrei reyna vil."

*Öðruvísi:*

Refur hafs í voða var,
vísan dauðann sá hann þar,
bað: "mèr, Herra! bjarga þú,
blessaðan almátt sýndu nú!
hússgángur þá hafa skal mitt hálfa bú."
Bænheyrður af báru slóð
barst hann upp að þurri lóð,
gjafar heiti gleymdi þó,
"gott", kvað hann, "eg ekki dó!
kafna' eg aldrei kann, því meir ei kem á sjó.

## 58. HÚSKINN.

Eptir tveim handritum.

Engu síður enn aðrir gat
Avarus nú sèr fengið mat,

hverjum allir þann eigna sið:
aldrei borði sèr hálfan kvið —
munu það vera missögð orð?
— maðurinn sat við annars borð.

## 59. HÁTÍÐAR SLÁNGIÐ.

**Eptir tveim handritum.**

Úr nauti, sèr til óhægðar,
át drengur sláng, því hátíð var;
"iðrunum", kvað hann, "upp eg sel!"
Ansar móðir hans: "ber þig vel!
ei eru lengur þessi þín,
þau mega fara, skepnan mín!"

## 60. UXINN OG FLUGAN.

**Eptir tveim handritum.**

Öflugt settist á uxa horn
eittsinn dálítið flugukorn:
"villtu", fèkk hún af vorkun spurt,
"veslíngur! að eg fari burt?"
"Ei vissi' eg", kvað hann, "af þèr fyr,
eins er mèr hægt þó sitjir kyr."

## 61. OFLÁTÚNGURINN.

Eptir einu handriti.

Einn, sem lèt mikið yfir sèr
aðspurði Pètur hvar fyrir
svo lángt sè asnans eyra:
"ekki veit eg það", ansar sá,
"asna þó tíðum megi sjá
og þeirra hrynur heyra;
en hèr
eptir,
óhljóð sterk
úr asna kverk
nær orga sprúngin,
æ skal eg minnast á oflátúnginn."

## 62. APTURHVARFIÐ.

Eptir Ljóðmælum, prentuðum í Hrappsey 1783, bls. 94—96.

Tveir voru' að hvölfa elfum ölva' í iðra sá,
ekki fölvar yfir þá,
spila, bölva, brjóta' og mölva bistir allt hvað sjá
*inter pocula.*

Millum slaga' að munni draga mjaðar lá,
berjast, klaga, borðið slá.
Breytist saga, böl aflaga, brátt nam kæti þá
*inter pocula.*

22*

Af dró skugga, útum glugga eldíng sjá,
þarvið stugg að þrjótum brá;
dunaði skrugga; um sig ugga illir tóku þá
*inter pocula.*

Spilunum sveija og frá sèr fleigja fylltir þrá,
meintu deyja mundu þá;
djúpt sig hneigja, synd afsegja, sálma gripu skrá
*inter pocula.*

Æ hvervetna syndum setna sig þeir tjá,
þar til metna minna' enn strá.
Fælan glettna, fyrr umgetna, fèll nú strax í dá
*inter pocula.*

Út að nýju' úr ángurs stýju ólmir gá,
bókar-rýju bekknum ljá:
enga klýju enn nú hlýju öls af tári fá
*inter pocula.*

Brjótar kanna[1] spilin spanna' og spyrjast á:
"hverr það vann er hurfum frá?"
"Jeg!" kvað annarr. Hinn um hrannar heiptar eysan blá
*inter pocula.*

Hans það ljúga hvopt óbljúga hermdi sá,
síðan fljúgast seggir á.
Eins útkúgar, ángurs þrúga, iðrun mörgum hjá
*inter pocula.*

---

[1]) kenna má við könnubrot þá krúsum fleigja,
einsog þá við álm og skot, sem örlög heyja.

## 63. LÈNHARÐUR OG BLANDÍNA.

Kvæði þetta er í upphafi ort á þjóðversku af Bürger, en sèra Jón mun hafa snúið því úr dönsku eptir Baggesen (*Lenardo og Blandine* í *Ungdomsarbeider*, Khöfn 1791. 8, II, bls. 84—104). Eptir þrem handritum.

Hún sat þar Blandína, hèr Lènharður stóð,
hýrt skein af báðum þeim æskan teit og rjóð;
hún meðal prinzessa háleit mundi sól,
hann prýði sveinanna, dýrstrar bak við stól.

Ríðandi' og siglandi Róm og París frá
ríkir komu furstar og stórmenni' ei fá,
með gull og með perlur og góðhrínga fans,
sem gátu mest hverjir, að biðja svannans.

En gull lèt og perlur hin gramborna mær
og gimsteinda hrínga sèr aldrei svo kær
sem rós, viður snjóhvítt er visnaði brjóst,
af vænum reitt sveini og kyst þeigi ljóst.

Lènharðar ens fagra var lund há og góð,
þó lèki' ei um æðar hans stórættað blóð;
guð sami fèkk riddara gjörðan og þý
göfugasta sál byggir þrátt lágum í.

Eittsinn í blómgarði fagran sátu fund
furstar þeir og herrar, svo ljómaði' um grund,
og neyttu svals gróða til næríngar sèr,
næfur[1] sem þeim Lènharður tínir og ber.

Úr skál tók af silfri, sem skaut fal ósnautt,
skjöldúngs dóttir epli svo krínglótt og rautt,

[1]) *næfur*, þ. e. vaskur.

og mjallhvítri sveininum mund rèttir að,
mælti svo og brosti nær fèkk honum það:
"Eig það fyrir starf þitt allt, gott og ágætt!
ei grær að eins prinsum nè sèrhvað lostætt,
dægiligt og blessað það utan er allt,
innan kýs eg fegra það væri tvöfalt!"
Sjá þú! leynt að skyndíngu sveinninn heim rann
seðilkorn (hvað heyr' eg?) í eplinu fann,
honum var þar stúngið svo ekki bar á,
ástúðlig var rituð slík trúnaðarskrá:
"Ýngismanna vænstur, sem augu mín sjá!
yndisligri hverjum, sem gullið skín á!
eðlisskærri þessum, með gott og hátt geð!
göfugur blómkvistur! þó lágt væri trèð.
Þig einn meðal allra eg ástvin kaus hèr,
elska þig og lita bið sama var mèr;
mitt titrandi hjarta fortærist af þrá,
eg tek ekki ró fyrr enn þig spenna má!
Um miðnætti skil þig við blund þinn og beð,
að björk þeirri flýt þèr sem mest getur skeð,
sem elskunnar færði þèr epli — þar blítt
eitthvað þín bíður, sem nóg er útþýdt."
Lènharði svo hart og svo mjúkt var það mál,
svo mjúkt og svo hart hans en efandi sál
ýmist veltist þaðra en ýmist valt hèr,
í yðandi vonar og hræðslunnar hver.
Samt þegar framundir lágnætti leið,
og leiptraði þögul hver smástjarnan heið,
hljóp hann á fætur, við blund skildi' og beð,
og brá sèr út þángað, sem seðils stóð trèð.

Þegar hann sat væntandi þessum í stað,
þaut við í runninum skjálfandi laufblað;
hann hlustar til, finnur sèr arm gripið í,
andartök merkir svo dásæt og hlý.

Áðurenn sèr við kom af vörunum hljóð
voldugt drekkir orðunum kossanna flóð,
fyrrenn væri hvíslað um hvítt eða svart
hurfu mjúkar smáhendur burt með hann snart.

Leiddur hljótt gekk hann í lètt-svifin fet,
"ljúfur minn! kom með mèr, fylg, ástvin!" það hèt;
"kalt er hèr, ei ver okkur kjóll eða pils,
kom þú til míns innis! þar njótum við yls."

Það dró hann um þyrni og þistil og stein,
þángað sem var lýngvaxin brothvelfíng ein,
týrði þar einn lampi, það teymir eyk sinn,
til þess þrutu gaungin við skímuna', og inn.

Allt mundi hèr svefninum sveipað, ónei!
svikarefsins auga það lukti sig ei —
Lènharður! ó Lènharð! hvað henda mun bratt
haninn fyrrenn gelur og lerkinn slær glatt.

Stórheraði Spánheima fjærlægu frá
fylkis sonur dramblátur kominn var þá,
með gull og með perlur og góðhrínga fans,
sem gat hann hið frekasta', að biðja svannans.

Hann brann og var þyrstur, hans önd mæddist ólm,
ólmur gams snapaði' í Borgundar hólm,
hann bað, og var synjað, ár út og ár inn,
en aptur að snúa kom hvergi' í hans sinn.

Nú má vel trúa' að ei rètt yrði rótt
raupsömum spjátrúngi dag eða nótt,
hann hafði með lymskunnar svikulum sið
sèr lædt í garðinn nær þetta bar við.

Hann hafði' á gægjunum heyrt það og sèð,
sem hèrum þrem fetum var frá honum skeð,
gnísti' hann þá tönnum og beit sig til blóðs: —
"þú, Borgundar-gramur, skalt frètta til góðs!"

Öðfluga hljóp hann, að allt fengi sagt,
ei fèkk honum tálmað nein hótandi vakt,
"nú hlýt eg, nú vil eg, til grams", sór hann, "gá,
því grimmt liggur upphlaup og morð hans þar á."

"Hó! hó! þú Borgundar-hilmir! vak skjótt!
hundur ætt og sæmd þína flekkar í nótt:
sèr Blandína dóttir þín dygðug á beð
dægur styttir argasta soðfanti með!"

Sem eggjárn, er nístir, hinn aldna það slær,
hans einasta dóttir var honum svo kær,
meira verð enn króna og kóngs spíra, já,
kostuligri' enn allt fè, sem jarðríkið á.

Af sænginni gramur þá upp stökkur ær;
"þú, illmenni! lýgur og svik hefir kær!
þitt blóð skal það kosta, þann Borgundar drykk,
ef banvænn þinn munnur mig tælir sem gikk!"

"Hèr set eg, þú gamli! mig sjálfan í pant
þèr sanna það augun, upp! flýt þèr sem kannt!
blóð mitt í veði sè, Borgundar skál,
ef birt flekkar lýgi mitt varúðar-mál!"

Með glóbjartan flein hljóp hinn gamlaði fram,
glaður rann hinn fláráði', í blóðþyrstum ham,

undan yfir þyrni og þistil og stein,
þángað sem hin lýngvaxna múrhvelfíng gein.
Furstalig bygging hafði fyrr hreykt sèr þar,
fallin nú í rústir af elli sem var,
þó stóð uppi kjallari þar enn og höll,
af þyrnum og sandi lukt framantil öll.
Kenndi fár í hýsi hvar komizt varð inn,
kunnugum var auðvelt að rata hvert sinn
heimugligar dyr, þeim smá-herbergjum að,
hilmis jóð á sumrum sèr valdi rúmstað.
Enn þá kærleiks lampi við inngánginn brann,
af honum bar skýmu um nátt-ránghalann;
niðri höldnum anda þeir læddust svo lágt,
ljósglætan olli þeim var það ei bágt.
Að hurðinni læstri með hægð gengu þeir
og höfðu við eyrun — "nem, kóngur! og heyr
hvað tautað er inni, tak eptir! þei! þei!
ef trúir ei ennnú þá heldur aldrei." —
"Ó ástvin! minn ástvin! því ángrast þú? mèr,
eign þinni, hjá, sem nú hèðanaf er;
prinzessan í dag er burt numin í nátt;
nú er eg, vert glaður! þín kærleiks ambátt." —
"Værir þú, en tilbeðna, vænsta kóngsmær!
veslings fátæk ambátt, ó, hversu glaðvær
af elskunni nyti' eg alls unuaðarhags!
en ást þín mín kvöl og mitt hel er nú strax!" —
"Ó ástvin! minn ástvin! skil óttann við þig!
ef eg er kóngsmær, horf glaður á mig!
fyrir kórónu, spírur og kosta þíng gulls
eg kaus mèr þín faðmlög til unaðar fulls!" —

"Dávænsta! dávæn! fyrir vèl eða völd
verða mun þín lofun nú heit, síðar köld;
fyrir bón á bón ofan mun buðlúngs þig son
brátt eða seint taka sèr fyrir kvon!

Stórbylgjan æðir og stormurinn gnýr,
strax fellur aldan og gusturinn flýr;
vífanna lund er sem vindur og bif
viðlíkt sjatnar ást þín sem lögur og drif." —

"Biðli þeir og biðli, þeir meiga það, mín,
svo margir sem vilja, eg er ei nema þín,
minn sæti! minn engill! vert hreifur og hlæ!
eg held mína lofun og trú þèr er æ.

Mín elskandi lund er sem biljir og bif;
burtu renna vötnin og hjá líða drif;
burt renna, burt líða þó öll saman ei,
mín elska brennandi þver heldur aldrei." —

"Þó krympar sig hugur minn, kóngsdóttir góð!
af kvíða mig hryllir, sem frjósi mitt blóð:
sá refsandi himin mun brjóta þann baug,
sem blessan ei yfir í kirkjunni flaug.

Æ! jöfur ef njósnar þá flasandi för,
þá flóir mitt blóð út af heiptugum dör,
og þú, sett í gryfju með grimm fjötur skjótt,
mátt gráta þitt líf út í sífeldri nótt." —

"Ei slítur himininn, ástvin! þau bönd,
sem elskunnar fyrir vaf trygð okkur hönd,
munaðar unað um lágnættis leg
ei lítur neinn rægir, veizt þú einn og eg.

Ó kæri brúðgumi! þú kom mèr í faðm!
kystu mig og lystugur spenn þèr við baðm." —

Nú lèk hann með kossum við lokkanda munn,
af lostugum blundi fèll hræðslan í grunn.
Þau kystust og spenntust svo ákaft og ótt,
sinn unuarleik fengu knáliga sótt,
hlerendur ólmir vildu hlaupa fram þá,
en hörð bægði sláin og lásarnir frá.
Sem hundurinn veiðandi hèra vill ná
hýmdu þeir enn freyðandi gægjunum á,
en honum þar inni', eptir lýjandi leið,
líða tók að hjartanu sturlan og deyfð.
"Vaknaðu, kóngsmær! lát þèr faðmbúa frá!
fagurkambar galandi morgninum spá." —
"Undu hjá mèr þángaðtil, elskugi minn!
ársaungur hananna vekur þriðja sinn!" —
"Ó sætasta prinzessa! sjá komu dags
fyrir sól má eg flúinn, æ slepptu mèr strax!" —
"Bídtu fyrst, minn unnusti! blikstjörnur smár
ei birta þann launstig hinn elskandi gár!" —
"Æ, vakna prinzessa! mèr heyrist eitt hljóð,
hýran boða morguninn, svölunnar ljóð." —
"Æ, bið ljúfur! það er ei hennar, en hin
af harmanda náttgala, ástanna vin." —
"Nei, slepptu mèr! gullkambi gelur, og rauðs
gjöra tekur morgun skaut·vart bróður auðs;
svölurnar kvaka, minni sál ógnar hel,
senn springur hjartað — æ slepptu! lif vel!" —
"Minn blíðasti! far þá! nei, bídtu! farvel!
hví blöskrar svo ángistar- sál minni -jel?
kom! sýn mèr þitt hjarta! það klappar svo mótt!
kærasti! lát dátt að mèr enn aðra nótt." —

"Í skilnað sof róliga'!" — Hann skautst nú
sinn veg,
skelfíng smaug um æðarnar, köld og dauðleg,
rauk nálykt af hvervitna rönm, og með þraung
ráfar hann sem dauður, uns lyktuðu gaung.

Hèr stukku þeir fram, og með stríðan morð-þjóst
stakk hverr þeirra spjóti' í hans titranda brjóst. —
"þinn ríkis tak sprota, og ráð nú Borgund!" —
"þú rakki bölvaður! tak þinn konarmund!" —

"Ó Jesú María! miskuna' og hlíf!"
mitt í því brustu' augun og sloknaði líf;
án viðbúníngs huggunar vina fór hans
vafa bundin sál til ens eilífa lands.

Svikarinn marghjó með sárheiptar þjóst
sundur þá á nánum það dreyruga brjóst;
"kom! sýn mèr þitt hjarta! það klappar svo mótt
kyss og tilbið gyðjuna enn aðra nótt!"

Hann það úr blóðugu brjósti fèkk rist
bræðina kælandi' í helvízkri lyst.
"Nú dreg eg þitt hjarta, það dansar svo hljótt,
dýrka mig, minn sætasti! enn aðra nótt!"

Buðlúngs jóð á meðan ei blundaði rótt,
hiltist um í sænginni' og dreymdi svo ljótt:
um blóðugar perlur við blóðugan krans
um blóðugan unnusta og návofu-dans.

Hún veltist á beðnum svo veik og svo þreytt
í vatnssudda köldum um daginn alsveitt,
"æ kom, miðnótt! jafnan ástunum kær!
eingil minn og gaman að nýju mèr fær."

Síðan, þá fram undir lágnætti leið
og leyptraði þögul hver smástjarnan heið;
æ, vei mèr! hvað slær þig, mitt hjarta! svo hrætt."
hrylliliga' og fáliga marraði gætt.

Einn riddari' í grátserk, með gerfi sorgar
gekk inn, og tvö líkblys á hástikum bar,
með ógurligt tillit og orðlaus sem nár,
öðlíngs dóttur setur þau fyrir, og gár.

Einn riddari' í fannhvítum síðan kom serk,
sundurbrotin hríng bar, með dreyrugt málverk,
með staranda bragði fór steinshljóð af rekk,
stillis fyrir dóttur hann baug lagði' og gekk..

Einn riddari purpurarauður kom næst,
ríkisins bar gullker, með innsigli læst,
dreiglað lok og hadda með dökku var hvurt,
hjá drós hann það setti' og gekk þegjandi burt.

Einn riddari kom loks með kóngliga skrá,
kápu barst hann skósíða' af silfurdúk á,
þengils dóttur hálfdauðri þetta brèf fèkk,
þegjandi sig hneigði' og á bak aptur gekk.

En nær hún titrandi' að opnuðu því
augum þráveltum las ritið hèr í:
sortnuðu vesælli sjónir af neyð
saman engdist náköld, sem lostin af reið.

En sem hún úng bein, af eymdinni kreyst,
með óstyrk og skjálfta frá beðnum gat reist,
hún dansar svo lystugt: "Hopp! hoppsa! við snú!
Hæ! leikari! kom á minn brullaupsdag nú!

Hæ! leikari! flýt þèr! kom! hef mèr upp dans!
eg hátt svíf í loptið, þar bendir minn krans!

hæ! fagnið þèr prinsar! í fjarska' og hèr nær;
þèr frúr og þèr herrar hèr komið glaðvær!

Upp! fagnið! mitt hjarta var fyrri mjög sjúkt;
þèr frúr og þèr herrar! hví glottið ómjúkt?
minn brúðgumi er hánn, eg er brúður! ó guð!
af blessuðum englum erum við trúlofuð!

Upp! upp að dansa! hvað þvogli þèr þá?
þèr glottið og flissið! eg og hlæja má!
þú aðalskríll! burt með þinn ódaun! fei! fei!
úldin af drambfýlu' eg stenzt þig aldrei!

Hverr gjörði riddara' um hauður, og þý?
hágöfug sál byggir þrátt lágum í;
minn brúðgumi' er fagur, með gott og hátt geð,
og getur stórættir með forakti sèð.

Hæ! leikari! glatt nú! lát hátt gánga dans!
eg hossast svo lètt, því þú bendir, minn krans!
hopp! heisa! tralala! hopp! heisa! ha! ha!
minn heiðurs er dagur, tralala! trala!"

Svo kvað hún, svo lèk hún með hásaung og hlaup,
uns helsveitinn kaldur af enninu draup;
um bliknaðar kinnar fèll banadögg rauð;
hún biltist á gólfið og lá svosem dauð.

Þó reistist hún við fyrrenn upp gæfist önd,
aflvana dauðvona til kers rèttir hönd;
setur í knè sèr og augum hèlt á
af tekur lokið og sèr hvað þar lá.

Það bifast og gufar við brjóstið á snót,
sem beitti það kapp'yndi hennar á mót;
dundi þá táranna dreyruga flóð
og dreifði sèr saman við unnustans blóð.

Ó blóðuga hrellíng! við barm sinn hèlt fast
buðlúngs dóttir keriuu', og lèt það faðmast.
"Alblóðugt hjarta! slá sem ákafast nú!
andsvaraðu míuu, það dreyrir sem þú!"

Gufu það enn af sèr gefur og slær,
sem geti það fundið sig yndinu nær,
og sterkara táranna streymandi flóð
steypist af augunum þess niður í blóð.

"Eg fyrir þig lifði og fjör glöð af legg!
þú fergir mitt hjarta! þú kremur mitt negg!
ó Jesú María! mèr væg! og þú!
eg mær þín kem bráðla, slá kröptugt ennnú."

Þá kvikaði hjartað við kærustu brjóst,
sem kappleik þau hèldi með elskunni ljóst;
af brestandi augum fèll blóðtár fásèð
það bifast nú seinast og hennar sprakk með.

Til bendanda vinar, úr búri líkams,
flaug burt hennar sál, en að herbergjum grams
í kapp hleypur öldin, gall kliður um völl:
"konúngur! þín dóttir, prinzessan er öll!"

Sem eggjárn, er nístir, hinn aldna það slær,
hans einasta dóttir var honum svo kær,
meira verð enn kóróna' og kóngsspíra, já,
kostuligri' enn allt fèð, sem jarðríkið á.

Og sem hinn fláráði framvindur sèr
fólskaðist hinn gamli: "slíkt á eg að þèr!
þinn dreyri þess geldur, hann drekki vort láð!
mig drógu til þessa þín eitruðu ráð!

Blóð fyrir dóm' klagar hennar þig hátt!
heipt þína' í víti kæli djöfullinn brátt!"

reiður hjör blikand' hann röskliga brá,
rógberinn dauður fyrir knjám honum lá.
"Lènharður! Blandína! barn mitt! ó guð!
blóðug — æ miskun! — sè synd afplánuð!
áklagið, börn mín! þó ekki mig! nei!
eg er ykkar faðir, æ klagið mig ei.
Hinn aldraði handar- í -bökin sig beit,
blóðugs verks án huggunar tár minntust heit;
að boðum hans síðan var gullkista gjörð,
þar geymd' hann í elskenda framliðna jörð.

## 65. ÍNKLI OG YARIKÓ.

Snúið úr Gellerts kvæðum *(Inkle og Yariko* í *Fabeln und Erzählungen* 1765, 8. I, 15—18). Prentað áður í "Gamni og alvöru" I, 95—102. Eptir tveim handritum.

Ábatans elska kná,
oss sú er kenndi fyrst:
hvernig lífgírug lá [1]
lèttu trè fær gjörist;
til að framselja á fjöl
fjör vort, hið kærsta hnoss,
óvissri dröfn í dvöl,
dirfsku sú færir oss.
Ábatans elska skír,
ímyndan plógs og tjóns,
auðsólgin *Ínkla* knýr

[1]) *lá*, sjórinn.

inní bol báruljóns;
orku sá æskunnar
offraði karfabygð;
hans skyn að verzla var,
var hans að reikna dygð.[1]

Lokkar hann laufa[2] umvendt
land fullt með jötnaróm,
er vèr æ fáum kennt
ágirnd og kristindóm;
svo Ameríkam sèr
seggur, en nærri strönd
gnoð stormur fyrifer,
fær hann þó haldið önd.

Fold hann með fjöri nær,
fèll yfir Breta þó
landsmúgur yfrið ær,
þá undan komust sjó;
svalg hinna soltinn dör,
samt sparast *Ínkla* líf,
honum varð flóttaför
og fagurlimi hlíf.

Sprúnginn af hlaupum hèr
harðtnær, með órótt geð,
Engelskur undir sèr
eitt niður varpar trèð;
allur af ótta brann,
óviss í hugarkvöl,

---

[1]) þ. e. *skynsemi* hans var: að verzla; *dygð* hans: að reikna.

[2]) þ. e. kristnað með sverði (*laufa*).

hvort sverð, eða' húngur, hann
heims mundi fyrra dvöl.

Skyndiligt skelfdum hans
skarkaði' í eyrum hljóð:
eitt þess ókunna lands
úngt skrapp úr runni fljóð;
hún, auga hröðu með,
hal leit frá Norðurs-ey,
hverft varð, en hvað af rèð?
að hverfa burt? ónei!

Svo eru villivíf
vör ei, nè þýzk í sið;
hún gest á horfði stíf,
hvítt, kringlótt andlitið;
klæðnaður hans og hár,
hýrt tendruð sjónarljós,
allt var það unun klár,
er hèlt tilbaka drós.

Ótamin yndishót
eins fengu vífs á hann,
að draga dul á rót
og dempa sízt hún kann;
uppskátt lèt augnaráð,
innra hvað þreyði geð;
augað fèkk elsku tjáð,
og elsku baðst þarmeð.

Elskuvert ei sig laug
Indinnu vaxtarsnið;
með látum mæltu þaug,
með látum kynntust við;

hún bendti hendi' að rekk,
hann skundar eptir fús;
aldinum fæddan fèkk,
og fylgði í lítið hús.
Hún sýnir honum lind,
heilnæma þorstabót;
hún hlær, og hèt það mynd
huggunar, ángri mót;
sinn tíusinnum gest
sá grannt og hár fitlar,
faunst hana furða mest
fallegu krullurnar.
Sèrhverjum morgni með
mærin *Yarikó*
komumanns kætti geð
kosti með nýjum þó;
góðsemdar gjörði' hún ljóst
með gögnum sèrhvern dag,
að sitt ósiðað brjóst
sæmdi trútt hjartalag.
Skenk margan hún gaf hal
og húsið gjörði skreytt,
með skinna mislitt val
og margskyns fjöðrum breytt;
skart nýtt, af skeljum þó,
er skrautligastar fann,
hún sèr um herðar bjó,
nær hitta vill sinn mann.
Hún gest að fossi fram
færði', nær húm að rak,

þar svæfa niður nam,
og næturgalans kvak:
nákvæmri aumkvun af
í sínum faðmi dátt
vífið sinn vin, þá svaf,
vaktaði hverja nátt.

Mun norður hèr um heim
hjarta svo göfugt fást?
orðfæri þýðust þeim
það sama kennir ást;
þau talast tvö ein við,
tilbjuggu sjálf það hjal;
hann skilur kæru klið,
kannast hún rekks við tal.

Opt fræðir *Ínkli* víf
ættjarðar hans hvað sè
mjög yndælt manni líf
og margskyns dýrindi;
fljóð hjá sèr óskar úngt,
að fengi' í *Lundún* sèð,
hún heyrði' og þótti þúngt,
að það ei strax var skeð.

"Þig", kvað hann, "þar eg bý",
— og þreifaði' um sinn kjól —
"mörg klæði mislit í,
meir verð enn þetta skjól,
í höll, sem hálf er gler,
af hestum dregin fljótt,
framekið þar skal þèr
í þeim stað næsta rótt.

Stúlkan af gleði grèt,
gætandi þrúngnum svip
útá breitt upsaflet,
hvort ekkert sæi skip;
auðnaðist innan skamms
það æskti drós að sjá;
vör orðin voga gamms
varð hrædd og fegin þá.

Og leitar upp sinn gest;
af ást og trygð við hann
föðurland forgleymist;
fljóð við hans síðu rann
eins glatt á æga dröfn
og væri þetta far,
sem hún leit hýma' á höfn,
hús bezta *Lundúnar*.

Beina leið flytur fley
flughraður óskabyr
*Barbados*-[1] undir -ey,
þær óhamíngjudyr;
hvar *Ínkli* skelfdur á
illfarir sínar leit,
nær kaupmanns hyggjan há
hans vakta þánka beit.

Auð frá *Indíalands*
að bera tóma mund
er fyrir ágirnd hans
ekki nein gleðistund;

[1]) Barbados er ey í Mexíkuvík, sem Englismenn eiga; þar tíðkaðist lengi mjög mansal.

"svo hef eg grimman geym
gegn svamlað fyrir það
að snáfa snauður heim!"
sneyptur hann þetta kvað.

Innan skamms *Ínkli* þó
ágirndar sefar gan,
og bauð *Yarikó*
einum, sem keypti man;
harðýðgi hræðilig
hèr kom í þakkar stað,
í þrældóm selda sig
sá hún, er líf bar að.

Hún fèll um háls á þrjót,
hún fèll á knè og grèt,
hún snökti, hrein — ei hót! —
hann brúði selda lèt.
"Æ, mig þúngaða að þjá!"
þannig hún klagaði;
viknar hann við það? já! —
"hún verður dýrari"

"Um þrjú pund sterlíng stíf!"
strák-Breti kátur gó;
"hèr er, minn herra! víf
heitir *Yarikó*;" —

* * *

Ómennskur *Inkli!* gauð!
aldrei þinn líki var!
þín smán, unz öld er auð
alla tíð lesist þar!

Manngæzku mestu raun,
mjúkustu kærleiks trú,

þrældóm í þökk og laun
þinn bóli geldur nú; —
víf úngt, er vegna þín
veðsetti líf og grið,
hóf þig úr heli', og sín
heimkynni skildi við;
Fylgðist þèr með um mar;
og myndarlag geðfelt
með bezta hjarta bar,
burt fèkkst af ágirnd selt.
Stær þig! neinn strákur ei
stelur þèr nafnbót frá,
með ódygð mun aldrei
möguligt þèr að ná.

## 65. ÁLFUR OG LÝNA.

Snúið úr dönsku eptir Baggesen (*Ungdomsarbeider* II, bls. 111—113). Eptir tveim handritum.

MÁNINN í skýjum um miðnætti vóð,
mjög skulfu stjörnur á bliki,
vestan smáleiptrum á villhættri slóð
vinu frá'g[1] Álfur tilkviki, —
en Lýna leikur á himni.
Ulli var Lýna og Álfi mjög kær,
en Álfi hún blíðu gaf sína.

[1]) *frá'g*, frá eg, þ. e. fregnaða eg.

Hetjur skógvættuna skelkuðu þær,
skírt gullu við runnarnir: Lýna! —
en Lýna leikur á himni.
Ullur í skóginum blómkvendis bað
— svo barmar sèr dúfan vesæla —
"Álfi míns hjarta eg unnt hefi", hún kvað,
"hans auga varð skelfandi fæla", —
en Lýna leikur á himni.
Morðegg í titrandi hamstola hönd
hjarta fal Lýnhildar[1] sáru,
broshýra Lýnhildur uppgaf þar önd,
sem englar í himininn báru; —
nú Lýna leikur á himni.
Máninn sig skýjum um miðnætti hlóð,
mjög skulfu stjörnur á bliki,
aptans smáleiptrum á ótryggri slóð
Álfur frá'g vinu tilkviki —
en Lýna leikur á himni.
Blys[2] veltust unnustans brostin og dauf,
þar bliknuð og dreirug var Lýna,
myrkrin þá eldlína rauðari rauf,
runnarnir hvinu við: Lýna! —
en Lýna leikur á himni.

---

[1]) "Lýnhildar (*Lynild*); hið danska skáld leikur kveðaudi að nafni Lýnu, með íblandan eldínganna, sem Danir kalla Lyn, en því verður hèr ekki viðkomið, í íslenzkum kveðskap; annars er Línhildur rètt kenning sèrhvers kvennmanns." (Í dönskunni standur *Lynalilds*, þ. e. Lýnu-litlu).

[2]) *Blys* kallast hèr augun: hálfkenníng.

Morðínginn kemur. "eg myrti þitt fljóð!"
Mjög tárast Álfur: "Bölfylldi!
fjörs njót, ef getur, eg fylgi baugslóð" —
Í faðmi dó Álfur Lýnhildi —
Þau dansa nú heil bæði á himni!

## 66. VOFA HLÖÐVIS.

Snúið úr dönsku eptir Baggesen (*Ludvigs Gjenfærd i Ungdomsarbeider* II, 105—110). Eptir tveim handritum.

María af sæng á fætur fló:
"Frelsa mig Jesú! auma."
öll sveittist köldu mengrund mjó
með braki þá sèr hurð upp sló, —
betri guð bitra drauma!
Beið þar köld vofa, bleik og laung,
búin sem nár, hinn aumi,
sem til stórs einkis stundi og saung,
stytti þarmeð sín æfigaung
í harms æ-stöðgum straumi.
Kom þar laung vofa, köld og bleik,
í kufli grafar, hinn aumi
unnustu sína' er aldrei sveik,
þótt undan skrippi stolt og keik
og hæddi hans harm í laumi.
Leið þar bleik vofa, laung og köld,
líkklæðum í, hinn aumi,
er í trúfastrar ástar gjöld

án vonar mein tók þúsundföld
og hneig fyrir harma glaumi.
"María! heyr frá moldar bygð
myrkri þinn vin heldofa!
gef mèr aptur þá trú og trygð,
sem til þín bar í lífsins hrygð,
svo eg vært megi sofa." —
"Eg þeirri trú og trygðum þèr
tæra mun fyrr aldregi,
en þú híngað í fáng mitt fer,
og festir þær með kossi, mèr
sem á lífs veittir vegi." —
"Í fáng þitt ei eg fara vil,
fáráðan hvað mun stoða?
mist hafa varir mínar yl,
minn ískoss hels þig færir til
í köldum arma hroða." —
"Nei, heyr þinn dyggva drepna vin
frá dauðans hljóðum kofa!
gef mèr nú trú og heitin hin
hèr sem eg veitti lífs um skyn,
með ró þá mun eg sofa." —
"Forn heit og trygð eg fulla vil
fyrr gefa þèr aldregi,
en altaris með mèr arkar til,
og þau með baugi festir skil,
sem á lífs veittir vegi." —
"Í kirkjugarði' eg köldum ligg
í kistu og dymmu leiði,
mín apturgánga hèr er hrygg,

Hlöðveri þínum, jafnan stygg,
ei neita, nár hvers beiði!"
Hönd ljósa rèttir honum sprund
"hèr er þín trygð án rofa,
þannig heil fengin þèr í mund,
þig haf svo burt á grafar fund,
með ró svo megir sofa."
Hún sig í klæði færði fljótt,
um frúaláfann breiða
arkaði vill þá alla nótt,
eltandi lík af kærleiks sótt
á milli myrkra leiða.
"Kemst þèr, Hlöðver! í kistu hjá
kæra þín, síðu viður?
ef mætti rúm til fóta fá
að festa lángan helblund, þá
strax til þín stígi niður." —
"Mín kista' er stutt og mjó, svo varl
mèr einum rúm kann lofa,
þar er svo kalt, þar er svo hart,
þar er svo hljótt og dauft og svart,
þú kannt ei þar að sofa."
Nú gól haninn, og sig lèt sjá
sæll morgun brátt fram skína.
"Lif vel, María!" — í brún því brá —
"blessi guð faðir þig himnum á!
eg hverf í hvílu mína."
Vofan þagnaði og burtleið bleik
blakks meðal três og steina;
um kinnar runnu á auðar-eik

albló̌ðug tár, nær þenna reyk
sá ei, en sig þar eina.
"Mun þèr, ástvin! þín María sár
mæta brátt hels á skeiði?"
undir eins luktust augun klár,
eins köld og steinn, svo bleik sem nár,
hún niður datt og deyði.

## 67. BRÈF YARIKÓAR TIL ÍNKLA.

Ort á dönsku af Jónasi Rein frá Norvegi (*Samlede Digte*, Khöfn. 1802. 8, II, 376—89). Eptir þrem handritum.

Í brún mun kannske bregða þèr,
brèf þetta, komið lángan sjó,
og þará ritað þegar sèr
þèr gleymda nafnið: *Yarikó*.
Ei get eg bæn þig ávarpað —
þitt eigið hjarta sjálfur spyr!
æ, fjárplógsgirndin fram rak það
fullt af óklárum skemmdarhyr.
Jeg er hin sama *Yarikó*,
á jörð ókenndri sem þig fann
eittsinn, burtsloppin undan sjó,
örmagna þá og ráðlausan;
Eiganda hvorki vin nè von,
víli myrkvustu staddan í,
þá mælti huggun þessi kvon
þínu brjósti við tillit hlý;
Hver þig elskaði hjartaklökk,
hverja með stunum merkja lèzt
aptur á móti þína þökk,
þannig var beggja ræða flest;
Ættjörð sína hver yfirgaf
og úti hættu með þèr bjóst,
í þeirri von, að þaðan af
þèr lifði farsæl æ við brjóst.

Hver elsku þína sigrast sá
síðan af girnd til ábatans,
og hverja leggja loksins á
lèzt þú ánauðugs hlekki manns.

Heyrnarlaus bænum mínum mót,
mállaus þegar eg grèt og hrein,
seldir þú mig, og sveifst ei hót,
svo hvarfst til fulls, en eg var ein.

Að við mig skildir þannig þú,
þinn misgjörníngur stærsti var.
Yndællar þinnar — æ, mèr trú! —
að eins svo nyti skoðunar.

Til þess, ef kost þar ætti' eg á,
að augum lètir til mín rennt,
glöð vildi' eg líða þúngum þá
þrældómshlekkjum að vera spennt.

Fylgði mín sjón þèr föst á veg,
fèkættur þegar burtu skautst,
þú hvarfst, en fèll í aungvit eg,
æpti mín til ens Hæsta raust.

En, strax sem dvalinn af mèr leið,
umkríngða mig af böðlum sá,
óheyrðri síðan eg í neyð
ein hefi lifað þessum hjá.

Óheyrðri því að engin mèr
athvarfs- nè vonar-glæta skín,
já, til straffs, *Ínkli!* þýngra þèr
þessi teygst hefir æfi mín.

Við það, sem jukust mein á mig,
meiri varð einnig glæpur þinn,

hans þýngd er allt of hræðilig —
huga það laungum sturlar minn.
Þessi harðráðu þrælabönd
hin þúngu slög af böðuls mund,
öll mèr þín bakað hefir bönd,
af henni gjörð mèr svíður und.
Er nú mín snart á enda kvöl,
en að líkindum blöskrar þèr;
ókomin víst mèr opnast dvöl,
eilífðin stendur fyrir mèr.
Margt eitt, sem útaf brjósti brautst,
brennheitt andvarp, eg hafið læt,
mína heptandi mædda raust
miskunar þèr nær bið og græt.
"Máske mín trygð" — eg þeinki það —
"þýngi misgjörð og refsíng hans,
og eg þarmeð í annann stað
afli mèr sjálfri glæpa banns.
Ef næsta dárlig von sú var
sem við lèk hugarsmíði mín;
ef hæð gekk þeirrar hlutdeildar
hóf mitt yfir, að vera þín;
Ef þinni hneysa þótti lund,
þèr með að flytja tengt við hönd
fyrirlitið og fátækt sprund
fræg heim í Breta-ríkis lönd;
Mèr þó tilbyðir mínum frá
með þèr að flýja í slíka vist,
hví deyddir ekki þú mig þá,
þessa nær síðar iðraðist?

Margsinnis andvörp, man eg það,
mjög streymdu þínu hjarta frá,
meðan draumlukka mín var, að
mjúkum eg þèr í faðmi lá.

Af enskri máske fegurð fljóðs
fyrr hafi viðkvæm ástarbönd,
áður enn heiman fórst til flóðs,
fest verið þèr á brjóst og hönd?

Hefnd mína kannske hræddist þú,
ef hafa vildir frá mèr þig,
en hatur beiskt af hinni frú,
ef hjá þèr lètir dvelja mig?

Máske þú hafir, mèr á laun,
mörg tár og andvörp látið út? —
hví fyrir mèr þá hugar-raun
huldir, og þína kærleikssút?

Kosti þú finna máttir mèr,
sem minni kvala-grimmd var í;
víst þann: að æ eg væri þèr
viðkomandi, sem skyldu þý.

Ó, *Ínkli!* eg um þetta þig,
þèr liggjandi við fætur bað;
hegníngu þá, að hata mig,
hafðag sízt af þèr verðskuldað.

Eg, sem vettugi vegna þín
virti foreldra tárgan hag,
hverja tregafull minníng mín
máske særi nú enn í dag.

Hve nafni mínu þrávallt þá
þú hefir, síðan mistir jóð,

meðal klettanna klifast á,
klagað og hrópað, móðir góð!
Þú hefir vonlaus, mæðu með,
máske skundað að hreysi því,
hvar þína dóttur hafðir sèð
hvíla faðmi síns vinar í.
Betur þèr væri, baugþöll hrelld
byrgt af eylífu myrkri þó,
að í kvalræðis ánauð seld
ógæfu hreppti *Yarikó*.
Ei var beiðni mín ofdjörf sú;
allt og sumt, það eg til mæltist,
var það, sem mèr er neitað nú:
í neyð og sorg að klaga tvist.
Að vita hversu vegnar þèr,
vænleik að skoða þinn hvern dag,
og til geðþekknis mestu mèr
mega kenna þinn sældarhag.
Að finna menn, sem líknarlaust
ei líta hvern sem raunir þjá,
og meðaumkunar milda raust
í mínum sorgum heyrt að fá.
Engum er þeim, sem aðstoð brast,
athvarfs nokkurs að vænta hèr:
vinskapar heiti vegligast
veit hjá oss ekki neinn hvað er.
Einkis lund hirðir utan sig,
að eins við sínar benjar klökk;
örvænting grimm og óstjórnlig
elur lastanna skrýmsli dökk.

Já, sá er þetta sendibrèf
selur þèr *Ínkli!* og hverr það bar,
(honum klaklaust, ó himin! gef
heimkomast yfir bylgjurnar)
Einneginn komst, þótt *Enskur* sè,
af harmaklögun minni við;
eg sá hann láta tár í tè
nær tók að grunda kvalræðið.
Kvellíng mín honum kunnug er,
kjör mín af honum nem þú bert,
og þótt aldregi unnir mèr
*Ínkli!* manneskja samt þú vert!
Ó, að brèf þetta gæti greitt
glensmiklum kætisolli frá,
afsíðis þig í einrúm leidt
illmennsku til að gráta þá.
Að særa stálhart *Ínkla* brjóst
er lystugasta þánkaspil!
og hann frá sorg að leiða ljóst
lofsverðrar heilladygðar til.
Þenk ei, að haturs ákefð ein
útmáli kjör mín fyrir þèr!
ónei, meðlíðun íturhrein,
ángur og bænir tala hèr.
Nær morgunsólar bjarminn bar
boðskap um þrældóms ófögnuð,
andvarp það fyrst mitt uppsent var
allrar náttúru fyrir guð.
Þá mèr varpaði þreytan tvíst
þjáðri niður í bæli styrt,

og svefninn þegar áfærðist
augun af tárum megni firrt,

Ákall mitt síðast alltíð var:
umlíð, minn guð! og betra þann,
sem úngur, sakir óstjórnar,
eymd mèr þvílíka baka vann!

Hjartað þín ennú minnist meir
enn meður bæn í himininn;
það nú síðasta sinni heyr!
samur er ástar hiti minn,

Brennandi mèr í brjósti kyrr
blíður, viðkvæmur, fölskvalaus,
einsog nær þèr í faðmi fyrr
að felast, unun stærsta kaus.

Nær undir byrðar þúnga þrátt
þreytan að hníga býður mèr
fagnaðar þær á foldir brátt
flughraðir skunda þánkarnir:

Hvar augnabliks að eins um bil
ánægjukjör mèr veittir þú,
svo í því dýpri sorgarhyl
sökkt gætir mèr, þar eg er nú.

Þá sèr tilbaka þánkinn slær,
þrauta nálægra hverfur til,
svo tvöfalt stærri sýnast þær;
sárar klaganir eg fram þyl.

Margkvalið slæ eg mèr á brjóst
megnum rignandi tára straum;

en með háðúng og þúngum þjóst
til þrældóms verð eg rekin aum.
Svo líður dagur allur út,
ímynd þín jafnan fylgir mèr,
þartil fyrir mèr þrautasút
þægur svefnhöfgi tilbyrgir.
Í draumi kemur þú fram þar,
æ! þessi sæla hverfur skjótt!
öll merki þinnar ásýndar
eru þá full af kærleiks gnótt.
Lokkanna blóma lít eg þann,
leikur við gola þægilig;
(þèr, svefnsins guð! eg þakkir kann,
að þú til heilla gabbar mig);
Eins og þá dali feðra fyr
fylgjandi mèr þinn gángur trað,
handabönd okkar hèldust kyr
unz húsi prýddu komum að;
Rètt eins eg þig í svefni sè,
og sama finn eg yndisleik;
dylst þá fyrir mèr dreymandi,
hve dauðliga mig *Ínkli* sveik.
Eg vakna, kviknar undran fljót,
eigin reynslu það skrökva tel,
að bakvið þessi blíðuhót,
húi hrekkir og eintóm vèl.
Brátt ráfar sála mín ei meir
meðal fánýtra drauma villt;

dauðans síðustu dvalar þeir
dragast að, sem mig hvíla stillt.
En, þá eg vöknuð uppaf ná
eilífðar hag her farsælan,
ó, að þig fundið fengi þá
frómlyndan svo sem dánumann!
Yfirtakskvalar afmálun
örmagna gefa skal mín hönd,
innan skamms tíma mín sem mun
megnrar ánauðar slíta bönd.
Í skoti þræla fúla fjóss,
þar fleygt var inní myrkva krá
og minnsta skíma lampa-ljóss
líka veigrar sèr til að ná.
Innanum blönduð óhljóð tvist,
eymstrum þjáðra, sem veina hèr,
og þeirra', er jafnvel bölva bist
blænum, sem draga þeir að sèr.
Mitt í því verkir megnir slá,
og merkja lætur dauðinn sig
ritar eg, útaf rýk í dá,
og reisi jafnótt aptur mig.
Sonur þinn, er með sama þú
seldir lífs undir kvalræðið,
á meðan luktur lá ennnú
líðanda móður hjarta við,
Stendur kríngum mitt stirða flet;
hans stunur, grát og kærleiks teikn,
lángtum sárari mèr eg met,
enn mesta blót og grimdar feikn.

Saklausi mögur! sjá, eg dey!
sóttin á burtu rykkir mèr!
hlekkir mínir, og annað ei,
eru það góz, eg leifi þèr;
Hvenær, sem þú sèr ofaní
afgrunn þetta, sem gín um kríng,
móður verástum þú úr því
þinnar munt gjalda formælíng.
Öll kenniteikn af *Ínkla* mynd,
*Ínkla* sjálfan eg lít í þèr;
ó þú vesæla kundarkind!
kvalatíð þín að höndum fer.
Nei, eg skal hlýða neyðar þrá! —
náttúrunnar- sèrt þögul -raust! —
mín eigin hönd skal frelsi fá
fullkomið honum tafarlaust,
Og í hans brjóst, svo úngt og þýtt,
óhikað keyra þenna flein! —
en hvað? hann kyssir, biður blítt,
barnið titrar með óp og kvein!
En ef nú vissi sveinninn sèr
settan forlaga tilbúníng,
eflaust hann þakka mundi mèr
og mæla blessun þessum stíng.
Er þá hrylliligt æfibann
hans einkavon og gjörvöll ró?
einn frelsisvegur fyrir hann? —
föður veit eg hann eiga þó!
Sè þèr ei Ínkli! hið svarta nafn
sætt gleði hnoss, að kallast einn

svikari, þeim ei sjáist jafn,
að svívirðíngu bófi neinn;
Ef nögun geðs og bölvan bist,
ef blöskrað getur nokkuð þèr,
óttistu þig að ásteypist
ofanstígandi hefnd frá mèr,
Og af guði þeim útkrafin,
eg sem mun glaðvær lifa hjá;
ef sjá vilt ei, að svipur minn
sveimi kríngum þig til og frá,
Og heyra frá mèr ógn og vei
útvæld til fælu þinni lund,
þá lát nú bænarorð mín ei
óheyrð á minni dauðastund! —
Fèsummu þá, sem fáreymd mín,
og frelsistöpun þèr ávann,
lát undan þrældóms leiðri pín
lausan son okkar kaupa þann!
Hefirðu getað sjóð þann sèð
samvizku fyrir utan raun?
var hann þèr fyrir skipbrot skeð —
skír mèr það ogsvo — verðug laun?
Æ! gæfumeiri gefist nið
gjörvöll hans æfitíð enn mèr!
skal eg þá rólig skilja við,
skal þá hans blóði vægt af mèr.
Hugboð ókennda! hvað er það
að heill þitt spáir leyndarmál?
ó klára ljós! sem upptendrað
eg finn svo blítt í minni sál.

Eg sè þegar, að *Ínkla* kinn
um renna kærleiks fögur tár,
og yfirgefin arfa sinn
albúinn hann að leysa stár.

Eg mínum búna sælu sè
senn leystum anda, burt af þraut,
flýgur hann brátt með fögnuði
frelsara síns í opið skaut.

Einn neisti lífs er eptir smár,
útbreiðast tekur þoka svört
(en skynbragðs ljóminn skerðist klár)
skilníngarvitið fyrir hvört.

Loks það augnablik kom, sem kann
kjör lífsins gjöra jöfn og full,
þá makt lægíngin meir ei ann,
og metur fátækt einkis gull.

Ó, ef þú sjálfur, áður deyr,
að þessum ströndum siglir greitt,
nær ei að finna mig er meir,
í moldu hvílist duptið eitt;

Þú hèr reykandi þegar sèr
þeirra sárbeitta kvöl og neyð
sem ásamt liðu meður mèr,
og minn um kunna að vitna deyð;

Og nær þú, af þeim fræddur, fær
fundið umspurðan legstað minn,
arkandi þögull, ángurvær,
af endurminníng barmþrúnginn,

Illræði láttu þá ei þitt,
nè þessa trygð, sem gabbaðir,

ástarhita, nè andlát mitt
af taka lífsins rósemd þèr!
  Eitt tár, sem vitni trega hreins,
án táls lát falla á mína gröf!
eg mælist ei til meira neins,
minn andi kætist við þá gjöf.
  Letra þitt nafn minn legstað á,
og líka það, að elskir mig!
allglaður skal minn andi þá
ómerkjanliga faðma þig.
  Æ! eina von eg átti hèr,
en má deyjandi sakna nú:
sem eðallyndur *Ínkli* af mèr
eitt sinn að mundir faðmast þú.
  Uppal til dygðar arfa þinn!
ei lát þèr gleymast, hverja þraut
eg þaraf leið, að þú eitt sinn
þverliga veikst af hennar braut!
  Forlát! að eitt sinn enn er nefnd
af mèr en forna misgjörð þín;
reiðst ei! þú veizt að hvorki' af hefnd,
nè hatri sprettur klögun mín.
  Heyr nú! eg er þèr hjartbundin
helbeð liggjandi mínum á;
himin og dauði missir minn
mèr alleinasta bættan fá.

## 68. KLÖGUNARSAUNGUR NEGRA.

Snúið úr dönsku. Eptir eiginhandar riti og tveim afskriptum.

---

Eg, þinn hátíðar fögnuð flý
og fjærlægð í
byggst, þar ei heyrir, gráta;
kvörtun negranna og kveinbljóð aum
þinn kæti-glaum
innanum illa láta;
æ! aumka þann
alsvarta mann,
fósturjörð fjær
og festarmær,
eymd seldan yfirmáta!
Hvað veslíngs negrinn hefir gjört?
—' hin þjóð er björt,
fjendur hans forstokkaðir! —
Er hann vondur þótt svartur sè
að sjóninni?
er guð ei allra faðir?
æ! aumka þann
alsvarta mann,
sem ánauð í
aumari' enn þý
framandi fluttu [1] staðir.

---

[1]) *stálu* eptir eiginhandarritinu.

Ó! þú guð yfir [1] alla þjóð
eins negra blóð
og kristin múga manna!
hrær kröptugliga bjartra brjóst!
svo burt, af þjóst,
ei ræni rekk frá svanna.
Mèr sárnar, man!
af meðaumkan;
guð þyrmi þèr,
þú, sem nú ber
frúr tjón og föðurranna!

## 69. HARMAKVAK NÆTURGALANS.

Snúið úr dönsku. Eptir kvæðasafni ens íslenzka bókmentafèlags, VIII, 9.

Ach, systir! er svo liggur
óhult á limi hèr,
hvar maki þinn óhryggur
svo hjartnæmt skemtir sèr,
heyrðu mitt kvak og kvíða!
kom skjótt fra þessum beð!
tak þú þinn bóndann blíða
og börn og vini með!

---

[1]) e. *fyrir* eptir eiginhandarritinu.

Hve dýrðliga himininn mildi
hló niðr' á grænurnar,
hvert þagði dýr og hvíldi
háttaður Sefýr var; ·
eg hjúkraði' úngum smáu
ástríkum móður væng,
sem leynt við brjóst mèr láu,
lúrandi' í vorri sæng.

Á næstu grein í gleði
glaðvær saung bóndi minn,
og hans af hljóðum tèði
hljóm fagran skógurinn;
þá heyrði' eg hvell með hraða
hleypt var af byssu þar,
eg sjálf fèkk engan skaða
en sá hann hæfður var.

Hann fèll af hörðu meini
og hugði eptir mèr,
af grein á grein af kveini
grátliga barmaði sèr;
á mèr hann augun festi,
uns kvöl og dauðans pín
andvarpið efsta pressti [1]
af elsku hjarta mín.

Hvern dag mèr ástar unni
ánægður hýrt með geð

---

[1]) *pressti*, pressaði.

og vinsemd vísa kunni
við aðra fugla með —
ó mannkyn illsku vanda!
ei gefst nein huggun mèr;
eg flý til eyði landa,
hvar ekkert mannsbarn er.

## 70. DEMANTINN.[1]

Snúið úr þjóðversku eptir Lieberkühn. Kvæði þetta er í fyrstu ort á frakknesku af v. Bar, þjóðverskum manni, og er hið tíunda í fyrstu deild brèfa hans. Skáldmæli hans eru öll lögð út á þjóðversku, og eru prentuð í Berlín 1756, í þrem pörtum í tólf blaða broti. Kvæðið er prentað hèr eptir tveim handritum.

---

Afkast sjóðanda sólar-óns!
sjálfgetin stjarna þessa fróns!
þú kannt, mèr fyrir augum, einn
aldrei að verða nema steinn,
en þótt náttúran gjörn á glis,
gott ef ei lukkan einúngis,
sè orsök mest, að ásýnd þín
svo yfirmáta fagurt skín.
Hvernig sem þar er háttur á,
hvaðan sem prýði þín er frá,
þá votta, hvers þú verður ert!
veit eg ómetanligur sèrt;
þó Mógul[2] vilji meður sèr

[1]) Kvæði þetta lýtur til ens mikla demants, sem Pitt enn enski flutti til Norðurálfunnar og seldi hertoganum af Orleans handa Frakkakonúngi fyrir 2,500000 pund frakknesk (*livres*). Tilgángur kvæðisins er að sýna, hversu hègómligt sè að gorta með eðalsteina og annað prjál.

[2]) *Mógul* var enn göfugasti konúngur í Austurindíum og átti ógrynni gulls og eðalsteina. Englismenn hafa nú fyrir laungu lagt undir sig ríki hans.

mana til sjálfan Lúcífer,
fær vit hans aldrei fyri það
fullvirði þínu komizt að.
Rètt vel eigandi þinn að þèr
þó gat kaupanda fundið sèr,
því meingað færði manns óvit
meistaraliga sèr í nyt,
og tvennum gulls þar tók á mót
tíu pundum, er seldi grjót;
hverr undra kraptur það er þá,
sem þèr er niðurlagður hjá?
Fyrst geislar útaf gánga þèr,
getur sèð auga þarfyrir
eitt, það er tvö ei annars sjá;[1]
Ertu frúnni, sem berst þig á,
hlíf fyri veiki hverskonar,
sem hofgarðs sælan orsakar?
Í augunum þú allvel skín;
eru þá talin gæði þín.
Hve mjög þèr líkist, mikli steinn!
maktarhöfðíngi fleiri' enn einn,
hvern dramb, í allra dygða stað,
sem dýr, það ekkert gagn er að,
fánýt hèrvilla, gjald og glór
glenntu svo út, að þykir stór;
hvern afguðs, handa sèr, í sess
settu dárarnir vegna þess.

[1]) Sá sem keypti var eineygður.

Hvervetna' af því, sem ofbjart er,
allteins og börnin, kætumst vèr;
gjörir oss tíðum gagn ekkert
gulls-tunnu hvað vèr meintum vert;
frá því girndirnar fá oss ment[1]
forhörðnunar vors anda kennt,
fram ginna dramb og fordild ill
fíkn í auðinn, svo lángt sem vill.
Þótt eg ei annars vissi vel,
að við gleðst heimsku manna þel,
það má eg læra að þekkja skírt
þaraf, hve steina metur dýrt,
vorrar fásinnu votta þá,
við sem há-sinni blygðast má;
þeir í tjón-saman tignar-skort
tæla sakleysi með sèr vort.
Ef jörðin, dýri Díamant!
döglíng[2] ei bæri neinn, nè fant,

---

[1]) *Ment* er hèr kímnisorð.

[2]) Plinius (XXXVI bók 6 k.) eignar sèrhverjum manni, en þó einkanligast konúngunum þá tilhneigingu, að hafa miklar mætur á dýrgripum; "annars vonar eg", segir *von Bar* "að menn hneixlist ekki á að finna hèr, eins og í skáktafli, konúng og fífl hvern við hliðina á öðrum; þannig er og orðtak Grikkja βασιλεύς ἤ ὄνος (konúngur eða asni), og Latínumenn segja: aut regem aut fatuum nasci oportet (annaðhvort verður maður að fæðast konúngur eða fífl), og hefir enginn hneixlast á þessum orðtökum. Konúngum og einveldisherrum er kallað leyfiligt að kasta út ærnum peningum til að kaupa fyrir dýrgripi, en gjöri það menn í lægri stètt, þá eru

ertur og baunir, etnar nú,
efalaust gyldtu meir enn þú;
ef kóngs sál ei, eða narra nein,
nokkurt sinn þráðu slíkan stein,
skyldi maður, sem skynsemd ber,
úr skarni vilja lypta þèr?

Ó, fælst vorn rángan hyggjuhátt!
herm *einarðliga' ef ræða mátt:*
"mennirnir heiðra mig um of,
"makligu stærra fæ eg lof;
"því eg er steinn, en ekkert meir;
"ó! vaknið menn, þú feigi leir!
"betri krystallur, betra gler
"brúkast í staup og drykkjuker;

"Að minnsta kosti ment á þeim
"og myndar snild ber þokka keim,
"en seg mèr, hverr er arður sá,
"út kemur geisla-steini[1] frá?
Þú mælir svo, en meinakyns-
menn, sem vèr læknum forgefins,
heldur til sterkan hetjumátt
í hleypidómum sýna þrátt.

Svo búraligur sem eg er,
í sama bili tækist mèr
með eðalsteinum útí hönd,

þeir taldir í fremstu glóparöð, sem allir gjöra sèr dælt að hæða; þar má sjá að — duo quum idem faciunt non est idem (þegar tveir gjöra hið sama þá er það ekki hið sama).

[1]) þ. e. demantinum, sem kastar miklum geislum.

þó engin væru fleiri bönd,
að villa, hvort sem vera skal:
voldugan Páfa, Kardínal,
Tyrkjann og allar húsfrúr hans
með her gjörvöllum sjós og lands.
Ef múgum hlæðust mig umkríng
meiðmaverzlenda[1] stoltar þíng,
augna tálflugur yfir mig
allar skrautkvenna breiddu sig,
sem amorskrýddur Adónis
ástargyðjunnar þokkaglis
naumliga getur utan á
yfirbragðinu látið sjá.
Þó er ei svo sem ágirnd ein
upphvetji hèrtil menjarein;
Fjandanum er að fullu ljóst
hver feikn[2] uppspanar þeirra brjóst;
gátulaust *hann* það gat að eins;
galdrar hans lètu segulsteins
dráttarkrapt í hvern Díamant,
sem drýpur útum sèrhvern kant.
Þar hann mannshjarta glapið gat
til glæps með litlum eplismat,
er hann, sem vitum, Evu sveik;
ei er hèr meira tafn í leik!
Til versta brots hjá vorum frúm

---

[1]) *Meiðmaverzlendur* (Júvelerar), þeir sem selja dýrgripi; meiðmar heita dýrgripir í þrymskviðu.

[2]) *feikn*, áfergja, eptirrekstur.

vatnsdropi[1], þurt sem hitti rúm,
harðnaður sólar hita við
hjartanu getur um snúið.
Í þessu jafnvel *miklir menn*
meinlæti, *konur* eru senn;
veit eg að dygðin þolir þó
þíng, er til prýðis konstin bjó;
umskipti venjan elskar dátt,
en hún týranna brúkar hátt,
og fyri setur fólki lög,
er flýr skynsemin undan mjög.
Hvar dregin að með drambi var
deigja vanfrjáls[2] til blómgunar,
að varan sjálf sè varla góð
vottar aðfenginn glampi þjóð;
svo og í rèttri meiníng má
maður síður enn ekki fá,
þó fyri sjónum bliki bjart,
brillant[3] af rèttri nokkurn art.
"Ræð!" verður svarað, „ræð og kenn!
raus þitt og buldur þola menn;
um brillant, sem þó brestur prís,

[1]) Með vatnsdropa þessum meinar Bar demantinn; kona hefir látið sigrazt af meðalstórum demanti, sem ekki hefir viknað við þó henni væri boðnir miklir fjársjóðir í peníngum.

[2]) vanfrjáls, annarlig, frá öðrum tekin eður aðfenginn.

[3]) Brillant (Briljant) skygður eðalsteinn, einkum demant.

"berliga sögn þèr móti rís;
"einn kóngur villast aldrei má,
"ofstórt í fáng sèr tekur sá,
"sem sèr í huga lætur leidt,
"lund hans að fái glapið neitt.

"Vesæll bragsmiður, þagna þú
"í þörf og armóð sokkinn nú;
"af hatri drukkin yðar er
"andagipt, hræsnis-kjóar, þèr!
"yðar hvervitna er og mun
"element fánýt prèdikun,
"að sjálfs guðs bendíng síðan þèr
"syndgað ei getið hèreptir.

"Heimspekíngur, sem hatar menn
"hvorstveggja til ei borinn senn!
"þú eptirfylgir Esóps ref
"afskottuðum, í lymsku þef;
"venjulausum þó varð af prett
"verkun tilætluð fángalètt:
"refur enginn lèt rófu þar,
"rètt sinn hverr heim af fundi bar."

Glansið, fèdárar! glansið þá,
glis hverra lítt eg stendst að sjá
sýnið æði, sem megið mest!
menja-gripina virðið bezt!
sóið þar yðar sjóðum í,
svo eg með vissu trúi því:
narri snauður í narra sið
narra ríkan ei jafnist við.

Hof-vaninn[1] býður yður inn,
auðugu jarðar stórmennin!
hann kýs, að tignar keppi-mið
og kenniteikn sè narrasnið;
hofvanans drottnun harðráð er,
og hann, mektugur eins og þèr,
vill, að með stórri steina mergð
stun útaf yður skuli fergð.

En gefi, furstar! yður slík
ununar-mæti viðhöfn rík,
oss hún þá víst ei ætti sár
andvörp að kosta, blóð, nè tár;
þenkið, ef kúgar þegna prins,
svo þíngum prýði dýrsta kyns
sín drambs-herbergi dapurlig[2],
dug hann með þessu firrir sig;

þeim dug: ágæti nár að ná,
og niðjum stór að verða hjá;

---

[1]) "*Hofvana* kalla eg *móðinn*, sem er útlent orð, eins og hann er sjálfur", *(skáld.)*.

[2]) Rúðólfur hinn annarr keisari og konúngur í Bæheimi kúgaði þegna sína til að raka saman handa sèr grúa gimsteina. Hann hafði og það gott af, að hann var kallaður Bæheims-Salómon. Seinast risu þegnar hans upp á móti honum og bróðir hans, og rataði hann í aumkunarligustu bágindi, svo hann misti bæði ríki sitt og dýrgripi og dó af hugarvíli 1612. Ein af gersemum hans var borð, alþakið dýrmætum gimsteinum, svo meistaraliga samskeyttum, að það sýndi náttúrliga landsmynd; það hvarf, og veit enginn hvað af hefir orðið.

dýrindin munu heiti hans
og heiður gjöra að dupti sands;
lýður í ánauð lagður þar,
ef lítur sinnar vesældar
höfund, það dýrmætt Ekkert, á,
af ógn og skelfíng fyllist þá.

Þar eg á breiðum, því eg hlýt,
þessum ber-hvol[1], að snöggri lýt
hofmanns[2] persónu, höndlun með
híngað til þrátt sem ei er sèð,
mundi þá bilt ei verða við
vitrum manni þann fána sið,
ef eg vors tíma viðhöfn í
vefði mig, orðin hennar þý?

Skyld' eg bein láta fagri fergð
fátækra lima[3] steina mergð,
svo síðar verði bót á brag
búin til um minn neyðarhag?
margur, þó ekkert mark að sè,
makligt heims fyrir utan spè,
fagra gimsteina fólki hjá,
feilar sèr ekki að berast á.

---

[1]) *Berhvol*, það sem í þýzkunni er kallað *Bühne*, það er sjónar-pláz.

[2]) *Juncker* er hofmaður en *persóna* uppátekið gerfi, og læti þess, sem einn lætzt vera; *höndlun*, *Actiou*, eður *athöfn* í cómedíu.

[3]) bein fátækra lima.

Tiu kornhlöður tvennar[1] hann
í tengslum á sig hengja vann,
en hans óströffuð hríngahorn
í hár sitt púðrað nælir þorn,
föðurleifð hennar öll sem er,
af oki stolt á kolli sèr
ætlar hún til, að umbúð slík
innbyrli þjóð, að hún sè rík.
Og ef þèr nisti lituð ljóst,
sem leiptrar framanum hennar brjóst,
sverja munduð, að sæuð þar
sama skjöldinn og Aron bar;
Ó Kornelía[2], króna Róms!
kappa, Scipíons, dóttir fróms!
ó, mætti' eg svölun öðlast þá
ypparligustu, þig að sjá!
Nær eptir röð og annars bæn
áttir að sýna metfè væn,
ó, hvað þín hönd var glöð og gjörn,
að geta framleidt verðug börn!
vattst þá fram sonum vöskum þú;
en vorra landa mæður nú

---

[1]) þ. e. 20 kornhlaða virði í gimsteinum og gersimum.

[2]) *Kornelía*, dóttir ens mikla Scipíons og móðir Gracchanna í Róm, var stödd meðal mikilsháttar frúa, sem sýndu henni dýrgripi sína, og vildu líka sjá hennar; "hèr sjáið þið mína dýrgripi!", sagði hún, og sýndi þeim sonu sína.

forsugan reisa fiðurkamb,
fullar með borða-lauf og dramb.
Hunn-opt í eyrun heiður-snauð
hengir ein frú svo mikin auð,
að lángtum minna er annað fèð,
til alls sem börnin þurfa með.
Guð! hefir narra-girndin kná
gjört svo vitstola manninn þá,
að bæði kynin undireins
auka skuli svo blossa meins?
Allsnaktir gengjum allir vèr,
eins og Tyrknesku rakkarnir [1],
ef Adams fornt ei hefði brun
hrakið oss svo í fordjörfun;
framandi skraut og fagurt glis
fest á búnínginn útvortis
er, sem vèr játum, einsmargar
ákomur manns til blygðunar.
Sorglaust þó ei að síður líf
selja fyrir það menn og víf,
og sèr uppgrafa fánýtt flúr
fjallagjám harðla djúpum úr;
látið prýða sig þíngum þeim
þussa Morlands og villan heim!
vettugis þessa verið án,
þar veitt svo sjaldan þess er lán.
Torveldnin ein að fánga fè
forskuldar ei að dýrmæt sè;

---

[1]) Ein smá hundategund því nær hárlaus, hjá Tyrkjum, kölluð canes turcici.

forgefins krefur fyrir mèr
fegursti steinn, eg hrósi sèr,
sè fastur galli sá við hann,
að sízt í nokkru stoði mann,
þá er eg alltof tregur til,
að tendrast af hans girndar yl.
Lízt mèr segulstein lakastan,
ljótur hversu sem vera kann,
díamants stærsta dýrindið
dugi þó sízt að jafnast við;
nær hinn frábæri Fenix[1] vor,
er fylgir Júnó[2] sèrhvert spor,
blönduðum fágum blómgað stèl
í blaðformskrínglu þenur vel:
Þá er spekíngnum blævængs blóm[3],
sem ber þó lítin heiðursdóm,
ein háleit mynd, sem honum bjó
himin-artaða sinnis ró —
og hvað þá? — Sancis[4] glampi glær,

---

[1]) Páfuglinn var helgaður Júnóni eða Heru.

[2]) Hèr er meintur páfuglinn; Crœsus konúngur, búinn konúnglígum skrúða, alþöktum með eðalsteinum, spurði Sólon: hvort hann hefði nokkurntíma sèð jafnmikla dýrð? Já, sagði spekíngurinn: mèr virðist páfuglinn miklu prýðiligri, því fegurð hans er náttúrlig og meðsköpuð, en þú skín af annarligum glansa!

[3]) *Blæ-vængur* (lat. *umbella* e. *flabellum*) er það sem Danir kalla *Vifte*, og er lík páfuglsstèli.

[4]) *Sanci* er annarr demant, metinn á 2 milliónir punda (Livres).

sem glansar, öllu lífi fjær,
formyrkvast vegna fegurðar,
fiðrildi sem á vængjum bar.
Nema manneskjan aum við illt
óhóf og drambsemd væri spillt,
orðin þrælbundin undir smekk,
í erfðir sem af heimsku gekk,
hvort mundi' hún ei við blómstur bjart,
sem beðum vorum gefur skart,
meira hrærast, enn glampa grein,
þá glórir í einn lakan stein?
Svo gleðilaust og gallað fè[1]
gjört nema frítt með íþrótt sè
virðist naumliga verðugt, að
vèr skeytum um að líta á það;
það dugir! — Eg er dýrðlings sál,
dáraður sem við flæðarmál
evangelíum þuldi þjóð,
þeirri daufu, sem byggir flóð.[2]
Í staðinn þess, að sýna sig
sannan dygðar að elska stig,
mest stundar heimi maðurinn
munað og auð að votta sinn;

[1]) Demantar eru, einsog mennirnir, aldrei gallalausir.

[2]) Antónius enn helgi frá Ítalíu prèdikaði í borginni Rimíní, en þá hann fèkk enga tilheyrendur gekk hann af leiðindum til sjáfar, og prèdikaði evangelíum fyrir fiskunum, sem sagan segir at hafi allir lypt höfðunum upp yfir vatnið.

við óðakapp fyrir allri drótt
auðlegðar fram að telja gnótt,
ærs manns bætir hann æði því,
armóð að kæfa drambsemd í.

Göfuga þegar gjöra skal,
gimsteina settur út með val,
búraligs gullinn baugur hönd
borgara, sem er tídt um lönd;
getur villudóm gamlan þann
gjörbrotið jafnvel hygginn mann,
er kristinn fáfengs hugar hèr
heiðrar, sem Júðar ágjarnir?

Hvar gjald almúgans hagnýtist
og hjátrú til að seðja lyst,
einnig kirkjurnar eru þar
ónýtu prjáli flekkaðar;
Guð vill, að hjartað gefist sèr,
gullskálir honum offrum vèr,
allar sýnast ei annað þær
enn Saphír, Tópas, Rúbín skær.

Meinandi það, vort fíflsku fors
forskuldi þakkir Drottins vors,
altarið látum útflúrað,
einsog silfurskrín væri það;
æ! hvað eg vildi', að enginn þar
óþefur drambs nè fordildar,
andstygð frá himnum útskúfuð,
upp stíga næði fyri guð.

Hvað ein sortafull opnun óns
af bráðum reiðiskjálfta fróns

gýs ei frá neðsta gólfi jörð
gripum rífandi' á hennar svörð!
sem Vesúvíus einn að eins
ógrynnisfjölda tinnusteins
geysandi lætur gjósa hèr
með grimmdarlátum útaf sèr.

Hve skyndiliga mundu menn
margháttuð spil þá líta senn,
þau áður væru sjaldnast sèð?
sín hversu mundi dára geð
með skelfíng sárri skammast þá?
og skjótt með tárum ágirnd frá
öfundar sinnar iðrast fyrst,
í ónýtt góz ei lengur þyrst.

Ó! að þvílíkan eitthvert sinn
oss veitti tilburð himininn,
að það skoðunar- skemtið -spil
skynsömum mönnum fèlli í vil!
óspjað ei træði fótum fold
fè-kresa[1] nokkurs drambsamt hold;
vitinu gengi fullskjótt frá
fursti sèrhverr og dári þá.

---

[1]) Fè-kresi er smíðað orð úr nafni Krœsus eptir íslenzkum talshætti, og kennt við fè, þ. e. auð.

## 71. ÁSTARLÝSING.

Eptir tveim handritum, og er annað afskript af eiginhandarriti.

Quisquis amat, servit; dominatur quisquis amatur.
Quisquis amat patitur; quisquis amatur agit.

Hverr, sem ást til annars ber,
undir þann sig gefur;
hinn, sem boðin elskan er,
yfirráðin hefir.
Hverr, sem ást til annars ber,
undir gengst að líða;
þeir, sem boðin elskan er,
álögurnar smíða.

## 72. ÓSK.

Eptir tveim handritum. Stöku þessari er snúið 1797.

Homines, qui gestant quique' auscultant crimina,
si meo arbitratu liceat, omnes pendeant:
gestores lingvis, auditores auribus.
*Plautus.*

Þeir sem bera' og þiggja róg
(það væri rètt dæmt gaman!)

hvorutveggju' á Hagbarðs dróg[1]
hánga skyldu saman.
Hinum fyrri túngu tól
togast ætti' í sila,
þessum fest í eyrun ól
svo aldrei mætti bila.

## 73. FYRIRBÆN.

Eptir einu handriti.

O Deus omnipotens! vituli miserere Johannis!
quem mors præveniens non sinit esse bovem.
Corpus in Italia est, habet intestina Hrabantus;
ast aminam Nemo; cur? quia non habuit.

Ó, Drottinn allsvaldandi!
aumkaðu kálfinn Jóhannes,
er var í æskustandi
andanum þegar frá sèr bles;
heljar þann
horn ei spörðu,
hráúngan
sundurmörðu;
gjör þú hann
að graðúng lífs á jörðu.

[1]) Hagbarðs dróg, Hagbarðs hestur, gálgi.

Valland má veizlu muna,
varð þar krofið af honum til;
Brabanzkir eins við una,
eiga þeir lúngun hans og vil;
sál nam hèr
sundra enginn,
sál ei er
neinum fengin —
hvarfyrir? —
í honum var sú engin!

## 74. HEIMSGÆÐIN.

Eptir einu handriti.

Non domus et fundus, non aeris acervus et auri
ægroto domini deduxit corpore febres —
*Horat. Epist.* 1, 2, 47—48.

Salur ei nè óðöl,
öldusól eða margföld
dalahrúga, kann kvöl
köldu skilja við höld.

## 1. FRELSUN ÍSRAELS.

### FYRSTA BÓK.

Kvæði þetta *(Det befriede Israel)* hefir ort á dönsku prestur nokkurr Herz að nafni, sóknarprestur að Krosseyri á Sjálandi. Það er í 18 bókum, og er prentað í Kaupmannahöfn 1804 í 8 bl. broti. Eflíngarfèlag enna fögru vísinda gaf höfundinum verðlaun fyrir kvæði þetta, og galt að nokkru leiti prentkostnað fyrir það.

---

Sezt upp, Saunggyðja!
sem oss kvæði!
framtel frásögu
fornrar þjóðar!
sem efld af æðstum
aldaföður
neisu-næma
Nofs [1] hlekki braut.
Og um útvalín
afrekskappa,
sem að lausnarleið
leitaði bræðrum
ofsafulls ægis
öldur gegnum,
Mizraims maktar
ena miklu gröf.

[1]) *Noph*, *Mizraim*, *Pathros* og *Zóan*, öll þessi nöfn merkja Egiptaland.

Flettið, fornaldar
frægu dagar!
upp fyrir óðar-
anda mínum
lengi luktri bók,
svo hann lært fái:
Drottins dásemdir,
hans dýrri þjóð
áður auglýstar,
út að skíra,

Og að afmála
fyrir undrandi
samtíða sveitum
sjónarspil þau,
er svo útdreifðu
ypparligum
yfir yður
uppheimsljóma,
og ennú öldum
ókomnum fram
miðdags glansa með
móti skunda.

Á skein egipzkar
ennú slèttur
sunna, sígandi
að sölum Ægis;
skuggar sveifla sèr
á Sefhafs[1]-strönd,

[1]) Sefhaf, Edomshaf og Edom kallast hafið rauða, *en Etham er efstu plátsin þar umkríng.*

en sló álengdar
frá austurhæðum
Ethams-slóðir á
aptanroða.
Þegar Ísraels
þèttir skarar,
einsog ótals-her
Ægisdætra,
innað strönd, strýktur
af stormi norðan,
sig frá vestur-váng
vítt útbreiddu
áleiðis ofan
að Edoms hafi.
Fyrstur fór Móses,
frægstur kappi,
heiðursverðugur
fyrir hyggindi
og sökum aldurs
öldúngur sá;
hugprýði og hreysti
herforíngja,
löggjafa vizka
og lyndismildi
sem teikn sýnandi
sendimann Guðs,
róreifri ásýnd
rekks á skinu.
Furstans framgánga
var föst og rösk,

augun óhvikul
með athuga
horfðu hvervetna
á Hachíroth[1],
þar vegvísanda
varatektar-
ský hið gullskæra[2]
skaut sèr niður.

Honum hoskir,
og höfgum búnir
vigraþíngs-voðum,
enir völdustu
Ísraels fylgdu
æskukappar;
um her hvatfara
hvirflaðist ryk
allt í kríng,
einsog þoka
ljær morgunblæju
lauf-súðar-skógum.

Þustu þeir fram
í þèttum röðum,
er sig seinliga
sundurgreiddu;
sáust í dalnum
frá suðri norður
leiptranir lýsa

[1]) *Hachiroth* hèt þar sem Ísrael fór yfir hafið.
[2]) Skýstólpinn.

af logagylltum
örva umbúðum
og álma mergð,
Týs-elda teinum
tvíeggjuðum,
og kaldhömruðum
koparskjöldum.
Þessunæst þramma
þyrpíng blandin,
dökkhærðar drósir,
dálítil börn,
og en gángseinu
gamalmenni
röktu flokks-feril
ens fullvopnaða.
Enn kom eptir þeim
annarr skari
ótöluligur
úngra kappa,
fetum fullröskum
til farargreiðslu
og hjálpar hinum
sem hrumir voru.
Hreystifull hetja
hèr sást leiða
fjörgamlan föður,
sem á fótum skalf;
eigi afvaninn
ennú hrjósti

mögur svaf
á móðurherðum.
Hèldust í hendur
hjóna efni;
hèr bar ástarör
ýngismaður
hana, sem hafði
með hýru yndi
fángað hjarta hans,
og hárri dygð.
Örmum umspenntur
ektamaður —
hjartnæm sú var sýn! —
sinnar konu
vandar veggaungu
varliga og seint;
með farm fastheldnu
í fángi kæran,
berandi brúði
í barnsvonum.
Móses minntur á
af mildu skýi,
sem nú sjálfkrafa
settist niður,
gaf lýðnum teikn til
að taka hvíld:
"Dvel við drótt!" kvað hann,
"Drottinn bendir;
himin býr sig brátt
blikhjúp nætur;

skal því skjaldborg gjör
af skara vöskum
alvopnaðra
ýngismanna;
Nokkrir að norðan
niðurraði
og vestanverðu
verndartjöldum!
þá skulu þúsund
á þeirri síðu
hreykja herbúðum,
sem horfir að
óbygðum suðurs
eyðimörkum.
Ske má að skeri
skap vors fjanda
herfáng hrifið
hans frá tönnum,
og hann til hefndar
með heiptar ofsa
sæki svikull að
sofanda ljóni.
Af því hann ei veit
Ísraels guð,
og ei Ísraels
afrekskappa;
hættulaus er hvíld
að Herrans orðum!
lítið, hvar lýsir
hans leiðarfána!"

Mælt hafði hetjan —
og hertjöld breiddust
drifhvít an dvalar
í dalnum út,
bradt sem hafsfroða
í hvössum stormi;
mundi Mósi
fyrir miðju skýi
aðaltjald uppreist
og Aroni.
Þángað var þegar
með þægri kyrrð
borið skrautligt skrín,
er skýldi geymdu
heiðarligs Jóseps
helgu dupti,
eptir eiðstaf
að ósk deyanda.
Sezt nú sèrhverr
að sínu tjaldi;
höfðu hèr dætur
hvítbrjóstaðar
innanhúss-annir
um að sýsla;
mátti móðir því
í makindum
óttalaus dilla
úngu jóði,
svo það sofnaði
sèr í kjöltu.

En þreyttur faðir
af þúngri gaungu,
sig á beðblæju
til blunds lagði,
eða í samsæti
sinna líka
minntist hvað framfór
fyrr á dögum.
En, sem ófrýnlig
eiturnaðra
skríður úr skoti,
því skin hræðist,
nær öll náttúran
af nótt er svæfð,
svo hún sært fái
þá er sízt uggir:
Svo læddi sèr fram
sinnisgremja
mitt í makindum
ens mikla hers,
og af öldúnga
öfundarfullum
flokki, sem forlög
höfðu fjærst í stað
samansafnað,
svellandi neisti
varð brátt uppblásinn,
svo bál gjörðist.
Upphóf Úzíel
orðræðu svo:

"örvílnað áform!
ónýtis-ferð!
augun eru dymm
af ára þúnga;
knjáliðir skjálfa,
sem knáir voru,
  Og þó aldregi —
aldregi; já —
mun blessuð bygð
í bezta landi
mín glaðvær gjöra
gömul augu;
aldregi Salem!
mun engi þín
fótur minn heilög
fá að troða.
  Nei, — von mín vaknar
við hvern morgun,
göbbuð að kvöldi
gengur undir —
nú aldrei optar
upprennur hún —;
nei, hann narrar oss,
ekki neitt annað!
  Kraptlítill kostur
klýju efni,
villt og göbbuð von,
vegir örðugir,
grimmt hel og gröf
eru gáfur hans. —

Bygð í dauðs dysjum
svo dýr að kaupa?
  Fórum vèr fyrri
með fyrirhöfn
leitandi lúnir
að líftjóni
hinna Ísraels
meðal hýbýla?
hærumanns hlutdeild
var hvíld og saðníng,
en ei ónæði
og illur sultur.
  Hèr þverr mèr þróttur
af þorstans bruna,
öll lykjast eyru
fyrir ópi svángs;
að hraða, hraða
hrjáðum fæti,
eitt er hróp það hèr
sem heyrist gella.
  En bif til kælu
bólgnum fæti,
eður olía
til áburðar,
að hressa höfuð manns,
er hèr ekki;
eitt gestum örlátt
Egiptaland
gefur þreyttum þræl
þessa hluti —

Egiptaland!
Egiptaland!
hvað eg var heimskur!
ó hví lèt eg? —
ó hví öldúngur
lèt í umskiptum
þín mýkri bönd
fyrir Mósis hlekki?"
"Heill sè oss" honum
hálfkjökrandi
Elasser ansar
með öldúngs raust,
"heill þú af elli
útlifaði!
hallast til heljar
hærur þínar.
En, bur hvors okkar
með orku fullri? —
mögur hans
á móður armi?
brátt æstar okkur
eilífur svefn;
þó lifa þessir
þjást og stynja,
eins og við
allt til dauða,
en stynja' og emja
til ónýtis.
Vèr höfum vafrað
um váng Ethams

og á hæðir hans
höfum klifrað;
grimmur Skakali[1],
gripfugl kolsvartur,
eitraðar nöðrur
og ormar skæðir
úlbúð úthvæstu
oss á móti,
frá runnum, holum
og rifum kletta.
Þrá-þrammað grjót
og þyrnabroddar
skáru skaðliga
skjögrandi fætur —
nóg er nú talið,
já, nægar píslir
til dráps að draga
deyjanda hrör.
En — hin astfólgna
æskublóms mey —
og ýngismaður
uppvaxandi —
til böls eins borin,
og að bítast upp
af æ-nagandi
ángursemi,
þau sem þó eru
þeirra feðrum,

[1]) *Skakali* er hrædýr, líkt refum hjá oss.

hjartanlig hnoss
og en helzta von?
Skulu þessi þá
þverra og deyja
líka sem lækur[1]
í lands öræfum,
sí-eyðast seint
af svíkjandi von,
og mjög formæla
minníng vorri?
Nei — faðir em eg —
þótt ekki logi
úngdóms eldur
í æðum mínum,
og fylli arm minn
æskunnar styrk; —
áður enn Edoms
austursíða
roðnar nú á ný
af næsta morgni
strax gríp eg styrktar-
staf mèr í hönd;
fari hverr með mèr
maður hygginn!
Þá er eg þreyttum
þessum fæti
fram stigið fæ
á fold Egipzkra,

[1]) sem regnlækur þornar snart í sendnum öræfum.

mun eg aldrei meir
við mitt hreysi,
nè skugga skilja
skýlandi pálma.
Víst er von betra
við að lifa
þótt við þrældóm sè,
en að þarflausu
að láta líf sitt
og með lífi von."
Aflèt Elasser
andvarpandi
og hendi hristri
huldi sinn grát.
Upp þá Jssaskars
aldinn garpur
rykkti sèr Raphú,
með rafn-svart skegg.
Að svip samlíkur
sortafullu
af voðavindi
veifuðu skýi,
harðsvírað höfuð
af hroka skók;
margur hræddist hann
og af hugferði
nefndu rekkinn rètt:
Raphú slæga.
"Hverr gjörir öldúng
að óvita?

hverr að grátgjarnri
garp einn kvinnu?
þegi sèrhverr sá,
er með sögn heimskri
gjörir sjálfum sèr
svívirðíngu!

Meinið þèr muni
meistarann svika
örvar oddlausar
orka' að særa?
Nei! ef hatið hann
þá hyggið að:
leggið ei á hann
last sem vinir!"

Hèr stakk hann í stúf[1]
og studdist lotinn
harðla svipsvartur
við svignað spjót; —
þá breiddist þögn út
í þessu tjaldi
með sama mikil,
sem miðnættis kyrrð.

Með huxun djúpri
og heilabrotum
sèrhverr öldúngs orð
ígrundaði;
enginn þorði þó
úr þagnar hyl

---

1) Það kallast *stúngið í stúf*, þegar snöggliga tekur fyrir nýbyrjaða ræðu eða hvað annað.

einu atkvæði
upp að skjóta,
augun óttafull
að eins spurðu.
"Ónei" — aptur svo
ámálgar hann
mildara máli
meiníng sína —
"nei, á flótta frá
fángelsinu
enginn ætlar til,
utan dári
að hafa hagsæld
ena hægustu,
og gleðja góm sinn
góðum rèttum.
Eigi lauk egipzkum,[1]
eigi svefni
fram til hana hljóðs,
eigi húðar vörn
fyrir sands suðu
og særíng þyrna,
ei kvenna, krakka
nè karla ró;
engu hèt Móses
oss af slíku;
einkis væntum vèr
á vorum flótta.

[1]) Egipzki laukurinn er sagður mikið ljúffengur, 4 Mós. b. 11, 5.

En hin fagra fold,
sem í fornkvæðum
útmáluð er
svo yndisliga;
foldin, sem forðum
faðir alda
í umbun fyrir
Abrahams trú
heitið hefir
hans afkvæmi;
hún er sem horfir
hugur vor á.
Oss Móses oki
undan smeigði,
ei sló hann að eins
Egiptaland,
heldur og augu
Ísraels töfrum;
opnið þau aptur!
enn er tími! —
hyggið að! sjáið
hvar vèr erum!
Sèst í norðri Noph
er vèr nýliga
eins og óvinir
yfirgáfum;
sjáið í suðri
sèrligan heim
af oss ókenndum
eyðimörkum!

Sjáið í austri! —
já, Ísrael!
rètt fyrir fótum
enna flýjendu —
fastari fjötra
nú fær oss haf,
enn áður voru
egipzkir hlekkir.
Hverr vill oss vísa
á veg enn nyrðra
gegnum grimmt Pathros?
hverr guð er sá?
ónei! ekki þó —
í eyðimörkum
hvort geta guðir
gengið villir?
Móses, Móses einn
mundi oss svíkja!
sjáið hvort guðinn
hefir sendan hann?
Upp bræður brátt!
ef brotnir eru
fjötrar, frelsi vort
fyrir stríðum!
leituðum vèr ei
leiðar nyrðri,
ennþá opin
fyrir oss er hún.
Brjótumst tilbaka
með brand í hendi!

í Egiptaland
aptur hverfum!
hefud orum örvum
skal efla flug,
oss tvíeggjaðir
ættartángar,
yfir fjöl-fylktan
Faraons her,
líkum breidda braut
skulu brátt ryðja.
Veg þá finnum vèr
verði keyptan,
bræðra blóði
sem bríxlar oss
meður vanvirðu
um vora heimsku,
að Mósis munni
svo mjög trúðum.
Svara þú mèr sveit!
nær svo sem örn
þú með afls orku
óstöðvanligri
þángað berst og brýzt
að bygðum feðra,
yfir óvini
eggjum fellda.
Nær eð Nophs lýður
niðurbeygður
skoðar þinn skilnað
með skelfingu,

skal sá, er sveik þig,
sèr þá finna
vèlaðs voldugum
und' vængjum skjól?
Á hann að arka
óhegndur með?
taka tignar-hlut,
sem ei til vinnur,
svosem sjálf þú,
í sigri þínum?
sjá þitt blóð þegar
þrykkt á hans mund!
hví viltu hefndum
hörðum fresta?"
Hann hermdi þannig,
og hermannliga
greip gyldan boga,
sem gall við hátt;
"hverr vill", hrópar hann,
"til hildar fylgja,
mèr í gegn Mósi,
er mengi sveik?
hverr vill hjálpa til
að hefna bræðra?"
Þá þustu allir
þegar á fætur,
sem þá fjöl-flæktur
fórnarreykur
hvirflast hvatliga
fyrir hvassviðri;

svo riðlast rekka
röð í tjaldi;
þrengist hverr þeirra
um þveran annann,
og kostar kapps um
að komast út.
Naut þar nærri
næranda svefns
og hægrar hvíldar
Hósea[1] úngi;
lá hans líkami,
sem lengd bar til,
í ró reifaður
enn rèttvaxnasti.
Hann lèt handleggi
undir hátt enni
samanlagða sèr
svæfil vera,
gull-ligir lokkar
lèku um herðar;
sat á samtali
sál hans í draumi
blíð hjá forfeðrum
fyrstu tíðar.
Hann af háreysti
og harki vakinn
fór strax á fætur

[1]) Hósea Númssonur, síðar nefndur Jósúa, sjá 3 Mós. b. 13, 15.

og flýtti sèr,
grípandi sverð sitt;
hann í sviplyndi
með brugðnu bragði
brauzt út að mæla:
"Hvað er hèr á ferð?
hvort er Amnoph[1]
hèr í herbúðum?
heyrið bræður!
hvort viljið heyja?
hvar skulum vèr
eptir Ísraels
óvin leita?
Heill er hugur minn
heitur eldur;
allur minn armur
einskær hreysti;
sagði sýnin mèr
sigurheill."
"Heill sèrt, ó hetja,
Hósea þú,
Ephraims ættar!" —
ansar Raphú, —
"bú þig bráðliga
til bardaga!
lát hug og hreysti,
sem þig handleiða,

---

[1]) *Amnoph,* Egiptalands konúngur; hjá Milton heitir hann Búsíris, sjá Parad. M. I B.

sameina sig
við sinni bræðra!
Vopnaður em eg —
en óvinurinn —
á móti Mósi
og móti Amnoph
herliði hyggjumst
að halda vèr!" —
(Hetjan gullhærða
hugvill og stöm
við þetta varð,
og lèt vopn síga).
"Sást þú ei sjálfur" —
sagði Raphú —
"að leiddi Móses
lýð vorn híngað,
svo hèr án hjálpar
skulum hel bíða? —
hèr á villuváng,
þar veglaus auðn,
Ægir og Amnoph
að oss kreppa.
Nú vekjum vèr
af værum svefni
hugprúðar hetjur,
hraustar æsku,
því nú skal þruma
með þeirra styrk
hörð og hraðfara
hefndar vorrar

hvirfil töframanni
hvolfast yfir!"
Hetjan gullbærða
hèr til gegndi,
skjálfrödduð raustin,
og ráð augna
ángrað, auglýstu
óvenju sorg: —
"ó bræður, aptrið
ofdirfsku ráði!
Hættið! hlýðið mèr!
heyrið eitt orð
frá vörum, vönum
að vera trúar!
og reynist mál mitt
meingað falsi,
þá dynji dómur þess
er drótt svíkur
og illt vill Ísrael
yfir mig!"
Lýð var kappinn kærr,
karlmannligs hugar
og vizku vegna,
og vinar hjarta,
sem birti blíða
bróðurlig hans;
opt hreif hann undan
ofríkis hendi
þess, er þjakaði
þjáðan hlýra

meðan egipzkt ok
var Ísraels farg.
Hèraf, sem hjörð sú,
er hafði dreift
ugglaus sèr
útum haga,
viður varahljóð
vöktunarmanns
frestar framrás
og fer tilbaka —
Eins hepti hyggins
Hóseæ raust
áminntan hvern
af úngdóms flokki,
sem öldúngs orð
höfðu ínetjað;
jafnvel gat hann gjört
enum gömluðu
efablandin brjóst,
svo buslið hvarf.
Frá sèr fljótt gripnum
fleygðu vopnum
nokkrir nú,
en með nauðúngu
aðrir fóru í flet
með flein í hendi;
í von að veiða
með vèl enn únga,
refslægur Raphú
ræddi þannig:

"Allvel þú ætlar
að þèr að taka
mikin málstað
til Mósis friðar,
og að verða viss,
hvað vogar eg,
enginn eins og þú
óttaligur
uppkom Ísraels
æskumanna.

Þvíað þín vizka:
þor og frægðir
aldur þinn
yfirgánga;
þó hyggst eg, Hósea!
heyra þín orð,
og þèr andsvar mitt
aptur gefa.

Aldrei reka rèð
rèttvísin sjálf
frá sèr þess forsvar,
sem fèll í glæpi,
en það er spá mín
af speki þinni,
hetjuhjarta
og hug til bræðra,
að Raphús andsvar
ef þú á hlýðir,
móti Mósi þú
mæki dregur."

"Mæl!" — kvað múgurinn —
en mögur Núns
með hægð og hógværð
hóf að ræða,
eins og upprennur
endurnærandi
vor eptir vetur
vindsvalan mjög:
"Ei af fals-funa
framknúður eg,
svo sem hræfarelds
sjónhverfingum,
eið vann Ísrael
í ánauð stöddum,
að elska af alúð
ættarfólk mitt;
þèr minnist þess,
að eg þetta sór,
og þekkið einnig
athöfn mína.
Enn brennur, bræður!
í blossa helgum
fyrir heill yðar
Hóseæ sál;
því fór í þessa —
það eg játa —
eg með Ísrael
öndverða för
umspenntur efa
ángistarfullum.

Eigi fyrr farna
til að feta leið,
ókennd öræfi
sem á færir;
þenna villu váng,
þar veglaus auðn,
Ægir og Amnoph
að oss kreppa.
Eg varð æ hvern dag
óttasleginn
meir og meir
í mínu brjósti
um en ókomnu
Ísraels kjör;
og varla varðist,
já, eg varla gat
hrædt og skjálfanda
hjarta varið
mitt fyrir misgrun
um Móisen;
Lagðist eg, lúna
limu að hvíla,
hrjáður hjartasorg
heimugligri;
girntist eg að geta
gleymt mèr sjálfum
og mæðu minni
í mjúkum svefni; —
lifna fann eg ljós
í lyndi mèr,

en nú sèr eg þess
ýtru geisla!
Á hlýðið, bræður!
hvað andinn sá,
nær kránkur hugur
og kraptaleysi
lètu lokkaðan
lítin dvala,
en þótt óværan,
á augu mèr:
Eg sá þá útbreidd
Ísraels tjöld,
eins og nú eru
með endilaungu
innan ummerkja
Edoms hafi;
upphófu glaðir
ýngissveinar
hæverskar meyjar
í heiðurs-saung.
Þverrandi dagur —
þá eins og nú —
sína síðustu
sendi geisla,
nötrandi af nætur
nálægrar sjón;
hvervitna ríkti
hvíld og gleði.
Eg sá opna sig
Uppheims veldi,

og svo með sama
seig niður ský,
mjög hvítt sem mjöll,
og morgunlanda
glæjum, gagnskærum
líkast perlum,
frá stjarna-storð
stefndi það ofan
híngað Ísraels
herbúðum gegnt.
Abraham, bræður!
stóð efst á skýi,
en frá ásýnd hans
yfrið skærri
streymdi ljós ljómi
yfir legurin,
ókenndur dauðligs
auga hverju.
„„Sjáið!““ hrópar hann —
og bratt til austurs
leiptraði hönd hans
heruðum gegnt;
allt varð nú upplýst
umhverfis hafið,
svo feikna furða
fèll mèr á hjarta.
Ei var þar útbreidt
fyrir augum mèr
einsog í Etham,
autt haf sanda,

hvers eilíft flæmi,
þegar um er horft,
fólks sjón forvitna
fyllir leiða.
Ei var þar upphreykt
ofboðsligum
hamra háturnum
sem í Hachíroth,
þar sem grængolar
í gapanda svelg
undir fárfjöllum
framslútandi,
er frá sèr óhrærð
endurvarpa
skruggu-skarkala
og skrækjum uglu,
þá er ýlfrar hún,
einmana fugl.
Heldur engi ein,
ymsan veg lit,
baðm sinn í bylgjum
lètu bifaðan,
frjófgunarfullum
fyrir vindum;
glóandi af gróða
gulli krýndum
ágætir akrar
allskonar sáðs
bentu búmanni
brátt til starfa,

til starfs og tekju
tíufaldrar.
Í dalnum, meðal
dýrra pálma,
bryddur með blómstrum
bugaðist lækur,
hálfbláar bæðir
hrínginn í kríng
hrósuðu háfum
haga-blóma,
er lýsa lètu
lángt til að sjá
alklæddar ullu
ótal hjarðir.
Eikur, ávöxtum
undir sveigðar,
svöruðu sjöfalt
síðjúfruðum
bjarka bergmáli
baulandi kúm;
og í fám orðum —
því að útmála
hugsigrandi sýn
sízt eg megna —
af skæru skýi
skírðir gengu
kostir Kanaans
yfir krapt augna.
Óskir og laungun
mína önd gripu:

æ! hverr uppþurkar
ólgufullt haf?
uppkvað svo hjartað
andvarpanda:
hverr mun lèna lýð
landið góða?
Ein uppstígandi
ylmandi gufa
minn í sama svip
sveipaði hvirfil,
lík þeirri' er líður
ljúft uppaf dal,
hvar hýacint
um hauður dreifist,
sèr þá um fjallið
sveiflar stormur.
Því, sjá, ský þetta
er settist niður,
allsein og ógreið
var ofanför þess,
sem yrði eldlopti
erfiðissamt
að streytast gegnum
hið stórgjörðara,
sem vèr öndum í
öll þjóð jarðar.
Nú steig hann niður
af nefndu skýi,
og gekk á meðal
Ísraels tjalda,

hans horfðu að Mósi
himnesk augu,
bendti hægri hann
hendi' í austur.
""Fylgið mèr!"" kvað hans
en fagra raust,
af hverrar hljómi
himinskærum
andi minn hrærðist
allur í gegn;
brátt gaf hann bendíng
með bragði vinar
og tók til gaungu;
tákn er að greina:
Hann hóf að gánga
og hèlt í austur
yfir hafs öldur,
sem undan viku
fótum fetanda,
en för hans þur
sýndu sig millum
sjáfardjúpa.
Fagnaðarfullum
fèkk eg við þetta
litið augum á
Ísraels þjóð,
þarsem hún framfór
í för ens helga,
meður gleðiglaum
og göfgum saungum.

Ó! hèrvið vakinn
með von hressa,
fullvissa fróun
fann eg í hjarta;
lát mig meðdeila
mengi Jacobs
af þýðu þeli
þèr ena sömu.
Abrahams minníng
uppfylli vor
hróðurligu
hrjóst með sinni,
og von til eilífs
alda-föðurs;
sonum Abrahams
eigi sómir kíf.
Látum þess ljótan
loga slökktan,
mjög er oss mínkun
að mistreysta þeim,
hvers orðum eflaust
Abraham trúði;
treystið Jehóvæ!
tilbiðjið hans
voldugu vegu!
og veltið eigi
Mósen öflgan á
ills hugar grun.
Vægið hjarta hans!
hvert þèr vitið

af ást ólganda
og af umhyggju
fyrir Ísraels
frelsi vera;
verið varsamir!
vægið hans aldri!"
Af reiði Raphú
rèð sèr varla,
flaug hann úr fleti
og fyrir ræðu
Hóseæ hepta
háðsfullur greip:
""vægið hans aldri!""
af viti eitt spor
í uppdiktaðri
óvits þulu!
Væg vorum aldri,
minn vin! eg bið;
væg, ó Hósea!
vorum aldri!
vit, að vent hefir
vor-tíð aptur
hálft hundrað sinnum
með hýru brosi,
síðan ýngstur einn
ossra feðra
lèt af, lærdóm þann
fyrir lýð að tjá,
sem með skrumfullum
skarpviturleik

kappkostar þú
að kenna gömlum.
Lát þèr, litli karl!
loksins skiljast,
að þú orðastað
átt við menn,
þá sem þèr kenndu
að þenkja fyrri;
aldrei vakandi
öldúnga ráð
umbiltist við
únglíngs drauma.
En — þú ert úngur —
og æ vèr sjáum
óvitran únglíng
eiga þykjast
vitranir, vísdóm,
og vetna hvað,
er aldrei hefir
eign hans verið.
Mjög gjörla man eg,
að mig dreymdi
einsog aðra,
nær eg úngur var;
safnaði' í sjónum
sèrligri vizku
og innbirlíngum
um mig sjálfan.
En, nær öldúngur
einhverr ræddi,

námfús þagða' eg þá
og að því hugði;
dvínuðu draumar,
doðnuðu sjónir,
sem snjór hratt hjaðnar
fyrir hita dags.
Sá eg þá um síðir
að sjaldfengnir
eru, Hósea!
himneskir draumar;
heyrðu hvað eg nam,
og halt fyrir satt,
að þú það sama
þurfir læra:
Aldrei únglíngi
óstöðugum,
einsog veðrið er,
og óttafullum
sem rádýr ragt,
og raunaeldi
eigi hertum af
nè ástríðu-þraut,
sællífissyni,
af síum lasta
yfrið auðkynntum —
Alstýrir-guð
aldrei auglýsir
ókomna daga.
Til hans talar
í tignum sjónum

og dýrum draumum
Drottinn eigi;
að eins öldúngi
ærið nóg reyndum,
stæltum, stöðugum,
sem steinhart bjarg,
öllum löstum ógn
á að ráðast, —
honum hann að eins
huldu-fría
ann á að líta
ókomna tíð.
Ekkert auglýsir
ómöguligt
ekkert uppdiktað,
alda faðir,
heldur sýnir hann
hlutina svo,
sem þeir ske kunnu,
skulu og eigu.
Skoða nú, vinur!
skilmerkiliga
í ljósi slíku
loptsjón þína!
þó — hvað þig dreymdi
það var draumur
sýndur sofanda,
en sjálfir hvort
vökum vakandi
vèr í draumi?

Móses æstar oss
orrustu til
nú móti himni,
náttúrunni
og föstum forlögum;
hverr fylgja vill
bistri bendíng hans,
og boga sinn
eður arma ljá
til orrustu
neinnar gegn himni,
náttúrunni
og föstum forlögum,
fífldjarfrar mjög?
Já, til orrustu
mót oss sjálfum,
barna mæðrum,
og brjóstmylkíngum?
munu þá ár ein,
já, árin tóm,
vera viss merki
vísdóms hæðar?
Hann, sá enn hyggni
sem hefir traust
allt á sjálfum sèr,
en svívirðíngu
metur, að mentast
og menn að spyrja
hina, sem honum
eru hyggnari.

Nei, væri Móses
vís, sem hyggið,
sízt hann svo mundi
sinna jafníngja
forsmá reyndra ráð,
nè ræður flýja
gamalla garpa
með gráum hárum.
Trú mèr, Ísrael
þú enn trúgjarni!
hann ei hefði þá
hlaupið svo til,
út að ana
með óteljanda
her þenna híngað
á hrjóstur-svæði.
Mun hann ær ekki?
sem ætlast til
jafnvel af sjálfum
jöfri himna,
og væntir víst,
að veitast muni
einneginn það
sem er ómöguligt?
Er þá Jehóva
sá eini guð,
sem valdi sèr út
villdarmenni?
Nebó, Nophsbúi,
til náðar kjörinn

hjá Ósiríde
enum himneska,
arð þúsundfaldan
árliga hreppti,
næsta nytsömum
af Nilsár bökkum.
Þessi þótt að eins
þriðja hvert ár
Ósirídis
eptir boði
sáði sinn akur,
hann á sèrhverju
uppskar af honum
yfirvættis
stánga bindini
að stærð og þýngd.
Nú gjörðist Nebó
næsta ríkur,
en blindur orðinn
af auðlegðinni
freistaði guðdóms
fulltrúa síns;
bað um sex ár sèr
að ei sá þyrfti;
Ósíris lèt það
eptir honum;
enn sem fyrr auðgar
uppskeran hann.
Aptur tók hann til
tólf ára frest;

akrar ósánir
alljafnt spryttu —
um brek bænheyrður
biður dári,
að þurfi akur
aldrei að sá.
""Ónei!"" — Ósíris
aptur svarar —
""af guða gæzku
gefst þèr að lifa,
en á þeim armi
liggur óblessan,
er vill æ hvílast
einn í landi.
Vitsmuni, krapta
og velgjörð hverja,
sem gimla-guðir
gefa mönnum,
brúka þú sem bezt,
og ber þig að:
lög sett heims háttum,
heiðra þeirra!
til lífs og lukku
leið sú er rètt,
og til hylli hjá
himins guðum.""
Innihèlt Nebó
akra sáði,
og guðir gæfu hans
í glíkan máta;

örbirgð endaði
óvitans líf,
sem bauð svo byrginn
boði náttúru.
  Mun nokkuð máske
minni að vizku
enn Nophs Ósíris,
Ebreskra guð?
mun hann ei máske
Mósi bregðast?
honum, sem hefur
heimskuligt stríð,
næsta naut-djarfur
gegn náttúrunni.
  Hann treystir hylli
enna himnesku
guða þeirra,
sem gefið hafa
megin náttúru
og mönnum vizku;
en hví útsóar
öldúngur hèr
þrótt sínum þannig
á þrot komnum?
  Hvað er að eyða
svo til ónýtis
fyrir trylltan flokk
fenginni reynslu
með mikils aldurs
mæðu stórri?

þó unna þúsund
þessum Mósi.
Blindt fram fylgja þeir
frávita hjassa;
ef þú, Hósea!
ert einn af þeim,
far þá, og flýt þèr,
fær honum vara,
ígegn upphlaupi,
sem er í nánd.
Að hann máske með
megni töfra
þeyti fram þrumu,
þenna minn koll,
grenjandi grimmri,
gráan yfir;
kveð þú hlustum hans
heyrnar gaman,
draumdillu þína,
og hvað dikta kannt!
Ei muntu elta þá
til ónýtis
himnesk fótspor hans,
hyggindafull
sem ætíð eru,
þó yfir tæki
þá er hitti hann
svo heppið ráð,
að setja svefntjald
sitt í kyrrðum

all-fjærlægt öðrum
öldúnga búðum.
Hlaup þú, Hósea!
sem hraðast getur
til hans, yndælt í
inni dranma;
dagljósan sannleik
sem dauðann flý,
í mjúku móki
hjá Móse þínum!
Vort tjald varast þú!
og við því sporna,
að nálgast náir
nokkurn þann stað,
hvar þèr sí-sárir
sannleiks geislar
ama fá aukið
augum þínum!"
Hann þuldi þannig,
og þarnæst spratt
með sigursvip
og sjón blossandi
útaf aldraðra
undranda flokki
og óeyrinna
ýngismanna.
Nokkrir nöldruðu,
en niðrí til hálfs
skrykkjum bundin sköll
skruppu' upp hjá sumum,

greip einn gyldan álm
sem gall viður,
til frama farar
fús og búinn.
Annarr sproksetti,
sem spyrja vildi,
áhyggjufullu
með yfirbragði,
úngan geira grèr
gullin-hærðan;
öll var nú öldin
óttaslegin.
En öll efasemd
í einu hvarf,
þá er Hósea
hóf að ræða
ástúðlig orð,
þó með alvöru,
svosem sævarlogn
að svæfðum stormi.
„„Vægið hans aldri!““
var sú beiðni,
sem eg framfærði
fyrir skemmstu;
hvort mun þá hafa
svo hastarliga
heiðri gráhærðra
Hósea gleymt?
eða hvört mun hann
hæðnisorðum

af vörum ausa
öldúngi gegn
þó að þeyti sá
þúngu spotti?
Nei, en eg elskar
æ hið sanna,
fyri því er það,
já, þessvegna að eins,
að eg vil eitt orð
til andsvars mæla
rammdjarfri, Raphú!
ræðu þinni.
Er eg þá úngbarn?
eða starfar
sál mín þykkvum þá
í þokum herusku?
eða hefir ódygð
eitrað mitt brjóst?
rann eg sem rádýr
ragt undan hættu?
Berið mèr hèrum
bræður! vitni,
allir hans orða
áheyrendur!
þèr vitið, vinir!
vegu mína;
þó læt eg þaraf
þeim orðum gleymt,
er hvergi hræðu
við hjarta mínu.

En af þèr urðu
fyrir órètti
sjálfur sannleikur
og sönn reynsla,
já, hæstum himni
eigi hlífðir þú!
Vottið mèr, vinir!
af vísum fornum,
hvort hafði Jósep
hærur gráar,
nær í hjáhvarfli
himneskra drauma
sínu lúta leit
um lágnættis stund
bindini bræðra
beygð til jarðar?
Á barst Ísrael
öldúngs kórónu
sá við guð glímdi,
þá á grund naktri
hann við hæð Bethels
heilaga svaf,
og hafði harðan stein
fyrir hægindi?
Í þrótt þreytandi
þegar draumum
hann sá himneskar
hávitranir,
og fèkk í fángs-laun
af föður alda

heit og heiti
hvorttveggja mætt?
  Augnabliks aldur,
eilífur guð,
manna lánglífi
lítils metur;
honum heilög dygð
er hærur gráar,
hjá honum eru
himnarnir úngir.
  Hvað er almáttkum
ómöguligt?
ráð þú nú, Raphú!
ræðu mína;
hvað getur hann,
og hvað ekki?
hvort mældi hann mörk sín
mannligu dupti,
eða þvíngaði
þetta hysmi
hið endalausa
almætti guðs?
  Inn mèr — af aldri
orðinn lærður,
hvenær hófst hans vald?
hvar það lyktar?
hans voldug bendíng,
viðlit skapanda,
nægir, svo hlýði
náttúran öll.

Því, ef þenkir hann:
""þetta verði!""
þá verður veröld,
eða víkur burt;
hiklaust þorir þó
þú að spotta
trúnaðartraust vort
til Jehóva,

Og leitast við
með lymsku brögðum,
sem þó ert sjálfur
sæmdur frelsi
fir yrföðurligt
fulltíngi hans,
að fleka flokk vorn
frá hans merki.

Svívirð ei sjálfur
sómakrans þann,
Raphú! þèr roskinn
rèttir aldur;
víst eru betri
vegnu gulli
útkomin ráð
frá öldúngs vörum;

Þó að eins þau
sem þvínga lesti,
bendíng, sem beinir
braut til dygða;
gjörla þekkir þú
það, sem eg.

Ó! þyrm þèr sjálfum
fyrir þeirri skömm,
vegligum prýddur
vísdóms kransi,
með aldurs álit
þèr í andliti;
að veita vatni
á vonda rót
móðs og misklíðar
milli bræðra,
sem þó er fullfús
til að frjófga sig;
Að kasta um koll
og kippa úr skorðum
enni yppurstu
Ísraels von;
diktaða drottna
dáraskapar
fúlum gröfum frá
að framkalla
þeim enum eina
eilífa Drottni
til stríðs og stygðar
stórkostligustu.
Framfylg ei, Jakob!
flótta þínum,
ef þú flýr að eins
egipzkar svipur,
en ei afguði
Egiptalands!

ef Týphons ógnir,
ef Ósirídis
og Apídis nöfn
þèr eigu að fylgja.
Reis ei upp, Raphú!
rósvæfða girnd
í kór Isídis
aptur að dansa,
að offra röðli,
þegar upp gengur,
en styrk þeim gleyma
sem stýrir honum.
Ekki batt ótti
fyrir Amrams bur,
eigi heldur hans
hylli leysti
þagnar til nè tals
túngu mína;
Drottinn og sannleik
og dygð eg elska,
ann og einnig þeim
Amrams bur,
Hann mèr aldregi
að hafna kenndi
heldur hvervitna
með heitri laungun
að sækja sannleiks
eptir svala-lind,
óvíst hvað lángt
frá inni þínu.

Sannleiks ef þú ert
elskandi vinur,
seg: hverr oss af braut
erfða hlekki!
seg: hverr oss hefir
híngað leidda,
Ethams villuváng
veglausan um
allt framað Edoms-
ægis síðu.
Máske Móýses?
mun honum þá
hafa leynd legið
leið en nyrðri?
seg: máske sèum
á hinn syðra veg
með töfra teikni
tældir einu,
sem hann sjálfur má,
hvað sè, spyrja?
Sèrtu sanns vinur,
seg oss heiti
þess, sem þverskallast
þú svo ígegn,
hvers dýrðlig hátign
hinsvegar lýsa
augum undrenda
andspænis sèst,
hulin í helgu
hátopps skýi,

Það er skært skin
um skarans búðir,
vísar vegstöðvar
og vèrndar oss;
skoða þú skýið
og skír með svari,
hverr er hann, sem oss
fèkk híngað leidt?
  Einúngis er það
í hans skugga[1]
að Jacob tjaldar
jörð og lifir,
hans er Jehóva
það ið háfa nafn!"
þau flugu orð útaf
úngs manns vörum.
  Engi vogaði
á að leggja
djarfligt dómsorð
milli deilenda;
skipti þá skarinn
skjótliga sèr.
Nú nam enn gamli
Nún upp standa,
heiðursverðugur,
og til hljóðs bendti.
  Kveikzt hafði kvittur
í kyrrum tjöldum

[1]) Enir gömlu meintu að guðs opinberun færði með sèr dauða.

um gremju-gjálfur
gamalmenna,
um Raphús ráð
og rimmu þeirra
hans og Hóseæ,
sem hèr var greind.
  Upp af rekkju ró
risu margir,
meðan stríðið stóð,
til að styrkja sèr
von eða vafa
í villtu brjósti;
hafði fregn svo færð
flogið til eyrna
háöldruðum
og hyggnum Nún:
  "Hart á í höggi
Hósea þinn
hjá rosknu ráði
við Raphú slæga;
Móýsis málstað
mögur þinn tók,
þar sem öldúngar
þínga saman."
  Hristist höfuð karls
hvítt eins og snjór,
reis hann úr rúmi
og riðandi hendi
leitar strax a staf
og af stað skundar,

með honum Júdas
Jephunnæ gekk,
þeir hèldu þángað
sem þíngið glumdi.
  Sjaldan hafði hreift
híngaðtil Nún
orðum, Israels
til ættkvísla;
en til aðstoðar
einstökum bróður
var hann viljugur
að verja leifum
dáðríks drengskapar
og dygðugs lífs.
  Allir hugástum
unntu þeir Nún,
fáort var hans tal,
en fullt af vizku,
og af heilum hug
hvervetna mælt,
heiðrað og haldið
sem helgidómur.
  Enn stóð hinn úngi,
þegar að kom Nún,
rekkur gullhærði
gegn Raphú slæga,
framrètt ens fróma
föðurlig hönd
bauð bur talanda
brátt að þagna.

"Hvað? sýnir, sonur!" —
svo hann mælti —
"þig í því
þú, að dæma
Jssaskars ættar
öldúng Raphú?
ógleymd veit eg er
úngs manns skylda
gráhært viður
gamalmenni!
Sjá, hversu hvítur
er hvirfill minn!
þess gæt þú, minn son!
þeig fyrir gömlum!
ei spyr Ísrael
únglíng ráða;
heiður úngs manns er
afl og hugur,
en vopn verkfæri;
vitjaðu þinna!
en þeig um þín ráð,
unz þeirra er spurt!
En mèr má, Raphú!
meir vera skylt,
og eg þori það,
við þig að tala;
þar eg, únglíngur
uppvaxandi,
bar þig barn
á blíðum armi.

Eg sá þig einnig
í uppvextinum
og þekkti þegar
þverúðar anda
á únga aldri
innan brjósts þèr,
þann sem þar hefir
til þessa drottnað.
Úngur, til ángurs
öldnum föður,
færðir þú fórnir
fúlum goðum
Mízraims manna,
sem mest þú gatst;
úngur tókstu til
trúnaðar hönd
þeim rètta þína,
sem með þrælkunar
allan Ísrael
oki píndu.
Drógstu drós í sæng
af dætrum Nophs,
og hæddir hlekkjum
hlaðin bróður;
tekst ei tímanum, —
tala þú, Raphú! —
nè því, að þenkir
um þína gröf,
loksins fullfrjófs
að fá þèr anda?

Til hvers máttu meir
mælast af Guði?
sástu hernað hans,
háfan sigur
og fagra fánu
yfir fólks tjöldum;
þó villtu vega
vizku þína
metnaðar metum
á móts við hans,
já, þig jarðardupt
móti Jehóva.
  Villtu ærr vera,
svo vertu ærr!
hygginda og heiðurs
í heimsku leita!
þyrm að eins þinnar
þjóðar friði,
svo þú ei þurfir
þá að blikna,
og titra taptur
fyrir tvöfalt brot,
dómendur dárum
er til dóms safna."
  Svo sagði Nún,
en seggja múgur
tók til að iðrast
sinnar tal-hlýðni,
þó gall við glaumur
greinarlaus enn

frá þèttri þyrpíng
þeirra skara.
Eins og ofviðri
þegar aflætur,
sem þreytti þreks kapp
við þrjózka gnýpu,
lætur loksins
í laufguðum dal
birta sig blesta
buldursuðu.
En Nún, hinn aldni
ærumaður,
gaf ei glóðheita
gneista tapta;
framfór hann sjónum
föðurligum
yfir ýta flokk
athugasaman,
og svo til orða
nú aptur tók:
"Merkið, hve megnar
misbrúkað vit,
bræður! að bregða
bragna hjörtum!
þèr sáuð sjálfir
ens sanna guðs
útrèttan arm
til Ísraels frelsis.
Sjálfir fylgduð þèr
fótsporum hans

yfir Ethams mörk
allt að hafi;
þó óx efasemd
ofdirfskufull
allt í einu
yðar á milli.
  Og dælskur Raphú
dirfist að spotta
helgum Ísraels
herbúðum í
æðstan Alföður
að ósekju.
  Ei var eg kjörinn
eða kallaður
túlkur Móýsis
til að vera,
ei mig útvaldi
Aldafaðir
ráð og eyrindi
til að reka sitt.
  En hrein augu mín
og athugasöm
líta lýð Jacobs
leystan vera
meður makt hans
og mildi leiddan;
þèr, ef það sjáið,
þagnið sem eg!
  En, ef í brennur
yðar hjörtum

efasemd, ótti
eða illur kurr,
tendruð af tali
trú spottanda,
þá farið frjálsliga
á fund Mósis!
sem sífelt elskar
sannleik hreinan.
Auglýsið efa
yðvarra hjartna
fölskvalaust
fyrir honum!
hann vissuliga
tekur vafann burt
og býr blæva-logn
brjóstum yðar.
En — takið talsmann
tilkjörin einn;
margir mælendur
meira trubla;
mætið með honum
sem þèr mest treystið.
Mætið, þá mengi
morgun kallar
umvarðandi
athafna til!
kvöld verður kátast,
ef kveðnar eru
meinlausar mærðir,
og mæddir hvílast."

Þau voru þessi
þjóðmæríngs ráð,
urðu þau gaumgæfð
og geymd af mengi,
og sem úngt jóð,
þegar uppvaknar
mjúklátrar móður
við milda raust,
glaðvært gleymir
grátligum draumi,
svo kæfðist kífið
við kærs manns ræðu.

Brátt kom tilbaka
burthrakin gleði,
og æruverðugur
öldúngur Nún
gekk sigursæll
að sínu tjaldi,
en hetjan Hósea
við hönd föður.

Smeygði sèr Raphú
með smán á braut,
annars eyrindis
enn að hvílast;
leitaði lágt
í lymsku djúpi
hann með huxunum
og heilabrotum
hentugra hrekkja,
til að hefna sín.

Lá svo liðið allt
í ljúfri ró
hálf-hlutað milli
hvíldar og gleði,
meðan húmbjúpur,
hæfur kvöldi,
frá austurhimni
útbreiddi sig.

## 2. BROT AF GULLBERGS KVÆÐUM.

Höfundur kvæða þessara er enn á lífi og í Kaupmannahöfn, og hefir verið um mörg ár kennari við listaháskólann (*Kunst-Academie*); kvæði hans eru víða prentuð og safn af þeim í tveim bindum 1803. Brot þau sem hèr eru prentuð eru eptir fjórum handritum, og er eitt eiginhandarrit.

Hverr er skálds heiður, ef það á
eptir sinn dag varanda
það orð, kinnroði því sem má
þaðra síðan af standa?
þott faðmi þann og gjöri guð
grepp vesælmenni deighjörtuð,
með ólund, harpa! sem þig sjá,
af svipu skelfd hans handa.

Samt þinn bragstýrir brosir stillt,
breytir ei ró í sinni,
en allteins hlær hann mjúkt og milt
þótt mann'gi brós þèr inni,

af því svo jafnan iðkar leik
eptir lags temprun raust þín veik,
en ei Gjallarhorns[1] ofrof tryllt
ókennd að nótt liðinni.

Lát á mikilleik myrkursins
mann hvern, sem lystir, trúa,
og í von fálma vizku skins
um villan þánka-grúa!
þinn lyndisglaður saungva-sveinn
samt inum gömlu lýtur einn,
sem flokks útskúfar hroki hins,
því heila manns ei kúga.

---

Yðar fjandmanna sök þó sè
sönn og rètt, varðar eigi,
haldið fram yðar háreysti!
heyrnir svo deyfast megi;
rök og skynsemi berið brott!
berið til aptur kými' og spott!
sigurs og æru fullnóg fè
færið heim striðs af vegi!

---

Sakleysið eitt við svika mergð
sèr hinn ráðvandi stríða,

[1]) Gjallarhorn var lúður Heimdalar á Himinbjörgum. Heimdalur var við Bifrastar sporð og hèlt vörð á brúnni; þegar hann blès í Gjallarhorn þá heyrði um alla heima.

og búið, heimskan biðji sverð
brjóst upplýsíngar sníða;
hann af fláræði hindrast sèr
hvers iðn, sem göfuglyndur er,
og af grimmd haturs undir fergð
eyðíng sannindi líða.
Umbun dreymd fyrir iðnir hans
ei honum sjálfum gefur,
öðrum þeim heldur ærukrans,
sem yfirmaktina hefir;
afviks sèrhvers, þótt ekki sè
af hans völdum nè tilstilli,
eiður í munnum almúgans
á hann faðerni grefur.

---

Hvort fátækt þín eða auðlegð er,
áttu, sem jörð byggjandi,
þinn vissan skamt og hlutdeild hèr,
í hennar mæðustandi;
morgunstund þín þó mjög sè hlý,
má þèr alls ekkert lofa því,
að nætur-skruggan, um þá fer,
ei þinni svefn-ró grandi.
Ef vonar hluti vor er sá,
á veg er bezt að halda,
og hættuminnst, að hörfa frá,
í húmið grafar kalda!
Flý þá, sem dári, feldu þig!
mun frá þèr nokkuð draga sig,

þótt stjörnu minnstri stöddum á,
stjórnarsjón guðs alvalda?
  Hèr fyrir eilífð vöxum vèr;
og víst sem gull í eldi,
í miklu prófast mennirnir,
mótlæti, sem þá hrelldi.
En, sinni þegar sál vor tvist
síðustu huggun gjör-rænist,
til kaupgjalds hèðan kallaðir,
könnum vèr annað veldi.
  Hverr sem frá möglun heptir geð,
og há-kvein fyrirgirðir,
þó daprar hljóti dragast með,
dagliga mótgángs byrðir;
sá sem trúir, að sorg og kross
sendi líka vel Drottinn oss,
glaðastan allra sig fær sèð,
saman við glaðar hirðir.
  Og, hvað hetjuverð heiðurs sýn,
hugar og augna gaman!
þegar manns yfir hvirfli hvín,
hver ein böls þruma saman;
þær safnast allar þar í eitt,
en þessi bugast ekki neitt;
hans ein stríðandi hreysti skín,
hvervitna' á bak og framan.
  Og að sjá þennan eina mann —
ó hversu dýrmæt sæla! —
sem þrumu-slagið kremja kann
kvikan, en ekki fæla!

mitt við dunur og megin-gný,
já, mestu stríði' og hörmúng í,
enn til guðs lyptir augum hann,
sem öruggt traust fram mæla.

---

Ó, þú sannleikur! sanna dygð!
seg, nær þín koma skeður?
hvenær mun jarðar heila bygð,
hylla þig alúð meður?
æ! hvort er dáðlaus draumur sú
dagsbrún, er tekur ljóma nú?
er hún ofsjóna lèttvæg lygð,
er lausu táli gleður?
Svo margur píslarvottur var
vegna þín fús að líða,
með hetju gleði hraustastrar,
hels-pínu forsmán stríða;
hann kveikti blys, en blóði stökkt
bráðliga varð það aptur slökkt.
Margir af blossa máttu þar,
já, margir dauðann bíða.

---

Margur, þín vegna, mátti klár
mæringur blekki draga,
og himinbelta heilla tár,
þín helguð offur klaga;
sá sem, frá því í vöggu var,
við þig trúfesti sterka bar,

drógst upp við hatur, forsmán, fár,
og fjandskap illra daga.
Á nú, sannleikur! enn sem foss,
úthellast manna fleiri,
fyrir heill þína, fegurst hnoss,
fisi til handa, dreiri?
skal svo? þèr jarðar skírlynd drótt!
skundið hugprúðan fram með þrótt,
og vitri djörfúng verndið oss;
viss er þá sigur meiri.
Guðs laun hverjum, sem móð þeim með
mannlíga býst að stríða!
honum aldregi gugni geð,
af grimmd orrustu-hríða!
með vopnum ekki vonzkan ljót,
verkum hans dygðar brýzt á mót,
heldur í þoku hrekks ósèð,
hann kríngum sveimar víða.
En ef í hyggnu brjósti býr
brennandi dygðar hugur,
og hann lýginnar ofsi knýr
í áflog, tilvoldugur;
himinsins boði' í hjartans raust,
hann eptirfylgi tregðulaust,
og hvílist ekki fyrrenn flýr,
fallins óvinar dugur!
Nær órèttarins harðráð hönd,
hann í fángelsi keyrir,
og armur hans, sem buga bönd,
við brauð forgefins eyrir;

hans sál er frjáls; í hlekkjum nú
hollustu sver hann þeirri trú,
hverrar þóknanlig andsvör önd
í andarslitrum heyrir.
Hefir til varið heill og ró,
hann sannleik fyrir að stríða;
barn það af tið er borið, ó! —
á burt aldirnar líða.
Honum, sem fèll að dauða dúr,
dóttur hjartkærri jafnan trúr,
æruteikn lætur, eilíft þó,
ættrækin móðir smíða.

---

En vonin svignar, vora' í hrygð
vèr daga teljum aumir;
í ráðvöndustu rengdir dygð
rekumst af nýjum draumi.
Æ! guð að föður eigum vèr,
allir, sem vís og góður er!
Hvert er það ljós, sem hollri trygð
hefir vorn fót í taumi?

---

Æ! mætti — þá af bliðu blunds,
blómstur og fuglar nærast,
og ein hin föllnu lauf af lunds
lym-kvistum ennþá hrærast —
sig, fyrir Drottins augsýn opt,
önd mín huggandi fara' á lopt!

yfir mèr stjörnur myrkra munds
meðan lýsa sem skærast.

Þar sem leiptrandi þeirra her
þyrpir sèr öllumegin,
manns verður athöfn misvirt hèr,
í metum rèttum vegin,
og góðfúss hugar gremja sár,
með grát, sem rètt er eðlis-hár;
þar meður tárum einkis er,
augabrá framar þvegin.

Hvar einn bróðirinn annann sízt,
af illum hug fordæmir;
þar er föðurland það oss víst,
og þeir staðir heilnæmir,
eintómu hverra' af lopti ljóst
læknað verður hið sára brjóst,
og ágreiníngur allur snýst
uppí vina samkvæmi.

Misklíðarlausir mætast þar
menn, sem hèr reiðir gengu,
til sí-glaðværrar sambúðar,
sinnislag milt því fengu.
Vísdómur, ljós og friður frjáls
frjófgast, og lifa þar án táls,
gegnum eilífðir eilífðar,
sem öllu varir lengur.

## 3. DRAMBSEMIN.

Brot af brèfi *von Bars*, sem fyrr var getið, og hefir hann látizt rita brèfið greifa nokkrum, er hann kallar Tufiere. Greifanafn þetta kemur fyrir í skemtileik (kómedíu) Destouches ens frakkneska, sem kallaður er "grobbari". Eptir tveim handritum.

Inquinat egregios adjuncta superbia mores.
*Claud.*

þ. e.
Laungum drambið lýtta fær
lofsverðustu siði,
einsog málmur, annars skær,
óhreinkast af ryði.

Til þess greifi! trúðu mèr
trylltra meðal óra,
dárligast að Drambið er,
dygð og prýði jóra!
Það get eg án þrauta sèð,
þessum takist kvilla
fullvel, glansa fölskum með,
fávíst brjóst að villa.
En, sú dauðlig Adams kind,
óð sem vitran hefir,
hvernig sig af hroka blind
hofmóðs-djöfli gefur,
Til þess, án að taka í laun
tegund neins ábata,
viðurstygð að veru og raun
verði, sem menn hata; —

Það er, inntil þessa, sök
þenkíng ofhá minni,
hver ei væri sljó nè slök,
slíkt ef grípa kynni.
Frædendur, sem frètti' eg að
frómliga máli sögðu,
útskíríng á efni það
ærið daufa lögðu.
Hverr er eg? sem höndin þín
himna-drottinn! skapti;
get eg nokkuð meinkjör mín
mýkt af eigin krapti?
Í móðurlífi mynd eg fèkk,
mig þá höfðu getið
tveir syndarar, þar hjá þrekk
þróaðist fóstur ketið.
Æ, hvort get eg, án þess stór
á mig blygðan svífi,
minnst á, hversu fyrst eg fór
fárátt barn að lífi?
Stoltur dári! þenk til þess,
þó nú um sè liðið,
þú á fjórum, full-óhress,
fótum hefir skriðið.
Fæðíng vor og frumtíð má
fælu þá oss segja:
að vaxnir, þegar vöggu sjá,
verði sig að beygja.
Líka hverr, sem lítur mann
liðnum gröf til búa,

mætti þar við minnast hann
moldar sinnar fúa.
Hversu sem við glis og glaum
glaðvært líf vèr eigum,
byrjun þess og afdrif aum
aldrei snerta megum.

* * *

Dvergskvikindi fram svo fór
fánýtasta greyi,
það varð maður stykkjastór
strax á einum degi.
Brátt í sveit með risum rann
Rindar-elju kundur,
eina stundar íþrótt hann:
allt að rífa í sundur.
Hengja, kvelja, höggva og slá
hafði sèr að gamni
hvern, sem hann fèkk ógeð á,
áður enn varð að manni.
Loksins drambið þussa þeim
það gat kveikt í hjarta:
sækja vill með hernað heim
himins veldið bjarta.
Einnig sjálfum guða-gram
granda stáli hörðu;
sá með skruggu sópa nam
sögðum dverg af jörðu.

* * *

Ferjumaður fákænn sá
forna byttu smáði,

stundar hærri stètt að ná,
stýrimanns athöfn þáði.
Leiðsegenda lítt að fór
lögum: stjórn að vanda;
lèt því vakka lægis jór,
lá honum við að stranda.
Þegar drambið heimskur haus
herbergjar að vana,
ruglast hann, og rænulaus
rotar sig til bana.
*Palínúrum* sætur svöfn
sókti fram úr máta,
svo hann feigur fèll í dröfn
fiskum gefin áta.

* * *

Vals ef dárinn vængi fær
vogunarfullum huga,
hann í loptið hefjast nær
hátt upp eins og fluga.
Þessi' *Icarus* þeytir sèr
þá til sólarstaða
svo hann niðri saurgi hèr
seggi berhöfðaða.
Krummi, drambi keyrður fram,
kom of nærri sunnu,
fyri það misti fiðurham;
fuglsins vængir brunnu.
Falla sáum fantinn vèr
fávísastan hrafna,

og í djúpum ýldu-hver
oss til gamans kafna.

## 4. TIL HARPAGONS.

Brot af einu brèfi *von Bars*. Harpagon er uppgjörðarnafn og dregið af gripdeild og ágirnd. Brèf þetta er þriðja brèf í öðru kindi kvæða Bars. Eptir einu handriti.

*Lag: Vappaðu með mèr vala!*

*Viðkvæði:* Auð þvínga vís vann;
(vottar Seneks skrá [1])
hègómann heimskur að herra sèr á.

Láttu lastarana
lengi túngu spana
Harpagon! sem hana
hafa spotti vana;
þeim fyri gryfju grana
grípur tíðar alvaran.
*Auð þvínga vís vann.*
þá mun bráðan bana
buldur þeirra fá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Vit! af þeim er þèttur
þeirra milli settur
sá hinn rángi rèttur,

[1]) Divitiæ apud sapientem in servitio sunt, apud stultum in imperio. *Seneca de vita beata*, cap. 2.

að reiknast ágirnd vettur[1]
prýðis tjón nè prettur,
prakkara sem gjöri mann, —
*(Auð þvínga vís vann)* —
heldur lofs ei lèttur
ljómi dygðum hjá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Ærstir álasendur
akta, hvar þú stendur,
þann að hafa' á hendur[2]
hræðast myrkra fjendur;
manns við kyn þá kenndur
kúgar einn sig þræls í bann —
*Auð þvínga vís vann* —
gulls fyri rauðar rendur[3]
til reiðu písl að fá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Það má þá svo heita:
þróttur gjaldsins feita
glæpum gjöri breyta,
og gyldi dygðar veita;
himna dýrð háleita
hægu verði kaupir mann, —
*(Auð þvínga vís vann)* —
líkt og þeir, sem þreyta

[1]) *vettur* er sama og *ekkert.*

[2]) voga ei að fást við.

[3]) "*rendur* kallast eiginliga skildir, en *gulls rendur* kalla eg hèr peninga vegna líkrar lögunar." *skáld.*

þíng um stipti smá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Með hverju móti betur
maður vottað getur:
andi hverr oss hvetur,
og hvað oss mest fram-etur,
enn nær sinnar setur
sjálfs ágirndar form á þann —
*Auð þvínga vís vann* —
son, er sitt líf metur
sèr upprunnið frá?
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Er hann öndu fríða
ástundar að níða,
svo gæða, geð sem prýða,
gripdeild hlýtur tíða;
klækja kenníng stríða
kund sinn við því uppól hann.
*Auð þvínga vís vann.*
Vegna vondra smíða[1]
verður dári sá, —
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Latur, utan anna,
innan nízku ranna,
eptir eðalmanna
ósið Feneyanna,
æsku sáðtíð sanna
sèr til vansa brúkar hann. —

---

[1]) *Smiða*, vegna ills vana og uppeldis.

*Auð þvínga vís vann.* —
Únglíngs gæfu granna
gjöra þetta má.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Hugsun sú í sinni
segg ef úngum rinni
guðs af góðsemdinni:
góz sèr veitt að finni,
svo því öðrum ynni
og sèr sjálfum not af hann —
*Auð þvínga vís vann* —
virðist vargsjón hinni
versta skrímsli sá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Stórum brjóst á bokka
bráðan dóm svo kokkar:
frá þeim hneisu-hnokka
hnekkt skal ástarþokka
ómakligum okkar,
ættarskömm sig gjörir hann. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Allt, nema steinn og stokkar
stríðu skynjar þá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Sèst, þó ekki sópum
saman stórum hópum,
mikil mergð af glópum,
menn er sjálfir skópu;
óþakklætis ópum
upp djúphyggnin bregða kann. —

*Auð þvínga vís vann.* —
Af slægum hrekkja hrópum
hreifast ágirnd má.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Sannliga, sá er mætti
seinum undandrætti
nýju að ná embætti,
nóg fram leiða vætti
sína um ágirnd ætti,
útlærður sè þarf hann. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Því með þessum hætti
það er víst að fá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Eins og eðalmenni,
æfð í drambseminni,
höfug teikn af henni,
herma, fólk svo kenni,
að þeim upp svo renni,
opt sem tíðkast, hamíngjan. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Elur forsug enni
altarið slíkra þá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Dirfska! syrg þig svipta
sæld, er veitti gipta,
og hennar hjálp frá kippta,
hver þèr fyrr nam lypta;
nú við ágjarnt ypta
ódýr narraleik hún kann. —

*Auð þvínga vís vann.* —
Sjóðu sèr útskipta
setur dreka hjá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

Hann má hrúgu seima
hvorki með sèr teyma,
nè við hræra hēima,
heldur í fylsni geyma;
forþènustu feima
finna menn við ágjarnan. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Strax þeir smjaðri streyma,
þó stuggi við að sjá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

Gatstu list þá lúkum
lapið upp, sem brúkum,
tama peníngs púkum,
plógs af húngri sjúkum,
þýngslum með ómjúkum
múga að kúga fátækan —
*Auð þvínga vís vann* —
ómerkt, allt að kjúkum,
etið sem hann fá?
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

Kraptur nefndur nægir;
nú eru þínir hagir
rètt í lukku lagi;
lýðir trúa slægir,
hugur hvers ei vægir
hann sig tjái rèttlyndan —

*Auð þvínga vís vann —*
grimmd, sem öllum ægir,
ein sè trygg forsjá;
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Stoltið strax úr sæti
stígur vinar fæti,
að þèr öll um stræti
eptir runnið gæti;
eins þitt eptirlæti
eykur sig við hróður þann —
*Auð þvínga vís vann —*
sem fyri mannorðs mæti
muntu síðar fá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Þú, að þörfum skara
þeirra, sem ei spara,
heldur þartil hjara,
að höfum forsorgara,
er oss arði svara,
eigin gagns þó líði bann —
*Auð þvínga vís vann —*
hafir und' nafni Hara[1]
húð af gjört að flá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Eilíf frægð og framan!
fjandanum mesta gaman!
svo er margur saman

---

[1]) *Hari* (*Harri*) er Herra.

síþjölræmdur Haman[1]
gikks öfundar amann
á þig leggur hrakligan. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Slíkt við slóri taman
slynna líkjast má.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*
Ómennsk aura-suga,
ágirnd hverrar duga
þykir þeim skylduga,
þúng er skipti buga,
sèr með svellum huga
síns í missa náúngann, —
*Auð þvínga vís vann.* —
Hveim til hans óðfluga
hverfur aleign frá.
*Hègómann heimskur að Herra sèr á.*
Ein er úngra kvenna
yndislig að spenna;
bónorð hóf til hennar
*Harpax*, sem menn kenna;
ríkan ristil þenna
rekknum gipta faðir ann —
*Auð þvínga vís vann* —
sèrhverr sem á renna
sjónum ástar má.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

---

[1]) "*Haman* hef' eg hèr sett fyri Narra, því eptir Bars þaunkum hefir hann verið hánarri." *Skáld.*

Ákaft alþýðunnar
óvandaðir munnar
heiðra, heimsku brunnar,
hátt ágjarnan klunna,
æ því af þeim spunnar
ályktanir tignar hann. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Við not og nauðsyn bundna
narra góðfrètt þá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

Af þótt engum manni
ástarþokka kanni,
er hann einn týranni
óttans laus frá banni,
sá er illar annir
að hefst þær, sem vill og kann. —
*Auð þvínga vís vann.* —
Ólmur ígultanni
engum vægir sá.
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

Nirfill nízkur fleygir
niður á hverjum degi
gulli', er gat aðdregið,
grímu svart í legið,
hvar hann fè sitt feygir,
fólgna maura kjallarann —
*Auð þvínga vís vann* —
auga sem hans eigið
inní fær ei sjá.
*Hègómann heimskur að herra sèr à.*

Ef hann getur eigi
undan hafra dregið,
hèrmeð stolið heyi
hestum frá, nema deyi;
börnin, svengd þó beygi,
bita telur ofaní hann. —
*Auð þvínga vís vann.* —
En hvað fold ei fleygir
fúlu skrýmsli í sjá! —
*Hègómann heimskur að herra sèr á.*

## 5. TIL RAGÓTÍNS.

Brot af einu brèfi *von Bars.* Ragótín kemur fyrir í einni af gamansögum Scarrons ens frakkneska, og er uppgjörðar-nafn. Við lok kvæðis þessa hefir sèra Jón getið þess, að hann gæti ekki snúið fleirum af kvæðum v. Bars, fyrir því frumritin vantaði. Kvæðið er prentað hèr eptir einu handriti.

Hvílík pretta-stjarna stök
stýrir lífi manna!
að fyrir enga seljumst sök
sèrlund forlaganna.
Það er hlutdeild þín og mín: —
þá hafa forlög senda —
rauna þýngsta, Ragótín!
að renna skeið á enda.

Hvorugum heppnast okkar á,
að því sig þó beri,
lukkunni til lofs að fá
loksins byggt musteri.
Já, ef mig eg tæki til,
tið fordæmd! að rita
illt, sem eg um æfibil
átt hefi við að strita,
Víst ei mundir þræta þú,
þín sè bletta fegri
Litanía, enn saga sú,
sem og trúanlegri.
Harms er flækja hvert sinn ný
hennar lánga netið;
fimm ár hefi' eg fern þarí
fángi lukku setið.
Loptsjón [1] eina lítur sá
lýður, sem mig eygir,
*Melpómena* [2] mínum á
mætti burðar-degi.
Mund *Lúcínu* meðan hlíf
móður var, sem fæddi,
Komu-disin kvaddi víf
kraptalaust og hræddi.
"Dauðlig snót í heppnum hag!
"hörmúng sigra þessa!

[1]) *Loptsjón*, *Phænomen.*

[2]) *Melpómena* ein af 9 Músis; *mætti*, birtist. *Lúcina*, *Júnó*, barnburðargyðja; þ. e. meðan móðir mín lá á gólfi birtist henni *Melpómena*.

"minnstu þennan mikla dag,
"meðan lifir, blessa.
"Honum á mun *Hýmen*[1] þinn,
"hart stríð gegnum þetta,
"toll sjöunda taka sinn,
"að til mín kunni rètta.
"Þegar lárber svelgir sá,
"senn er fædt þú hefir,
"föðurlandsins eins ei á
"öfundarvald sig gefur[2].
"Forsvara mun framar hann
"fagra dygð, enn eiga,
"og *Venus-gyðju* víst engan
"vin-skenk[3] eignast mega.
"Ásýnd hans þó öðrum ljót
"að sèr hlæja kenni,
"bezta *Satýrs*[4] mættu mót
"málarar fá af henni.
"Satt er það að sífelt hann
"sorglig eymd mun deyfa;

---

[1]) Hýmen hjónabandsguð.

[2]) *Bar* orti á Frönsku og í Frakklandi, en var þar útlendur, þetta fyrirsegir hèr gyðjan móður hans.

[3]) Vinskenkur *Veneris* kallast fríðleikur, fögur ásýnd, vöxtur, hár og yfirlitur.

[4]) *Satyr* landvættur, skógar-guð, en *Satyricus* kallast sá, sem undir gamans yfirvarpi skrifar beiska alvöru eins og v. Bar; til hvorstveggja nafnsins er hèr litið.

"æfinligur ólánsmann
"út mun ljóðum dreifa."
Gyðjan hvarf að greindu því,
gjörla tíð útvísar,
spásagnar hvað orðum í
innt var þöglu dísar.
Goðspár tíminn illar æ
upp nam fylla bágur;
nóg eg kveð, en neitt ei fæ,
nema tómar plágur.
Ei, *Ragótín!* eg þó má,
eins og smábörn, væla,
pínu vil eg þola þá,
og þaraf ei mig skæla.
Margsannfærðan mig eg finn,
að maður líða hlýtur,
lukkuskerf unz síðsta sinn,
sem er að deyja, lítur.
Goð ei sèrhvert, gættu þess!
gullkórónu búið,
getur í háfum gylva sess
grátmein vor umflúið.
Stoltur opt af krónu kunn
kóngur not þau tekur,
að hann nasir augu og munn
í hana, sem þú[1], rekur.
Tróns í líki stundum stár
stóll á þremur fótum,

[1]) Eins og Ragótín í hatt sinn.

enginn háll er svo nè sár
á söðli hnúa ljótum.[1]
Sæll hinn stolti sýnist þrátt,
svo vill og menn haldi,
þó fætur hafi báða brátt
bleytta í náttkeraldi.[2]
Mjög er raupgjarn maðurinn
margur vesælasti,
vorri dylur súthag sinn
sjón, og drambs aðkasti.
Grein mèr þó, hví garpur skal
gabbaður uppskátt láta
það, sem kætir heimskan hal,
er hatar oss úr máta?
Illri heill og óvin kann
aptur hrinda knáum,
böl og kvöl á böl ofan
betrast unz vèr fáum.
Heimskur glatar sjálfum sèr
sældar hag í mesta;
hverskyns ólán hagnýtir
hygginn sèr til bezta.
Ávann sèr ei ótal ný
yfirvættis gæði
*Themistokles* útlegð í
óð og móð fyrir bæði?[3]

---

[1]) *Ragótín* þekkti þá óhægu setu.

[2]) Hrakfall Ragótíns, allt þetta sèst bezt af sögu Scarrons.

[3]) *Themistokles*, hershöfðíngi *Atenumanna*, var

Menn sjá: spila meðferð slíng
mund í frjálsri skapar
stilltan mann við stórvinníng,
sterkan, þá hann tapar.
Lukka baldin ei nær ann
æsktra teníngs kasta,
tabls við lok ei hirðir hann
himininn þó að lasta.
Honum listin hefir kennt,
hvernig vel skal nýta,
hvað, sem var af lukku lènt,
lærði hann það til hlýtar.
Rètt er það, minn *Ragótín!*
rauna mest tilfelli,
mikill getur maður sín
mýkt svo not af velli.
Fold á stiginn flóðs af mar
fóta *Cæsar* misti,
hugarstefnu hans það var
heillarboði fyrsti.
Heldur lukkuteikn, enn tjóns
taldi biltu slíka;
hrópaði glaður hann til fróns:
"Held eg þèr, *Affríka!*"
Lærum Róms af þengli það,
þánka vitrum meður:

---

rekinn þaðan í útlegð, en komst í mestu kærleika og tign hjá *Artaxerxes* Persa konúngi, svo hann sagði við börn sín: við værum að öllu illa komin, ef við hefðum ekki verið illa komin.

yfirvinnum eitt sèrhvað
óhentugt, sem skeður.
Úngur gikkur afsakast,
án sem þenkir heila,
básúnu nær blæs í fast
barlóm út að deila;
En nær böls við örlög sín
einn með hjarta slíngu
rekkur Byssi-Rabútín
ratar í örvæntíngu.
Það eg játa, svífist sá
sjálfur ei að granda
lifi sínu, lætur sjá
lítilsháttar anda.
Þar í *Sparta* búk sinn börn
britja og svelgja lètu,
banans sára biðu gjörn,
en böl sitt aldrei grètu.
Skyldi þá ei skammast sín
skjótt og fyrrast svari
rembilátur *Ragótín*,
rètt sem táls-meistari;
Sá er fyrir *Cíceró*
sig eða *Virgil* býður,
en af vesæld emjar þó,
ef honum skeina svíður.
Síðan rètt á samri stund
sínu breytir standi,
snýst í grimman heima-hund,
hvern mann sárt rífandi?

Eptirþánkann einn þèr fær
*Austurgauti* [1] kenndan,
illa samin óð sinn nær
um lèt betur vendan.
Mótgáng viður margfaldan
menn fá heill óveika;
að þeim dygðar aflar hann
og fullkomligleika.
Ægir, þegar ærr umbrýtst,
ekki kyrr liggjandi,
róðrardreng' af rýrum víst
röskvan sjómann vandi.
Eg þarf ei greiða, þykir mèr,
þökk í vinar hendur,
mig hafa gjört þann mann eg er
mínir ofsækendur.
Eg var hrakinn útlegð í,
órètt hverr þó sæi,
loksins slapp eg laus með því
lasta úr djúpum ægi.
Menn nema hefði mig svo hrjáð,
með þeim forstokkaður
væntanlig sem vítis-bráð
væra' eg Satans maður.
Eyðslusamur, óhreinn, ger,
eins og þegn hinn ríki,
í vitund þess, sem vegligt er
væri' eg *Katza* [2] líki.
Mynd eg væri Sílens [3] sönn,
og svo eg lýsi gjörla,
hlæiligri af *Amors* önn
elti stjörnu förla [4].

---

[1]) "*Austurgauti*, *Ostrogothys*, nomine *Grollo*". (Grollo, einn af Austurgautum á Italíu).

[2]) *Katzi*, *Catius* hja *Hórats*.

[3]) *Silenus* hèt fóstri og kennslufaðir *Bakchus*.

[4]) þ. e. *förula*, villa, reykandi.